Verð: 60 aur.

Íslendinga sögur.

26.

# Fóstbræðra saga.

Búið hefir til prentunar

**Valdimar Ásmundarson.**

Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1899.

Félagsprentsmiðjan.

# FÓSTBRÆÐRA SAGA.

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
VALD. ÁSMUNDARSON.



REYKJAVÍK.
ˈTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON*.
1899.

# FORMÁLI.

Fóstbræðra saga hefir verið gefin út áður visvar sinnum sérstök, 1822 og (af Konráði Gíslasyni) 1858, og þar að auki í Flateyjarbók (Kristiania 1862) og Hauksbók (Khöfn 1892—96).

Hér er fyrri hlutr sögunnar gefinn út eftir útgáfu Konráðs Gíslasonar, enn síðari hlutrinn eftir Hauksbók.

Það þótti réttara, að gefa út fyrri hlutinn allan, og halda þar síðan áfram frásögn Hauksbókar, heldr enn að taka hvorartveggju frásagnirnar á því skeiði sögunnar, sem þær ná báðar yfir, þótt frásögn Hauksbókar sé upphaflegri.

Fyrri hlutur sögunnar er í hdr. A. M. 132 fol. og 566 B, enn síðari hluturinn í Hauksbók. Þessi samskeyti fyrra og síðara hluts eru á miðri 82 bls. í þessari útgáfu.

Öll er sagan í Flateyjarbók, og eru prentaðir aftan við þessa útgáfu kaflar úr henni, sem ekki eru í 132 eða Hauksbók. Frásögnin í Flateyjarbók er miklu lakari, og sumstaðar skotið ýmsu inn í, sem líklega er búið til af afskrifaranum, eða eftir munnmælum, sem eru yngri enn sagan. Svo er um kaflann um bjargför þeirra Þorgeirs og Þormóðs, og líklega kaflinn um Kár; dvöl Þormóðs með Knúti konungi virðist geta verið sannsöguleg.

Málið á fyrri hluta sögunnar (eftir 132) er nokkuð frábrugðið því máli, sem er á öðrum Íslendinga sögum, og má af því sjá, að sagan er seint rituð í þeirri mynd.

Þær af vísunum, sem prentaðar eru í Hauksbók, eru skýrðar þar, og hefir hér verið stuðst við þær skýringar. Við einstaka vísu hefir dr. Jón Þorkelsson, fyrrv. rektor, sagt mér tilg. sínar og skýringar.

## TÍMATAL.

Fæddr Þorgeirr Hávarsson . . . . 99
Fæddr Þormóðr kolbrúnarskáld . . . 99
Veginn Þórðr á Skeljabrekku . . . 101
Víg Ingólfs og Þorbrands . . . . . 101
Víg Butralda . . . . . . . . . . . 101
Víg Þorgils Mássonar . . . . . . . 101
Þorgeirr varð sèkr og fór utan . . . 101
Þorgeirr og Grettir dvelja á Reykjahólum 101
Veginn Þorgeirr Hávarsson vorið . . 102
Veginn Þórarinn ofsi . . . . . . . 102
Þormóðr fór utan . . . . . . . . . 102
Þormóðr fór til Grænlands . . . . 102
Þormóðr dvelr með Þorkeli Leifssyni 102
Víg Þorgríms trölla . . . . . . . 102
Þormóðr dvelr í Grænlandi hjá Grímu og á Stokkanesi . . . . . 1027—2
Víg Ljóts . . . . . . . . . . . . 102
Þormóðr finnr Knút konung . . . . 102
Þormóðr fer aftr til Óláfs konungs . . 102
Stiklastaðaorrusta, þar sem Þormóðr féll 103



# Fóstbræðra saga.

1. Á dögum hins helga Óláfs konungs váru margir höfðingjar undir hans konungdæmi, ekki at eins í Noregi, heldr í öllum löndum, þeim er hans konungdómr stóð yfir, ok váru þeir allir mest virðir af guði, er konungi líkaði bezt við. Í þann tíma var höfðingi ágætr á Íslandi, í Ísafirði, er Vermundr hét; hann var Þorgrímsson, bróðir víga-Styrs. Vermundr hafði bústað í Vatnsfirði. Hann var vitr og vinsæll. Hann átti konu þá er Þorbjörg hét — hon var kölluð Þorbjörg digra, — dóttir Óláfs pá. Hon var vitr kona ok stórlynd. Jafnan er Vermundr var ekki heima, þá réð hon fyrir heraði ok fyrir mönnum, ok þótti hverjum manni sínu máli vel komit, er hon réð fyrir. Þat barst at einhverju sinni, þá er Vermundr var ekki heima, at Grettir Ásmundarson kom í Ísafjörð, þá er hann var sekr, ok þar sem hann kom, hafði

hann þat nær af hverjum, er hann kallaði til. Ok þó at hann kallaði þat gefit, eða þeir er laust létu féit, þá váru þær gjafir þann veg, at margir menn mundu sitt fé ekki laust láta fyrir honum, ef þeim sýndist ekki tröll fyrir dyrum. Því söfnuðu bændr sér liði ok tóku Gretti höndum, ok dæmdu hann til dráps, ok reistu honum gálga ok ætluðu að hengja hann. Ok er Þorbjörg veit þessa fyrirætlan, fór hon með húskarla sína til þess mannfundar, er Grettir var dæmdr, ok þar kom hon at, sem gálginn var reistr ok snaran þar við fest, ok Grettir þegar til leiddr, ok stóð þat eitt fyrir lífláti hans, er menn sá för Þorbjargar; ok er hon kom til mannfundar þess, þá spyrr hon, hvat menn ætluðust þar fyrir. Þeir sögðu sína fyrirætlan. Hon segir: „Óráðlegt sýnist mér þat, at þér drepið hann, því at hann er ættstórr maðr ok mikils verðr fyrir afls sakir ok margrar atgervi, þó at hann sé ekki gæfumaðr í öllum hlutum, ok mun frændum hans þykkja skaði um hann, þótt hann sé við marga menn ódæll“. Þeir segja: „Ólífismaðr sýnist oss hann vera; því at hann er skógarmaðr ok sannr ránsmaðr“. Þorbjörg mælti: „Ekki mun hann nú at sinni af lífi tekinn, ef ek má ráða“. Þeir segja: „Hafa muntu ríki til þess, at hann sé ekki af lífi tekinn, hvárt sem þat er rétt eða rangt“. Þá lét Þorbjörg leysa Gretti, ok gaf

honum líf, ok bað hann fara þangat sem hann vildi. Af þessum atburð kvað Grettir kviðling þenna:

(1) Mundak sjalfr
í snöru egnda
helzti brátt
höfði stinga,
ef Þorbjörg
þessu skaldi
— hon es allsnotr —
eigi byrgi.

Í þessum atburði má hér sýnast, hversu mikill skörungr hon var.

2. Hávarr hét maðr; hann var Kleppsson. Hann bjó á bæ þeim er heitir at Jök*uls*keldu. Hávarr var kynjaðr sunnan af *Akra*nesi, ok hafði farit þaðan fyrir víga sakir, því at hann var mikill vígamaðr ok hávaðamaðr ok ódæll. Hann átti konu þá er Þórelfr hét; hon var breiðfirzk at kyni; hon var dóttir Álfs ór Dölum, göfugs manns ok ágæts. Hávarr ok Þórelfr áttu son þann er Þorgeirr hét; hann var bráðgerr maðr ok mikill vexti, ok sterkr ok kappsfullr; hann nam á unga aldri at hlífa sér með skildi ok vega með vápnum. Bersi hét maðr, er bjó í Ísafirði; hann bjó á bæ þeim er á Dyrðilmýri heitir; hann átti þá konu, er Þorgerðr hét. Son þeira hét Þormóðr. Hann var þegar á unga aldri hvatr maðr ok hugprúðr, meðalmaðr vexti, svartr á hárslit ok hrokkin-

hærðr. Í þenna tíma bjó á Reykjahólum á Reykjanesi Þorgils Arason; hann var mikill höfðingi, vitr ok vinsæll, ríkr og ráðvandr. Illugi hét bróðir hans, hirðmaðr ens heilaga Óláfs konungs; hann var farmaðr mikill, og var jafnan annan vetr með Óláfi konungi, enn annan á Reykjahólum; hann hafði út kirkjuvið ok skálavið. Þeir bræðr, Þorgils ok Illugi, váru synir Ara Óláfssonar, Úlfs sonar ens skjálga, er nam Reykjanes, Högna sonar ens hvíta, Ótryggs sonar, Óblauðs sonar, Hjörleifs sonar konungs. Þorgerðr hét móðir þeira Þorgils ok Illuga; hon var dóttir Álfs ór Dölum. Móðir Álfs var Hildr Þorsteins dóttir ens rauða, Óleifs sonar ens hvíta, Ingjalds sonar, Fróða sonar; .móðir *Ingjalds* var Þóra, dóttir Sigurðar orms í auga; móðir Sigurðar var Áslaug, dóttir Sigurðar fáfnisbana. Þorgeirr Hávarsson var systrungr Þorgils Arasonar. Þorgeirr ok Þormóðr óxu upp í Ísafirði, ok var snemmendis vingan með þeim, því at þeir váru í mörgu skapglíkir. Snemmendis sagði þeim svá hugr um, sem síðar bar raun á, at þeir mundu vápnbitnir verða; því at þeir váru ráðnir til, að láta sinn hlut hvergi undir liggja, við hverja menn sem þeir ætti málum at skifta; meir hugðu þeir jafnan at fremd þessa heims lífs enn at dýrð annars heims fagnaðar. Því tóku þeir þat ráð með fastmælum, at sá þeira skyldi hefna annars, er lengr

lifði. Enn þó at þá væri menn kristnir kallaðir, þá var þó í þann tíð ung kristni ok mjök vanger, svá at margir gneistar heiðninnar váru þá eftir. Hafði sú siðvenja verit höfð frægra manna, þeira er þat lögmál settu sín í milli, at sá skyldi annars hefna, er lengr lifði; þá skyldu þeir ganga undir þrjú jarðarmen, ok var þat eiðr þeira. Sá leikr var á þá lund: at rísta skyldi þrjár torfur ór jörðu, langar; þeira endar skyldu allir fastir í jörðu, ok heimta upp lykkjurnar, svá at menn mætti ganga undir. Þann leik frömdu þeir Þormóðr og Þorgeirr í sínum fastmælum. Þormóðr var nökkuru eldri, enn þó var Þorgeirr sterkari. Uppgangr þeira gerðist brátt mikill. Fara þeir víða um heruð, ok váru ekki vinsælir; töldu margir þá ekki vera jafnaðarmenn. Höfðu þeir hald og traust hjá feðrum sínum, sem ván var at; virðu margir menn sem þeir heldi þá til rangs. Enn þeir menn, sem vanhluta þóttust verða fyrir þeim fóstbræðrum, fóru á fund Vermundar ok báðu hann koma af sér þessum vandræðum. Vermundr bauð Hávari ok Bersa á sinn fund, ok sagði þeim at mönnum líkaði lítt til sona þeira — „ertu Hávarr, utanheraðsmaðr“, segir hann, „ok hefir sezt hér niðr at engis manns leyfi; höfum vér ekki amast við bygð þína hér til; enn nú sýnist mér standa af Þorgeiri syni þínum órói ok stormr; viljum vér nú at þú færir

bústað þinn og bygð brott ór Ísafirði. Enn Bersa ok son hans munu vér af því ekki á brott reka, at þeir eru hér kynjaðir; væntum vér ok at minni stormr standi af Þormóði, ef þeir Þorgeirr skiljast". Hávarr svarar: „Ráða muntu því, Vermundr, at vér munum ráðast í brott ór Ísafirði með fé várt, enn ekki veit ek, nema Þorgeirr vili ráða vistum sínum". Nú eftir þessa þeira ráðagerð færði Hávarr bústað sinn suðr til Borgarfjarðar, ok bygði þar sem nú heita Hávarstoftir. Þorgeirr var þá ýmist með föður sínum eða vestr í Ísafirði með Þormóði, ok var hann mörgum mönnum nökkurr andvaragestr, þar sem hann kom, þó at hann væri á ungum aldri. Löngum var hann á Reykjahólum með Þorgilsi frænda sínum ok hafði af honum gott yfirlæti. Mikit vinfengi var með þeim Ara Þorgilssyni þegar á unga aldri, ok helzt þeira vinfengi meðan þeir lifðu báðir. Jöðurr hét maðr, er bjó á bæ þeim er heitir á Skeljabrekku; hann var garpr mikill ok höfðingi, ódæll ok lítill jafnaðarmaðr við marga menn, ríkr í heraðinu ok stórráðr, vígamaðr mikill ok bætti menn sjaldan fé, þótt hann vægi. Þat bar at einn vetr, at Jöðurr ok húskarlar hans fóru út á Akranes at mjölkaupum. Í þeiri för kom hann til Hávars, ok bað at hann mundi ljá honum hest út á Nes. Hann léði honum hestinn — „ok vil ek at þú látir hest-

inn hér eftir, er þú ferr aftr, ok hafir þú ekki lengra". Jöðurr kvað svá vera skyldu. Síðan fór hann út á Nes ok keypti mjöl sem hann ætlaði, ok fór heimleiðis þá er hann hafði þat annazt, at honum bar nauðsyn til; ok þá er hann fór utan með Grunnafirði um bæ Hávars, þá ræddu förunautar hans um við hann, at þeir mundu koma þar til húss ok láta þar eftir hestinn. Jöðurr svarar: „Ekki nenni ek at dveljast at því; mun ek nú hafa hestinn heim undir klyfjum, ok senda honum þegar aftr, er ek hefi haft í mína nauðsyn". Þeir segja: „Gera máttu þat ef þú vill. Enn ekki hefir Hávari jafnan líkat, ef af því væri brugðit, er hann vildi vera láta". „Ekki mun nú fyrir þat gert", segir Jöðurr. Hávarr sér ferð þeira, ok kennir mennina; ferr til fundar við þá ok heilsar þeim ok mælti: „Nú munu þér láta hér eftir hestinn". Jöðurr svarar: „Þú munt vilja lána mér hestinn heim til Skeljabrekku". Hávarr segir: „Ekki vil ek at nú fari hestrinn lengra". Jöðurr svarar: „Þó munu vér hafa hestinn, þótt þú vilir ekki ljá". Hávarr segir: „Svá má vera, at þat sé". Hann hleypr at hestinum ok hjó ofan klyfjarnar ok tók í tauma hestsins ok sneri heim á leið. Jöðurr hafði krókaspjót í hendi. Hann snarar þá at Hávari og leggr spjóti í gegnum hann. Af því sári lét Hávarr líf sitt. Jöðurr tók hestinn ok hafði með sér ok fór leið

sína til þess er hann kom heim. Heimamönnum Hávars þótti seint heim verða. Þeir leituðu hans ok fundu hann dauðan þar sem hann hafði veginn verit. Þeim þótti þau tíðendi mikil vera. Í þann tíma var Þorgeirr vestr í Ísafirði. Víg Hávars spurðist skjótt víða um heruð. Ok er Þorgeirr spurði víg föður síns, þá brá honum ekki við þá tíðenda sögn, eigi roðnaði hann, því at ekki rann honum reiði í hörund, ekki bliknaði hann, því at honum rann ekki í bein reiði; heldr brá hann sér engan veg við tíðenda sögnina; því at ekki var hjarta hans sem fóarn í fugli, ekki var þat blóðfult, svá at þat skylfi af hræðslu, heldr var þat hert af enum hæsta höfuðsmið í öllum hvatleik.

3. Svá er sagt, at Þorgeirr væri lítill kvennamaðr; sagði hann þat vera svívirðing síns krafts, at hokra at konum. Sjaldan hló hann. Óblíðr var hann hversdaglega við alþýðu. Mikill var hann vexti ok drengilegr í ásjónu, rammr at afli. Þorgeirr átti exi breiða, stundar mikla, sköfnungsexi; hon var snarpegg ok hvöss, ok fekk mörgum hrafni exin náttverð. Hann átti ok mikit fjaðrspjót; þat var með hörðum oddi ok hvössum eggjum, mikill falrinn ok digrt skaft. Í þann tíð váru á Íslandi sverð ótíð mönnum til vápnabúnings. Nú er Þorgeirr spurði víg föður síns, þá fór hann á Reykjahóla til Þorgils, ok sagði honum at

hann vildi fara suðr í Borgarfjörð, at hitta móður sína, ok bað at hann skyldi fá honum flutning yfir Borgarfjörð. Þorgils gerði sem hann bað. Nú ferr hann suðr í Borgarfjörð, ok er ekki getit um náttstaði hans. Færðir váru góðar ok snælaust í heraðinu; vötnin lágu öll. Ok er hann kom suðr yfir Hvítá, þá lagði hann leið sína til Skeljabrekku. Veðr var þykt ok hlætt; myrkt úti, bæði fyrir veðrs sakir ok nætr. Þorgeirr kom til Skeljabrekku síð um aftan; ok er hann kom á bæinn, þá váru dyrr aftr loknar ok menn nýkomnir í stufu frá eldi. Ljós brann í stufunni. Þorgeirr drap á dyrr. Jöðurr tók til orða: „Á dyrr er drepit; gangið út nökkurr sveina". Þá sá út húskarl einn ok sér mann úti fyrir dyrum standa með vápnum, ok spyrr, hverr hann væri. Hann svarar: „Vígfúss heiti ek". Húskarlinn mælti: „Gakk inn þú; heimul mun þér gisting". Þorgeirr svarar: „Eigi þigg ek gisting at þrælum; mæl þú at Jöðurr gangi út". Húskarl gengr inn, enn Þorgeirr stóð úti. Bóndi spurði húskarl, er hann kom í stofu: „Hverr kom maðr úti"? Húskarl svarar: „Veit ek at síðr, hverr hann er, at ek ætla, at hann viti eigi sjálfr". Jöðurr segir: „Hvárt bauð þú honum hér gisting"? Hann svarar: „Bauð ek". Jöðurr mælti: „Hverju svaraði hann"? „Ekki lézt hann vilja þiggja gistingarboð at þrælum; bað hann þik út koma".

Jöðurr tók spjót í hönd sér ok setti hjálm á höfuð sér ok gengr út í dyrr ok tveir húskarlar með honum; sér mann standa fyrir dyrum ok snýr spjótinu ok setti spjótsoddinn í þresköldinn. Hann spurði, hverr enn komni maðr væri. Sá sagði: „Ek heiti Þorgeirr“. Jöðurr sagði: „Hverr Þorgeirr ertu“? *Hann svarar:* „Ek er Hávars son“. Jöðurr mælti: „Hvert er erendi þitt hingat?“ Hann sagði: „Ekki veit ek, hvat til tíðenda verðr: enn eftir vil ek leita, ef þér vilit nökkuru bæta víg þat, er þú vátt Hávarr föður minn“. Jöðurr mælti: „Ekki veit ek, hvárt þú hefir þat spurt, at ek hefi mörg víg vegit, ok ek hefi ekki bætt“. „Ókunnigt er mér þat“, segir Þorgeirr; „enn hvat sem um þat er, þá kemr þetta til mín, at leita eftir þessum vígsbótum; því at mér er nær höggvit“. Jöðurr segir: „Ekki er mér allfjarri skapi, at minnast þín í nökkuru; enn fyrir því mun ek ekki þetta víg bæta þér, Þorgeirr, at þá þykkir öðrum skylt, at ek bæta fleiri víg“. Þorgeirr svarar: „Þér munuð ráða, hvern sóma þér vilið gera, enn vér munum ráða þykkju várri“. Nú ræddust þeir þessi orð við, ok stóð Þorgeirr ekki allnærr dyrunum; hann hefir spjót í hægri hendi ok sneri fram oddinum, enn exi í vinstri hendi. Jöðurr ok hans menn áttu dimt út at sjá, þar sem þeir váru frá ljósi komnir; enn Þorgeiri

var nökkuru hægra at sjá þá sem stóðu í dyrunum. Nú er þá varir sízt, þá gengr Þorgeirr at dyrunum ok lagði spjóti á honum miðjum, ok þegar í gegnum hann, svá at hann fell í dyrnar í fang þeim fylgdarmönnum sínum. Þorgeirr snýr í brott þegar í náttmyrkrinu; enn húskarlar Jöðurs *starfa at* honum. Þá var Þorgeirr fimtán vetra gamall, er víg þetta varð, sem Þormóðr kvað í erfidrápu Þorgeirs:

**(2) Starf hófsk upp þás arfa**
**auðveitir lét dauðan**
**— hestrennir vas hlunna**
**hugsnjallr — Klœings falla;**
**efnd tók Hávars hefndar**
**hafstóðs þá's vas Móði**
**— hann varð höpp at vinna**
**hvetr — fimtaan vetra.**

Þorgeirr fór um nóttina, ok nam ekki fyrr staðar enn á Hávarsstöðum. Hann drap þar á dyrr, ok var seint til hurðar gengit. Þórelfr kvaddi til húskarl einn út at ganga. Hann vaknar ok gnýr fast augun ok lætr illa við upp at standa ok mælti: „Ekki veit ek, at nauðsyn sé út at ganga, þótt menn fari um nætr“. Þórelfr mælti: „Sá einn mun um nætr fara í miklu myrkri, at nauðsyn mun á þykkja“. „Ekki veit ek þat“, segir húskarl, ok ríss upp, ok heldr seint, ok gengr til hurðar ok sér mann úti fyrir dyrum i náttmyrkri ok heilsar honum ekki — snýr inn aftr til rekkju sinnar ok legst

niðr ok breiðir á sig klæði sín. Þorgeirr gengr inn ok lýkr aftr hurðina eftir sér ok snýr til stofu. Þórelfr tók til orða: „Hverr kom maðr?“ Húskarl segir: „Þat er bæði, at ek veit ekki, hverr hann er, enda þykki mér ekki undir“. Hon mælti: „Óforvitinn maðr ertu“. Hon mælti þá við griðkonu eina: „Rís upp þú, ok gakk til stofu. ok vit, hverr maðr sá er, at þangat gekk“. Griðkona reis upp ok gekk til stofu, ok lýkr upp hurðinni líttat ok spyrr, hvárt nökkut sé manna í stofunni. Henni var sagt: „Hér er maðr víst“. Hon spyrr, hverr hann væri. Hann svarar: „Þorgeirr heiti ek“. Hon lýkr aftr hurðina ok gekk í skála. Þórelfr mælti: „Hverr kom maðr?“ Hon segir: „Þat ætla ek, at kominn sé Þorgeirr sonr þinn“. Þórelfr ríss þá upp ok kveykir ljós, gengr til stofunnar ok fagnar vel syni sínum, — spyrr tíðenda. Þorgeirr svarar: „Áverki nökkurr gerðist í kveld at Skeljabrekku“. Þórelfr spyrr: „Hverir áttu hlut í því?“ Þorgeirr svarar: „Ekki má ek þat af mér bera“. Þórelfr segir: „Hversu mikill áverki var þat?“ Þorgeirr svarar: „Ekki ætla ek at þar muni umbanda þurfa, er hann fekk af mér; þat sá ek á spjóti mínu, at út mundi hafa tekit í gegnum hann, ok fell hann á bak aftr í fang fylgdarmönnum sínum. Þórelfr mælti þá með glöðu brjósti: „Óbernsklegt bragð var þat, ok njóttu

heill handa, son minn. Enn hví lögðu þeir ekki eftir þér, fylgdarmenn hans?“ Þorgeirr segir: „Fengin váru þeim í fyrstu önnur verkaefni, enn brátt fal sýn meðal vár fyrir myrkrs sakir“. Þórelfr segir: „Svá má vera“. Þá var settr náttverðr fyrir Þorgeirr. Ok er hann var mettr, þá mælti Þórelfr: „Þat sýnist mér ráð, at þú leggist niðr til svefns, enn rís upp ofanverða nótt ok stíg þá á bak hesti þínum ok ríð vestr til Breiðafjarðar; húskarlar mínir skulu fylgja þér svá langt sem þú vill. Hér munu menn koma á morgin at leita þín, ok höfum vér ekki ríki til at halda þik fyrir fjölmenni. Vötn mun ok skjótt leysa, ef þeyrrinn helzt, ok er þá verra at fara, ef þau leysir. Hefir þú nú unnit þat hér, er mest nauðsyn bar til. Berðu Þorgilsi frænda mínum orð til þess, at hann taki mér nökkurn ráðstafa vestr þar hjá sér; ek mun selja jarðir mínar hér; vil ek ráðast þangat í átthaga minn“. Þorgeirr gerði sem móðir hans gaf ráð til; lagðist til svefns ok reis upp ofanverða nótt ok reið eftir þat í brott; ok er ekki getit um hans ferð fyrr enn hann kom vestr í Breiðafjörð, fekk sér þár skip ok fór á því vestr á Reykjanes ok sagði þar víg Jöðurs. Sýndist öllum mönnum, þeim er heyrðu þessa tíðenda sögn, sjá atburðr undarlegr orðinn, at einn ungr maðr skyldi orðit hafa at bana svá harðfengum heraðshöfðingja ok svá mikl-

um kappa, sem Jöðurr var. Enn þó var þat ekki undarlegt, því at enn hæsti höfuðsmiðr hafði skapat ok gefit í brjóst Þorgeiri svá örugt hjarta ok hart, at hann hræddist ekki, ok hann var svá öruggr í öllum mannraunum sem it óarga dýr. Ok af því at allir góðir hlutir eru af guði gervir, þá er öruggleikr af guði gerr ok gefinn í brjóst hvötum drengjum, ok þar með sjálfræði at hafa til þess er þeir vilja, góðs eða ills; því at Kristr hefir kristna menn sonu sína gert enn ekki þræla, enn þat mun hann hverjum gjalda, sem til vinnr. — Þorgeirr hafðist þá við ýmist á Reykjahólum, eða vestr í Ísafirði. Um várit eftir þessi tíðendi réðst Þórelfr vestr á Reykjanes með alt fé sitt. Þat sumar var sæzt á víg þeira Jöðurs. Þorgeirr var þá löngum með Bersa. Váru þeir Þormóðr enir beztu vinir; fengu sér einn ferjustút ok réðust til þess skips sjau menn aðrir með þeim; létu reiða yfir um sumarit í ýmsa staði, ok váru miðlungi vinsælir. Ingólfr hét maðr, er bjó í Jökulsfjörðum; hann var kallaðr Ingólfr sviðinn; sá bær var kallaðr á Sviðinsstöðum, er hann bjó á. Þorbrandr hét son hans; hann var garpr mikill ok ódæll ok óvinsæll. Þeir feðgar báðir váru ójafnaðarmenn miklir — tóku jafnan annarra manna fé með kúgan eða ránum. Þeir váru báðir þingmenn Vermundar, ok helt hann mjök hendi yfir þeim; því at þeir gáfu

honum jafnan góðar gjafir; ok var þeim því ekki skjótt hefndr sinn ofsi, sá er þeir höfðu við marga menn, at eiðr Vermundar stóð fyrir þeim. Sigrfljóð hét kona, ok var ekkja, ok bjó í Jökulsfjörðum; hon var vitr ok vinsæl ok var mörgum manni mikill gagnsmaðr. Fjörðr var í milli bygða þeira Sigrfljóðar ok Ingólfs, ok bar hon í mörgum hlutum stór vandræði fyrir þeim. Þorgeirr ok Þormóðr bjuggust til ferðar norðr á Strandir ok fara at föngum; ok er þeir váru búnir, þá lagði á fyrir þeim andviðri, ok gaf þeim ekki lægi út ór firðinum; höfðu margir menn af þeim um sumarit mikil óhægendi. Ok er komit var at vetri, rann á byrr, ok tóku þeir þá til segls og sigldu út ór Ísafirði gott veðr ok lítit; skip gekk lítit fyrir veðrs sakir, ok er þeir höfðu siglt um stund, þá tók veðrit at þykna, ok því næst at drífa; ok er þeir váru komnir fyrir Jökulsfjörðu, þá kom veðr í móti þeim hvast ok kalt með fjúki ok frosti; vissu þeir þá ekki, hvert þeir fóru; gerðist þá myrkvi mikill bæði af nótt ok fjúki; sneru nú forviðris skipinu ok fengu stór áföll, urðu allir vátir ok frusu at þeim klæðin; reyndu Ránar dætr drengina ok buðu þeim sín faðmlög; kómu at lyktum á fjörð einn; heldu þar inn eftir — ok í fjarðarbotninum váru naust ok þar skip inni; þar settu þeir upp skip sitt ok bjoggu um, ok ganga á land síðan, ok leita bæjar nökkurs —

finna um síðir bæ einn lítinn, drepa þar á dyrr, ok gengr út karlmaðr ok heilsar þeim, biðr þá inn ganga, er úti váru í illu veðri, og ganga þeir til stofu ok brann þar ljós; skipa þeir annan bekk. Þeim var heilsat. Þá spyrr ein kona, hverr fyrirmaðr væri þeira er komnir váru. Henni var sagt, að komnir váru Þorgeirr ok Þormóðr. — „Eða hverr spyrr at því"? sögðu þeir. Þeim var sagt, at Sigrfljóð húsfreyja spurði at því. „Heyrt hefi ég ykkar getit", segir hon, „enn ekki hefi ek sét ykkr fyrr, enn hvárt hafi þit verit veðrsælir í dag eða vinsælir?" Þeir sögðu: „Margir menn munu þat mæla, at þat sé mjök glíkt, ok mun þá skifta nökkuru, hverir um ræða". Sigrfljóð segir: „Vera má at þat sé".

4. Nú biðr hon taka við klæðum þeira, ok var eldr upp kveyktr fyrir þeim ok þídd klæði þeira. Eftir þat var þeim matr fenginn, ok eftir þat til rekkju fylgt ok búit um vel. Sofna þeir skjótt. Fjúk ok frost gekk alla nóttina; gó Elris hundr alla þá nótt óþrotnum kjöftum, ok tögg allar jarðir með grimmum kuldatönnum. Ok er lýsa tók um morgininn, þá var út sét. Ok er sá kom inn, er út hafði sét, þá spyrr Þorgeirr, hvat veðrs væri úti. Sá sagði, at veðr væri et sama, sem verit hafði um kveldit. Sigrfljóð mælti: „Þér þurfið ekki veðrsjúkir at vera; því at vel skulu þér hér komnir at

því er vér megum; ok fari þér heðan ekki fyrr enn gott veðr er". Þorgeirr svarar: „Vel ferr þér, húsfreyja, boð við oss; enn ekki bíta oss illviðri; vér eigum hvárki at sjá fyrir konum né börnum né kvikfé". Illviðri tók þá at lægja á víkr ok fjörðu ok gerði íslög mikil. Einn morgin reis Sigrfljóð upp snemma ok sá út — kemr inn farandi; ok spyrr Þorgeirr, hvat veðrs væri úti. Hon svarar: „Nú er gott veðr, þunt ok óvindlegt". Þormóðr mælti: „Stöndum upp þá, sveinar". Sigrfljóð mælti: „Hvat ætlizt þér fyrir?" Þormóðr svarar: „Vér munum fara norðr á Strandir, ok vita, hvat þar vili til fanga bera, enn láta hér eftir skip várt". Sigrflјóð mælti: „Undarlegir menn eru þér — vilið fara á Strandir at hvölum, enn taka ekki nálægri föng ok drengilegri". Þormóðr mælti: „Hvar eru þau föng?" Hon segir: „Drengilegra sýnist mér at drepa þá illvirkja, er hér ræna menn, enn starfa at hvölum". Þormóðr mælti: „Til hverra mælir þú?" Hon svarar: „Þat mæli ek til þeira Ingólfs ok Þorbrands, er mörgum manni hafa gert skömm ok skaða; hefðit (þér) þá margra manna hefnt í yðru verki, ef þér dræpið (þá), ok mundi þat verk margir yðr allvel launa". Þormóðr mælti: „Ekki veit ek, hversu heilráð þú ert oss nú; því at þeir eru vinir Vermundar, ok mun þat ekki laust eftir renna, ef þeim er nökkut til

meins gert“. Hon mælti: „At því kemr nú, sem mælt er, at ‚spyrja er bezt til válegra þegna’. Þér þykkist vera garpar miklir, þá er þér eruð í þeim veg at kúga kotunga, enn hræðizt þegar er í mannraunir kemr“. Þá spratt Þorgeirr upp ok mælti: „Standið upp sveinar ok launið húsfreyju gisting“. Ok þá stóðu þeir upp ok vápnuðu sik; gengu út, er þeir váru búnir; fara yfir fjörðinn á ísi; koma á bæinn *á Sviðinsstöðum* áðr menn váru upp staðnir“. Ingólfr vaknar ok heyrir, at menn ganga úti hjá húsunum, ekki allfáir saman, á frernum skóm. Þeir Þorgeirr ganga til dyra ok drepa á dyrr. Við þat vakna menn, þeir sem í skálanum váru, ok standa á fætr skjótt. Hvíldu þeir feðgar jafnan í klæðum; því at þeir áttu sökótt við marga menn. Þeir höfðu með sér tvá húskarla; þeir herklæddust allir; tekr sitt spjót hvárr þeira í hönd sér; ganga til hurðar ok lúka upp; sjá mennina úti, átta, ok alla vápnaða; spyrja, hverr sé þar flokks foringi. Þorgeirr segir til sín, — „ef þér hafið heyrt getit Þorgeirs Hávarssonar eða Þormóðar Bersasonar, þá megu þér hér þá sjá“. Þorbrandr svarar: „Efalaust er þat, at vér höfum heyrt getit Þorgeirs Hávarssonar ok Þormóðar, ok sjaldan at góðu, eða hvert er erindi yðvart hingat?“ Þorgeirr segir: „Þat er várt erendi hingat, at skapa skor ok jafna ójafnat. Vér

viljum gera yðr tvá kosti — annathvárt, at þér gangið hér frá yðru öllu, því er þér hafið ranglega fengit ok kaupið yðr þann veg líf, eða þér verið féit með karlmensku, meðan yðr endist líf til". Þorbrandr svarar: „Vér höfum fengit féit með karlmensku ok hraustleik, ok munu vér ekki annan veg láta enn vér höfum fengit. Enn ek hygg, Þorgeirr, at þú neytir fyrr dagverðar á spjóti mínu enn á fénu". Þorgeirr svarar: „Ek em berdreymr, sem ek á kyn til, ok hefir mik einkar órýrlega dreymt um mik, enn allrýrlegt um þik; ok mun þat eftir ganga, sem mik hefir dreymt, ok mun Hel, húsfreyja þín, leggja þik sér í faðm, ok muntu svá láta fé þitt alt — því at ‚firnum nýtr þess er firnum fær'.

5. Nú at svá mæltu sækja þeir Þorgeirr ok Þormóðr at þeim feðgum, enn bönnuðu förunautum sínum at vinna á þeim feðgum — því at þeir vildu sjálfir yfir þá stíga. Þeim Þorgeiri var dimt at sjá inn í dyrnar, því at lítt var lýst; enn út var ljósara at líta; ok var þeim hægra at verjast er inni váru, enn hinum at sækja er úti váru. Húskarlar Ingólfs hlaupa annat skeið út ok sæta áverkum við förunauta Þorgeirs. Þau urðu endalok þessa fundar, at Þorbrandr fell fyrir Þorgeiri, enn Ingólfr fyrir Þormóði. Tveir menn fellu af liði Þorgeirs. Húskarlar Ingólfs urðu sárir mjök, þess at þó

2*

batnar þeim. Þessa getr Þormóðr í erfidrápu Þorgeirs:

(2) Aldrspelli kveðk ollu
Ingolfs sonar — þingat
frétt es víg, sem vættik —
vald alföðurs tjalda;
fell fyr fræknum stilli
— fjörtjón vas þat ljóna —
— lítt vas þar til þrætu —
Þorbrandr drasils vandar.

Þeir tóku hesta tvá, Þorgeirr ok hans menn, ok klyfjuðu þá af mat; þeir ráku á brott þrjú naut, þau er helzt váru hold á; fara við svá búit aftr yfir fjörðinn. Sigrfljóð var úti, er þeir koma heim. Hon heilsar þeim ok spurði tíðenda. Þeir segja þau sem gerzt höfðu. Hon mælti: „Vel hafi þér heiman gengit, ok haglegan hafi þér haft hvalskurðinn, rekit ok vel margra manna harma ok sneypu ok svívirðu. Enn nú mun ek fara til Vatnsfjarðar á fund Vermundar ok segja þessi tíðendi, enn þér skuluð mín heima bíða“. Þeir báðu hana fara. Hon kvaddi til ferðar með sér húskarla sína. Þau tóku einn sexæring, er hon átti; róa inn eftir Ísafirði, ok létta ekki fyrr enn þau koma í Vatnsfjörð síð um aftan. Hon mælti við förunauta sína: „Nú skulu þér vera haldinorðir, ok segja ekki frá tíðendum þeim er gerzt höfðu; láti mik hafa orð fyrir oss“. Þeir sögðu svá vera skulu. Nú ganga þau til bæjar ok hitta

menn at máli. Tekr Vermundr vel við þeim ok spyrr þau tíðenda. Þau létust engi kunna at segja. Váru þar um nóttina í góðu yfirlæti. Um morgininn sagði Sigrflјóð, at hon mundi heimleiðis fara. Vermundr latti hana mjök — „ok ertu hingat sjaldsén", segir hann, „ok er þat ráð, at fara ekki svá hvatlega". Hon mælti: „Ek á lítt heimangengt; enn nú er gott veðr, ok vil ek ekki þetta færi láta undan ganga; vilda ek, Vermundr, at þú fylgdir mér til skips". Þá mælti hann: „Förum þá". Nú fara þau til skips. Þá mælti Sigrflјóð: „Hvárt hefir þú spurt vígin þau er gerðust þar í Jökulsfjörðum? Vermundr segir: „Hver víg eru þau?" Hon svarar: „Þorgeirr Hávarsson ok Þormóðr Bersason drápu þá feðga, Ingólf ok Þorbrand". Vermundr mælti: „Mjök ganga þeir fóstbræðr nú af sér, er þeir drepa menn fyrir oss. ok mundu vér þat vilja, at þeir dræpi ekki vára menn marga". Hon mælti: „Þat er sem ván er, at yðr sé svá um gefit. enn þat munu sumir menn mæla, at þeir hafi ekki þessa menn fyrir yðr drepit, heldr má hinn veg at kveða, at þeir hafi þessi víg fyrir yðr unnit. Enn hverr skal hegna ósiðu, rán eða hernað, ef ekki vilið þér, er stjórnarmenn eruð kallaðir heraða. Sýnist oss, at þeir Þorgeirr ok Þormóðr hafi þat unnit, er þér skylduð gert hafa, eða láta gera; ok mun yðr svá sýnast sem ek segi, ef yðr gefr

ekki missýni í þessu máli. Fór ek af því á yðvarn fund, at ek vilda mennina í frið kaupa, þá er vígin hafa vegit, enn ekki fyrir þá sök, at þeir sé bóta verðir, er vegnir eru — því at þeir hafa fyrir löngu fyrirgert lífi sínu ok fé, — heldr viljum vér gera í öllu þinn sóma, sem vér erum skyld til; ok eru hér nú þrjú hundruð silfrs, er ek vil gefa þér til friðkaups þeim Þorgeiri ok Þormóði". Nú tekr hon fésjóð undan belti sér, ok steypir fénu í kné Vermundi. Silfrit var gott. Vermundr hefir upp brún við fégjöfina; sefast hann af reiðinni ok heitir hann Þorgeiri ok Þormóði nökkurum friði; sagðist þó ekki vilja langvistir Þorgeirs þar um Ísafjörð. Nú skiljast þau at sinni. Ferr hon heim til bús síns, ok segir þeim Þorgeiri, hversu farit hafði með þeim Vermundi. Þeir þakka henni sitt tillag, er hon hafði þeim veitt. Nú eru þeir með henni um vetrinn. Ok er várar ok veðrátta batnar, þá flota þeir skipi sínu ok búa þat. Ok er þeir váru búnir til ferðar, þá þakka þeir henni þarvist sína ok allan velgerning, þann er hon hafði þeim veitt, slíkan drengskap, sem hon hafði þeim sýnt. Skiljast þau vinir. Þeir fara norðr á Strandir; hafast þar við um sumarit; verðr þeim gott til fjár ok fangs; hafa þeir þat af hverjum manni, sem þeir kveðja; váru allir við þá hræddir, sem fénaðr við león, þá er hann kemr í þeira flokk. Bersi

fór bygðum á Laugaból í Laugadal; því at Vermundr vildi ekki svá nær bæ sínum láta vera hráskinn þeira Þorgeirs ok Þormóðar. Um haustit fóru þeir norðan af Ströndum til Ísafjarðar ok settu upp skip sitt, þar er þeim þótti vel komit, ok búa um. Ferr Þormóðr þá til föður síns, enn Þorgeirr ætlaði at fara suðr á Reykjanes til frænda sinna. Leitar þá hverr fyrir sér þeira förunauta, þangat hverr, sem óðal átti; mælast þeir þat við, er þeir skiljast, at þeir skulu þar finnast er skipit stóð, þá er vára tæki, ok fara þá enn allir samt til fangs norðr á Strandir. Skiljast nú at svá mæltu, ok biðr hverr þeira vel fyrir öðrum.

6. Þorkell hét maðr, er bjó í Gervidal. Hann var vel fjáreigandi, enn lítill í þegnskap, enn eirinn í skaplyndi, huglauss í hjarta. Hann var kvángaðr maðr, ok hafði ekki fleiri hjón enn þrjú; griðkona var it þriðja hjón. Maðr hét Butraldi. Hann var einhleypingr, mikill maðr vexti, rammr at afli, ljótr í ásjónu, harðfengr í skaplyndi, vígamaðr mikill, nasbráðr ok heiftúðigr. Hann hafði vistir um sumrum ok tók kaup, enn lét reiðast yfir á vetrum með þriðja mann ok settist á bæi nökkurum nóttum saman. Hann var nökkut skyldr at frændsemi Vermundi í Vatnsfirði; ok því var honum ekki skjótt goldit þat verkkaup, sem hann gerði til. Butraldi kom með þriðja mann til gistingar í

Gervidal til Þorkels um kveld; ok þótt Þorkeli væri sárr matr, þorði hann þó ekki at synja þeim gistingar, ok er þeim til stofu fylgt ok kveykt ljós; sitja þeir þar með vápnum sínum, enn heimamenn váru fram í skála. Þá var nökkut kominn snjór á fjöll í skafla, enn mjök snjólaust í heraðinu — vötnin upp gengin, enn þá var frostviðri; var þá ok fjúk nökkut. Þorkell kom í stofu at spyrja þeira hluta, er honum var forvitni á at vita. Hann spurði Butralda, hvert hann ætlar at fara. Hann kvaðst fara skyldu suðr yfir Breiðafjörð. Þorkeli þótti ekki víst, hvárt honum mundi veðr gefa enn næsta dag yfir heiðina. Þá drap stall ór hjarta hans, ok þótti ill seta þeira, því at í hans hjarta mættist sínka ok lítilmenska; ok í því bili heyrir hann, at drepit er á dyrr, ok batnar honum ekki við þat; gengr hann fram ok til dyra, ok lýkr upp hurðunni, ok sér einn mikinn mann standa með vápnum fyrir dyrunum. Þorkell spyrr þann mann at nafni. Hann nefndist Þorgeirr. Þorkell spyrr, hvers son hann væri. Hann kvaðst vera Hávars son. Þá kemr æðra í brjóst Þorkeli, ok dattaði hjarta hans við. Þorkell mælti þá: „Hér er kominn Butraldi við þriðja mann, ok veit ek ekki, hvern frið hann býðr þér; hygg ek, at hann hafi illan hug á þér; því at hann er vinr Vermundar óvinar yðvars; enn ek má ekki manns blóð sjá, ok

mun ek í öngvit falla, ef þér berist á“. Þorgeirr svarar: „Ekki mun til skaða, bóndi, þótt vér sém hér komnir“. Gengr Þorgeirr inn ok til stofu. Þorkell kemr ok í stofu ok kerling hans. Hann tekr borð ok setr fyrir Butralda. „Skammr er skutill minn“, segir Þorkell. „ok gakk þú hingat Þorgeirr ok sit hjá Butralda“. Þorgeirr gerir svá, gengr um þvert gólf ok sezt niðr hjá Butralda undir borðs endann. Frá verðgetum er sagt vandlega: Tveir diskar váru fram bornir; þar var eitt skammrifsstykki fornt á diskinum hvárum ok forn ostr til gnættar. Butraldi signdi skamma stund, tekr upp skammrifit ok skerr, ok neytir, ok leggr ekki niðr fyrr enn alt var rutt af rifjum. Þorgeirr tók upp ostinn, ok skar af slíkt er honum sýndist; var hann harðr ok torsóttr. Hvárrgi þeira vildi deila við annan kníf né kjötstykki. Enn þó at þeim væri lítt verðr vandaðr, þá fóru þeir þó ekki til sjálfir at skepja sér mat; því at þeim þótti þat skömm sinnar karlmensku. Þá var matr fram settr fyrir Þorkel ok kerlingu hans; þau mötuðust við eld. Þau kómu stundum í stofu ok luku upp hurðu, ok skygndu í stofuna all óframlega; ok er gestir váru mettir, þá kom Þorkell í stofu, ok kerling hans, ok tekr hon mat af borði, enn Þorkell tók til orða: „Þau gistingarlaun vilda ek hafa, at þér ættist ekki ilt við, meðan þér eruð hér á mínum bæ;

því at mér orkar þat margra vandræða, ef þér berist hér á. Sýnist mér þat ráð, at Þorgeirr sofi hjá oss í skála, enn Butraldi ok hans förunautar sofi hér í stofunni“. Svá gera þeir, — sofa nú af nóttina. Ok er lýsa tók var Butraldi snemma á fótum, ok Þorkell. Þorgeirr var ok snemma á fótum. Þá var kveykt ljós í stofu ok borð fram sett, ok matr á borinn með sama hætti ok um kveldit hafði verit. Þá tekr Þorgeirr upp skammrifit ok skerr, enn Butraldi býr þá við ostinn. Ok er þeir váru mettir, þá ferr Butraldi á brott ok hans förunautar; hann ferr upp eftir dalnum, svá sem leið liggr. Nökkuru síðar ferr Þorgeirr; hann ferr ok upp eftir dalnum. Brött heiðarbrekka var upp ór dalnum Gervidal, þar sem þjóðleið liggr. Í brekkunni var þá skafl, mikill ok harðr. Þorgeirr sér þá, hvar þeir Butraldi fara, ok þykist vita, at þeir munu eiga harðfenni mikit í heiðarbrekkunni ok torvelda leið; snýr yfir ána ok ferr upp öðrum megin árinnar, — enn þeir fóru upp á brekkuna. — ok snýr þá aftr á þjóðleiðina. Butraldi kom at skaflinum ok skorar með exi sinni fyrir sér. Þorgeirr sér þá, hvar Butraldi fór; enn Þorgeirr var uppi á brekkunni. Butraldi mælti þá: „Rann kappinn nú“. Þorgeirr svarar: „Ekki rann ek, því fór ek aðra leið, at ek þurfta ekki at skera fönn fyrir mér; enn nú mun ek ekki

renna undan yðr“. Þorgeirr stendr þá á brekkubrúninni; enn Butraldi skorar fönnina. Ok er hann kom í miðja brekkuna, þá setr Þorgeirr spjótskefti sitt undir sik ok snýr fram oddinum, enn hefir exina reidda um öxl — rennir fönnina ofan at Butralda. Hann heyrir hvininn af för Þorgeirs, ok lítr upp, ok finnr ekki fyrr, enn Þorgeirr hjó framan í fang honum ok þar á hol. Fellr hann á bak aftr; enn Þorgeirr rennir fram yfir hann til þess at hann kemr á jöfnu, svá hart, at förunautar Butralda hrjóta frá í brott. Um þenna atburð er þetta erendi ort:

(4) Vel dugir verk at telja
— vápna hreggs — fyr seggjum
oft flýgr geirr — frá gunni —
— gjóð — Butralda — hljóða —;
þótt kunni mun minni
margrjóðanda þjóðir
— nek hnekkik því — þakkar
þess vígs fetils stíga.

Förunautar Butralda þora ekki at hefna hans, né ráða á Þorgeir, því at þeim þótti ilt at eiga náttból undir vápnum Þorgeirs. Styrma þeir yfir Butralda, enn Þorgeirr snýr upp á heiðina, ok ferr til þess er hann kemr suðr á Reykjahóla. Hann hefir þar góðar viðtökur, — var þar um vetrinn í góðu yfirlæti. Vetrarríki var mikit víða um heruð, ok fell fé fyrir mönn-

um — búin óhæg. Sóttu margir menn norðr á Strandir til hvalfanga.

7. Um várit eftir fór Þorgeirr til Ísafjarðar, þangat sem skip þeira stóð uppi. Þar kom ok Þormóðr ok skipverjar þeira. Þeir fara norðr á Strandir, þegar þeim gaf byr. Þorgils hét maðr, er bjó at Lækjamóti í Víðidal. Hann var mikill maðr ok sterkr, vápnfimr, góðr búþegn. Hann var skyldr Ásmundi hærilang, föður Grettis. Hann var ok skyldr Þorsteini Kuggasyni. Þorgils var Másson. Hann fór ok á Strandir, ok var á hval þeim er kom á almenningar, ok förunautar hans. Þorgeirr verðr ekki gott til fangs, þar sem hann var kominn; berr honum engi hvalföng í hendr, þar sem hann var kominn, né önnur gæði. Nú spyrr hann, hvar Þorgils var á hvalskurðinum, ok fara þeir Þormóðr þangat; ok er þeir koma þar, þá mælti Þorgeirr: „Þér hafið mikit at gert um hvalskurðinn; ok er þat vænzt, at láta fleiri af njóta, enn yðr, þessa gagnsmuna; er hér öllum jafn-heimilt“. Þorgils svarar: „Vel er þat mælt, — hafi hverr þat sem skorit hefir“. Þorgeirr mælti: „Þér hafið mikinn hluta skorit af hvalnum, ok hafi þér þat, sem nú hafi þér skorit, ok vildum vér annathvárt, at þér gangit at hvalnum, ok hafi þér þat, sem þér hafit af skorit, enn vér þann hluta er óskorinn er, eða hvárir at helmingi, bæði skorinn ok ó-

skorinn". Þorgils svarar: „Lítit er mér um at ganga af hvalnum; enn vér erum ráðnir til at láta ekki lausan þann hlut fyrir yðr, er skorinn er, meðan vér megum á halda á hvalnum". Þorgeirr mælti: „Þat munu þér þá reyna verða, hversu lengi þér haldit á hvalnum fyrir oss". Þorgils svarar: „Þat er ok vel, at svá sé". Nú herklæðast hvárirtveggju ok bjuggust til bardaga. Ok er þeir váru búnir, þá mælti Þorgeirr: „Þat er vænst, Þorgils, at vér sækimst; því at þú ert fulltíði at aldri ok knálegr ok reyndr at framgöngu; ok er mér forvitni á, at reyna á þér, hverr ek em; skulu aðrir menn ekki til okkars leiks hlutast". Þorgils svarar: „Vel líkar mér, at svá sé". Mjök váru þeir jafnliða. Nú sækjast þeir ok berjast hvárirtveggju. Þeir Þorgeirr ok Þorgils láta skamt höggva í milli; því at hvárrtveggi þeira var vápnfimr. Enn fyrir því, at Þorgeirr var þeira meir lagðr til mannskaða, þá fell Þorgils fyrir honum. Í þeim bardaga fellu þrír menn af Þorgils liði; aðrir þrír féllu af liði þeira Þorgeirs. Eftir þenna bardaga fóru förunautar Þorgils norðr til heraðs með miklum harmi. Þorgeirr tók upp allan hvalinn, skorinn ok óskorinn. Fyrir víg Þorgils varð Þorgeirr sekr skógarmaðr. Fyrir hans sekt réð Þorsteinn Kuggason ok Ásmundr hærulangr. — Þeir Þorgeirr ok Þormóðr váru þat sumar á Ströndum,

ok váru þar allir menn hræddir við þá, ok gengu þeir einir yfir alt, sem lok yfir akra. Svá segja sumir menn, at Þorgeirr mælti við Þormóð, þá er þeir váru í ofsa sínum sem mestum: „Hvar veiztu nú aðra tvá menn okkr jafna í hvatleik ok karlmensku, þá er jafn-mjök sé reyndir í mörgum mannraunum, sem vit erum?“ Þormóðr svarar: „Finnast munu þeir menn, ef at er leitat, er ekki eru minni kappar, enn vit erum“. Þorgeirr mælti: „Hvat ætlar þú, hvárr okkarr mundi af öðrum bera, ef vit reyndim með okkr?“ Þormóðr svarar: „Þat veit ek ekki; enn hitt veit ek, at sjá spurning þín mun skilja okkra samvistu ok föruneyti, svá at vit munum ekki löngum ásamt vera“. Þorgeirr segir: „Ekki var mér þetta alhugat, at ek vilda, at vit reyndim með okkr harðfengi“. Þormóðr mælti: „Í hug kom þér, meðan þú mæltir, ok munu vit skilja félagit“. Þeir gerðu svá; ok hefir Þorgeirr skip, enn Þormóðr lausafé meira, ok ferr á Laugaból; enn Þorgeirr hafðist við á Ströndum um sumarit, ok var mörgum manni andvaragestr. Um haustit setti hann upp skip sitt norðr á Ströndum ok bjó um ok starfaði fyrir fé sínu. Síðan fór hann á Reykjahóla til Þorgils, ok var þar um vetrinn. Þormóðr víkr á nökkut í Þorgeirsdrápu á misþokka þeira í þessu erendi:

(5) Frétt hefr öld, at áttum

— undlinns — þá's svik vinna
— rjóðanda nautk ráða —
rógsmenn saman gnóga.
Enn vil einskis minnast
— œsi-dýrs við stýri
raun gat ek fyrða fjóna —
flóðs, — nema okkars góða.

8. Skip stóð uppi í Norðrá í Flóa. Þar var þá skipa höfn tíð. Í því skipi keypti Þorgils ok Illugi bróðir hans á laun til handa Þorgeiri, ok létu búa um varnat at þeim hluta, er Þorgeirr átti í skipinu. Þeir Þorgils ok Illugi riðu ekki til öndverðs þings um sumarit; því at þeir vildu ekki fyrr fara um Breiðafjarðardali, enn Þorsteinn Kuggason væri riðinn ór heraði til þings; því at þeir vildu þá fylgja Þorgeiri til skips, skógarmanni Þorsteins. Maðr hét Skúfr, er bjó í Hundadal í Dölum. Skúfr var góðr bóndi ok gagnsamr við menn. Bjarni hét son Skúfs, er þar var heima með honum. Skúfr hét ok sauðamaðr Skúfs í Hundadal. Nú fara menn til þings; enn þeir fara vestan af Reykjahólum. Þeir hafa sent menn fyrir til þings, at tjalda búðir sínar. Þeir hafa náttverð í Saurbæ, enn ríða um nóttina vestan í Dali ok ætluðu at hafa dagverð í Hundadal. Þeir koma snemma morgins í Miðdali, fram fyrir Þykkvaskóga. Þeir éta þar ok sofa. Þorgeirr hefir rauðan hest, vænan ok reiðgóðan ok mikinn vexti. Ok er liðinn var miðr morginn, þá

bjóða förunautar þeira at taka hesta. Nú rísa þeir upp ok fara at hrossum. Hestr Þorgeirs fanst ekki. Þeir fóru at leita hestsins; því at þar váru miklir skógar um alla hlíðina. Svá lýkr, at hestrinn finst ekki; taka þeir þá einn klyfjahest ok skifta klyfjum á fleiri hesta; Þorgeiri er þá fenginn sá hestr; geta þá at líta, hvar einn maðr ríðr rauðum hesti, reiðgóðum, ok rekr sauði nökkura fyrir sér upp eftir eyrunum frá Sauðafelli; hann eltir hart sauðina — því at hann hafði skjótan hest. Þorgeiri sýnist þessi hestr vera glíkr sínum hesti. Nú lætr hann sem hann viti ekki, — hefir af augabragð, hvert maðrinn ríðr, ok sér hann, hvar maðrinn eltir sauðina til bæjarins í Hundadal. Skúfi höfðu goldnar verit ær nökkurar vestan ór Laxárdal, ok höfðu þær gengit í brott, ok fór Bjarni, son Skúfs, at leita ánna, ok hafði hann tekit hest Þorgeirs. Nú ríðr flokkrinn til bæjarins í Hundadal; ok bjóða þeir bræðr förunautum sínum, at þeir taki af hestum sínum utangarðs ok láti ekki hrossin ganga í túnit; enn þeir bræðr riðu til húss með fá menn. Þorgeirr reið til kvíanna, þar sem hann þóttist kenna hest sinn. Skúfr er þá heim kominn, ok rak sauðina í kvína. Bjarni sitr á hestinum, ok hefir þá rekit ærnar í kvína, þær sem hann hafði fundit. Þorgeirr spyrr: „Hverr er þessi maðr, er hér sitr á hestbaki?“ „Sá heitir

Bjarni“. Þorgeirr segir: „Þú hefir vænlegan hest, eða hverr á hestinn?“ Bjarni svarar: „Sannspurt er þat, at hestrinn er vænlegr; enn þat veit ek ekki, hverr hann á“. Þorgeirr segir: „Fyrir hví tóktu hestinn?“ Bjarni svarar: „Því tók ek hestinn, at mér þótti betra at ríða enn ganga“. Þorgeirr mælti: „Þat sýnist mér nú ráð, at þú stígir af baki ok látir hestinn koma í hendr eiganda?“ Bjarni mælti: „Ek mun nú litlu við auka um reiðina, því at ek mun ekki lengra ríða enn heim til dyra“. Þorgeirr mælti: „Þat vil ek at þú stígir nú þegar af baki“. Bjarni mælti: „Ekki mun hestinn skaða, þótt ek ríða heim til húss“. Þorgeirr mælti: „Ek vil þessu ráða, at þú ríðir eigi lengra at sinni“. Bjarni vill snúa hestinum heim til garðshliðsins ok ríða heim til húss. Enn Þorgeirr leggr spjótinu til hans ok þegar í gegnum, svá at hann fell þegar dauðr af baki. Skúfr sauðamaðr sá, at Bjarni fell af baki. Hann hleypr ór kvíadyrunum, þar sem hann var at byrgja kvíadyrnar; hann tekr exi sína ok höggr til Þorgeirs tveim höndum. Þorgeirr laust við spjótskafti sínu við höggvinu ok bar af sér, enn hann hjó til Skúfs enni hægri hendi með exinni í höfuðit ok klauf hann í herðar niðr ok dó hann þegar. Förunautar Þorgeirs fara heim skyndilega ok segja höfðingjum tíðendin. Þeim þótti þetta ill tíðendi vera, er þau

váru. Fá þeir þegar menn til að fylgja Þorgeiri í brott, at hann gengi ekki í augsýn föður ens vegna eða frændum þeira er vegnir váru. Eftir þat sögðu þeir Skúfi tíðendin. Þá sá hann sér engan sóma sýnna, enn þiggja sjálfdæmi þau er þeir bræðr buðu fyrir vígin, ok fébætr fyrir menn sína, at svá göfgum mönnum sem þeir bræðr váru, allra helzt er sá var sekr, er vígin hafði vegit. Nú sættast þeir at svá mæltu. Þessa víga getr Þormóðr í Þorgeirsdrápu:

(6) Kapp lét höldr — at hepni
hríð gerðisk þá sverða;
hrátt gat hrafn at slíta
hold — Más syni goldit.
Enn vas vágs at vígi
viggríðandi síðan —
hann bar greipr at gunni
gjarna — Skúfs ok Bjarna.

Þeir Þorgils ok Illugi átu dögurð í Hundadal, ok eftir þat riðu þeir suðr til Borgarfjarðar ok fylgdu Þorgeiri til skips. Sá maðr var til skips kominn, er Gautr hét; hann var son Sleitu; hann var náinn at frændsemi Þorgilsi Mássyni, er Þorgeirr hafði vegit. Gautr var mikill vexti ok sterkr at afli, ódæll og harðfengr. Hann hafði sér fari tekit af stýrimanni, ok vissi engar vánir til þess, at Þorgeirr ætlaði þar utan at fara. Hann færði brún á nef við kvámu Þorgeirs, ok sýndist nakkvat vandræði vera, at þeir sé samskipa við þat skaplyndi sem hvárr þeira

hafði. Skip var albúit ok bundinn bulki, ok vara Gauts kominn í bulka. Nú er Þorgeirr heyrði gnadd austmanna, um návist þeirra Gauts, þá mælti hann: „Vel má ek nýta at vera samskipa við Gaut, hversu síða brún sem hann setr“. Enn hvat sem Þorgeirr ræddi um samvistu þeira, þá var þat ráð tekit, at brotinn var upp bulkinn, ok vara Gauts í brott borinn. Reið hann þá norðr til heraða. Austmenn leggja skipi sínu ofan eftir ánni ok út til Seljaeyrar. Þeir bræðr ríða ekki fyrr ór heraði, enn skipit lét út ok í haf. Síðan riðu þeir til þings með miklu fjölmenni ok sættust fyrir hönd Þorgeirs á víg Þorgils Mássonar; færa fram sýknu hans. Þorgeir ok hans félaga velti úti í hafi nökkura hríð; sjá at lyktum land fyrir stafni, ok kenna austmenn landit, ok er þat Írland. Sýnist þeim ósýnn friðrinn, ef þá rekr þar. Þorgeirr mælti: „Þat er sýnna, ef vér verimst vel, at vér fáim nökkurum mönnum ærinn náttverð, áðr vér erum drepnir, ok er þá hæft nökkut í várri vörn. Nú kasta þeir akkerum, ekki allnær landi, ok brjóta upp vápn sín, ok búast þeir til bardaga, ef þess þýrfti við. Síðan sjá þeir fjölmenni mikit á land upp, ok mörg spjót, sem á skóg sæi. Þó at Írar hefði háskeft spjót, þá tóku þau þó ekki til þeira. Nú halda þeir fé sínu ok fjörvi ok sigldu á brott — þá er þeim gaf byri. Þeir fóru þaðan til Englands ok

váru þar um hríð. ok hefir Þormóðr svá um ort, at Þorgeirr þægi þar góðar gjafir af höfðingjum. Eftir þat fór hann til Danmerkr, ok fekk þar svá mikla virðing, at Danir tígnuðu hann nær sem konung, at því er Þormóðr hefir um ort. Síðan fór hann til Noregs, ok á fund Óláfs konungs ens helga, ok gengr fyrir hann ok kvaddi hann vel. Konungr tók vel kveðju hans ok spurði, hverr hann væri. Hann svarar: „Ek em íslenzkr maðr ok heiti ek Þorgeirr". Konungr mæiti: „Hvárt ertu Þorgeirr Hávarsson?" Hann svarar: „Sá er maðr enn sami?" Konungr segir; „Heyrt hefi ek þín getit. Þú ert mikill maðr vexti ok drengilegr í ásjónu, ok munt ekki vera í öllu gæfumaðr". Konungr bauð Þorgeiri með sér at vera, ok þá gerðist hann hirðmaðr Óláfs konungs. Konungr lagði mikla virðing á Þorgeir; því at hann reyndist í öllum mannraunum enn röskvasti maðr ok góðr drengr. Þorgeirr fór kaupför suðr til Vindlands, ok var þar lítill friðr í þenna tíma kaupmönnum norðan ór löndum. Af þessi ferð varð hann ágætr; því at hann hafði þat af hverjum sem hann vildi. Þorgeirr hafðist þá í förum við ok var annan vetr jafna með Óláfi konungi í Noregi, enn annan á Íslandi, á Reykjahólum. Jafnan kom hann skipi sínu í Borgarfjörð, ok heldu því í Flóa í Norðrá, ok setti þar upp á vetrum fyrir vestan ána, þar

sem nú er kallat Þorgeirshróf; þat er suðr frá holti því er Smiðjuholt heitir. Þorgeirr bjó sex sinnum skip sitt af Íslandi, at því er Þormóðr segir:

(7) Sex lét sævar Faxa
sviprunnr heðan — gunnar
*þollr* vas örr — at öllu
undlinns búinn sinnum.
Sjároknum réð sœkir
seims — frá ek þat; heima
oft vann auðar skiftir
erring — í haf knerri.

9. Nú er at segja frá Þormóði, hvat hann hafðist at, meðan Þorgeirr var í förum. Þormóðr fór til föður síns Bersa á Laugaból, þá er þeir Þorgeirr skildu félag sitt, ok var með honum mjök marga vetr. Honum þótti löngum dauflegt, því at þar var fáment. Kona hét Gríma, er bjó á bæ þeim er í Ögri heitir. Hon var ekkja ok vel fjáreigandi. Þat var mælt um Grímu, at hon kynni sér mart, ok þat töluðu menn, at hon væri fjölkunnig. Nú fyrir því at kristni var ung ok vanger, þá sýndist þat mörgum mönnum atgervi, at maðr væri fjölkunnigr. Þórdís hét dóttir Grímu; hon var væn ok vinnugóð, ok var heima með henni; hon var oflátleg. Kolbakr hét þræll Grímu; hann var mikill ok sterkr ok vænn yfirlits, ok þó mjök harðlegr. Þormóðr lagði mjök kvámur sinar í Ögur, ok sat löngum á

tali við Þórdísi, dóttur Grímu, ok af hans kvámum ok tali var kastat orði til, at hann mundi fífla Þórdísi. Ok er Gríma vissi þær umræður, þá kom Gríma at máli við Þormóð eitthvert sinn ok tekr svá til orðs: „Þat er orðtak mjök margra manna, Þormóðr, at þú fíflir Þórdísi dóttur mína, ok er mér þat lítt at skapi, at hon hljóti orð af þér — ekki fyrir því at henni sé varboðit þar sem þú ert, heldr fyrir þá sök at vera kann, at þeir menn er til hafa gerzt at biðja hennar, ef þeir vissi, at þú ert nökkut við mál hennar riðinn — má vera at þeim sýnist troll standa fyrir dyrum þar sem þú ert. Nú ef þú vilt biðja hennar, þá mun ek gefa þér hana". Þormóðr svarar: „Vel fara þér orð um þetta mál, ok víst skal ek meta þín orð; enn ekki er skaplyndi mitt til þess at kvángast, enn þó vænti ek mér ekki framar enn eiga dóttur þína; enn þó mun þat fyrir farast". Nú skiljast þau at svá mæltu. Ferr Þormóðr heim ok var heima þat skeið, er eftir var sumarsins. Ok er vetra tók, þá gerðust íslög mikil ok færðir góðar; lagði ok Ögursvatn. Þormóði þykkir dauflegt, því fátt var til skemtunar á Laugabóli. Endrnýjar hann þá ferðir sínar í Ögur til Þórdísar. Kemr þá aftr enn sami vandi ok orðrómr ok fyrr um vinfengi þeira Þórdísar ok Þormóðar. Þormóðr gekk með skjöld ok sverð jafnan, er hann fór

í Ögur, því at hann átti nökkut sökótt við suma menn. Gríma ræddi þá enn um við Þormóð, at hann skyldi af venja kvámur sínar — „ok firra svá“, segir hon, „dóttur mína ámæli“. Þormóðr svarar vel hennar máli; enn þó kom í sama stað niðr um ferðir hans. Þat var einn dag, þá er Þormóðr var í Ögri, at Gríma talaði við Kolbak: „Ek vil senda þik inn á bæi með veft, er hafa skal í vef þann er þar er ofinn“. Kolbakr býst til ferðar, enn Gríma lauk upp örk einni, er hon átti, ok tekr þar upp vindur nökkurar ok mikit höggsax fornt ok hvast ok bitrlegt — lætr þat koma í hönd Kolbaki ok mælti svá: „Haf þú þetta í hendi ok ver ekki slyppr“. Kolbakr tók við saxinu. Enn Gríma lét vindurnar koma í meðal stakka Kolbaki. Hon fór höndum um hann allan ok svá klæði hans. Eftir þat fór Kolbakr leiðar sinnar. Veðr tók at þykna ok hlána ok tók af þat snjáföl, sem komit hafði. Þá er á leið daginn, mælti Þórdís við Þormóð: „Þat vilda ek, at þú færir aðra leið heim enn þú ert vanr og færir fyrir innan víkina Ögursvík, og et efra'inn eftir hlíðinni til Laugabóls. Þormóðr svarar: „Hvat berr til þess, er þú vilt at ek fara þessa leið?“ Þórdís mælti: „Vera kann at íss hafi versnað á víkinni, er veðrið hlánar, ok vilda ek at þú færir engum slysförum“. Þormóðr mælti: „Íssinn mun vera öruggr“.

Þórdís mælti: „Ekki bið ek þik fleira enn svá, Þormóðr, at mér mun verr þykkja um, ef þú varnar mér því er ek bið“. Nú sér Þormóðr at Þórdísi þykkir miklu skifta á því er hon biðr ok heitr hann henni at fara þá leið er hon bað. Síð um kveldit fór Þormóðr ór Ögri. Ok er hann var skamt kominn frá dyrum, þá kemr honum í hug, at Þórdísi mundi engu skifta, hverja leið hann færi. Hann bregðr á sitt ráð, ok ferr et skemsta yfir víkina á ísi. Sauðahús stóð fyrir innan víkina ok var tún um sauðahúsit. Þormóðr gekk fram fyrir húsdyrnar. Ok í því bili hljóp Kolbakr frá húsinu með brugðit sverð ok hjó þegar til Þormóðar; þat högg kom á hönd Þormóði fyrir ofan ölnboga ok verðr þat mikit sár. Þormóðr kastar skildinum ok bregðr sverðinu enni vinstri hendi ok höggr tveim höndum til Kolbaks ok lætr skamt höggva í millum. Sverðit beit ekki, því at Kolbakr var svá magnaðr af yfirsongum Grímu, at hann bitu ekki vápn. Kolbakr hjó ekki oftar til Þormóðar enn um sinn. Hann mælti: „Alls á ek kosti, Þormóðr, við þik ef ek vil; enn ekki mun ek nú fleira at gera“. Kolbakr snýr nú heim á leið ok segir tíðendin. Grímu þótti Kolbakr oflítit hafa at gert við Þormóð, ok lét svá sem hon hefði *(meira ætlat honum). Þormóðr reist í sundr línbrók sína ok* batt sár sitt ok gengr heim á Laugaból. *Verka-*

*kona* beið Þormóðar í stofu ok var *þar ljós, enn aðrir* menn í rekkju komnir. Ok er Þormóðr kom í stofu, þá var sett borð fyrir hann ok matr á borinn. Þormóðr neytti lítils matar. Heimakona sér at hann er blóðigr. Hon gengr fram ok segir Bersa, at Þormóðr var heim kominn ok þat með at blóðug váru klæði hans. Bersi reis upp ok gekk til stofu, heilsar Þormóði ok spyrr tíðenda. Þormóðr segir frá fundi þeira Kolbaks ok áverka þeim er hann hafði fengit. Bersi mælti: „Var svá, at Kolbak bitu engi járn?“ Þormóðr svarar: „Oft hjó ek til hans með sverðinu, ok beit ekki heldr enn ek berða með talknskíði“. Bersi mælti: „Þar kom fram trollskapr Grímu“. Þormóðr kvað vísu:

(8) Hrundar berk á hendi
— hjaldr — urpum þá skjaldi —
song — höfum sár of fengit —
siklings — flugu mikla,
nærgi 's hrafns of hefna
hlunns glapvígum runni
umnýsandi ossa
árkyndils má sára.

Bersi mælti: „Svá er víst — ekki er sýnt, nær þessar sneypu verðr hefnt, því at við troll er um at eiga“.

**10.** Bersi bindr nú sár Þormóðar, því at hann var læknir góðr. Um morguninn fór Bersi með marga menn í Ögur. Enn fyrr enn hann

kom á bæinn, þá mælti Gríma við húskarla sína: „Nú skulu þér fara í stofu ok skipa enn óæðra bekk ok sitja þar meðan þeir Bersi eru hér“. Þeir gerðu svá sem hon bauð; fóru í stofu ok skipuðu enn óæðra bekk ok allir vápnaðir. Gríma skipaði Kolbak á miðjan bekk ok brá höndum yfir höfuð honum. Nú koma þeir Bersi á bæinn ok drápu á dyrr. Gríma gekk til hurðar ok heilsar þeim. Bersi mælti: „Þat hyggjum vér, at þér þykki lítit undir um vára heilsu, enn vittu þat fyrir víst, at oss þykkir ekki verr, at þú sér lítt heil“. Gríma mælti: „Mjök kemr mér á óvart orðtak þitt þetta, ok hugðum vér at þú værir várr vin sem vér erum þínir. Eða segið þér nökkur tíðendi?“ Bersi svarar: „Þau ein tíðendi segjum vér, at þér munu áðr kunn vera“. Gríma mælti: „Vér höfum engi tíðendi nýlega spurt. Eða hvat kunni þér at segja?“ Bersi mælti: „Vér kunnum at segja þann áverka, er Kolbakr þræll þinn vann á Þormóði syni mínum“. Gríma svarar: „Þat eru ill tíðendi og mikil, ok þó verr at sönn sé; því at ek senda Kolbak inn í hús með veft, ok kom hann ekki heim í gærkveld, ok get ek at hann hafi ekki þorat at koma á minn fund — því at hann vissi, hvert vinfengi mér er til Þormóðar. Hefir mik þat grunat lengi, at Kolbakr hafi þózt vera í þingum við Þórdísi; enn nú hefir hann sýnt mikla

fólsku, er hann hefir unnit á Þormóði, svá góðum dreng, fyrir vandlætis sakir, ok fært svo ámæli á hendr dóttur minni, enn gert oss skömm ok hneysu. Er ek skyld at reka þessa réttar, sem ek hefi föng á". Bersi mælti: „Þat mæla sumir menn, Gríma, at þú kunnir stundum um hug þér at mæla; enn raun mun et sanna, hversu þér er þetta mál gefit". *Gríma mælti:* „Nú kann ek þökk ok aufúsu at þér gangið inn í hús mín ok ransakit vár herbergi, ok dragið svá af grun, at vér sém samvitandi þessa illvirkis, er Kolbakr hefir unnit". Nú gengr Bersi inn í stofuna með sínu föruneyti ok skipar enn æðra bekk; sitr þar um stund ok sér ekki Kolbak, þar er hann sat gagnvert honum, því at Gríma hafði brugðit huliðshjálmi yfir hann, svá at menn máttu ekki sjá hann. Bersi gengr fram og ransakar bæinn ok fann ekki Kolbak. Eftir þat lýsir hann áverka á hönd Kolbaki, þeim er hann hafði unnit á Þormóði, ok ferr heim við svá búit. Sár Þormóðar hafðist illa, ok lá hann lengi, ok var jafnan örvendr síðan, meðan hann lifði. Kolbakr var í Ögri um vetrinn, ok varðveitti Gríma hann á laun. Um várit eftir váru mál tilbúin á hendr Kolbaki. Á því þingi varð hann sekr skógarmaðr. Skip stóðu upp í Vaðli. Því stýrði norrænn maðr, sá er Ingólfr hét. Skipit var mjök búit at alþingi, enn þeim gaf ekki veðr á brott. Þá er

menn váru riðnir á þing ór heraði, kom Gríma at máli við Kolbak ok mælti svá: „Þess er mér vánir, at þú munir verða sekr skógarmaðr um áverka Þormóðar. Enn fyrir því at sekt þín hlýzt af mér, þá vil ek þat frelsi gefa þér, at þú skalt ekki lengr þræll vera. Þar með skaltu búa hesta fjóra á laun, tvá til reiðar, enn aðra tvá til klyfjaburðar undir vöru ok vist þá er ek vil fá þér; vil ek fylgja þér til skips á laun, ef svá má um búa, ok taka þér fari í Vaðli. Kolbakr verðr feginn frelsisgjöfinni ok þeim fégjöfum er Gríma gaf honum. Hann bjó um nótt ferð þeira á laun á brott ór Ögri, svá at engir menn urðu þar varir við. Þau ríða Glámuheiði til Arnarfjarðar, ok svá et efra út eftir fjöllum til Barðastrandar, ok koma um nótt í Vaðil. Þá váru kaupmenn í svefni á skipi, enn stýrimaðr sjálfr í tjaldi á landi. Gríma sprettir tjaldskörum; enn Kolbakr varðveitti hesta þeira. Hon gengr inn í tjaldit ok vekr upp Ingólf stýrimann; þvi at hon kunni hann at sýn. Ingólfr heilsar henni ok spyrr tíðenda. Ok eftir þat mælti Gríma: „Þat er erendi mitt hingat á yðvarn fund, at ek vilda taka einum manni fari með yðr, þeim er hér er nú kominn“. Ingólfr segir: „Hverr er sá maðr?“ Gríma svarar: „Kolbakr heitir hann“. Ingólfr segir: „Vann hann á Þormóði Bersasyni?“ „Sjá enn sami gerði þat.“ Ingólfr mælti: „Mikil vandræði sýnist

mér vera, at taka við þeim manni, at mest ván er at sekr skógarmaðr verði nú í sumar, ok svá harðfengir menn eru til eftirmáls, sem þeir feðgar eru Þormóðr ok Bersi. Höfum vér nú ok lengi legit hér með búnu skipi, ok kann vera, at Bersi komi fyrri heim í herað, enn oss gefi á brott; ok má vera, at vér fáim ekki leynt manninum fyrir honum". Nú er Gríma sér, at Ingólfr tekr seint hennar máli, vindr hon þá fram fésjóð undan kápu sinni, ok hellir þar ór tveim hundruðum silfrs í kné stýrimanni ok mælti svá: „Þetta fé vil ek gefa þér til viðtöku ok ásjá við Kolbak". Ingólfr svarar: „Fagrt er fé þetta, enn alkeypt mun verða, ef þeir feðgar finna oss, áðr vér komumst á brott, ok takim vér við skógarmanni þeira". Síðan segir Gríma: „Sé ek kaup með okkr; þú munt taka við Kolbaki ok fé þessu, er ek hefi boðið þér, ok flytja hann af Íslandi ok veita honum ásjá, ef þér gefr í brott í dag". Ingólfr svarar: „Svá skal vera sem þú vill". Nú tekr Ingólfr við fénu, stendr upp ok fylgir Kolbaki á skip út með varnað sinn. Enn Gríma hafðist á landi uppi við um daginn, ok minnist á þau en fornu kvæði, er hon hafði í barnæsku sinni numit. Í því bili fellr andviðrit þat er áðr hafði lengi á legit. Lét Ingólfr þá bera út húðföt þeira. Taka þeir at hvata út á skipit, ok eru árdegis búnir at öllu. Þá er sól var í

landsuðri, rann á byrr. Ganga þeir Ingólfr ok Kolbakr á land upp ok biðja Grímu vel lifa, ok býst hon til heimferðar ok fær sér föruneyti; ok er ekki getit um ferð hennar, fyrr enn hon kom heim í Ögur, ok var þat fyrr sýnu enn menn kómu heim af þingi. Ingólfr gengr á skip þá er Gríma var á brott, ok því næst undu þeir segl upp. Þeim gefr vel byri ok eru litla hríð í hafi; koma við Noreg. Kolbakr réðst í lið með víkingum og reynist harðfengr maðr í öllum mannraunum. Þormóðr kom heim af þingi á Laugaból ok var með feðr sínum nökkura vetr. Ekki höfum vér heyrt getit, at Þormóðr hafi fengit meiri sæmd síns áverka enn sektir Kolbaks.

11. Þormóði þótti jafnan dauflegt, er hann var heima með feðr sínum. Eftir þingit um sumarit réðst hann til ferðar með húskarla feðr síns, er þeir skyldu sækja fiska, er Bersi átti úti í Bulungarvík. Þeir höfðu einn ferjustút, er Bersi átti. Þeir sigla gott veðr út eftir Ísafirði. Þeir koma út fyrir Arnardal. Þá kom andviðri á móti þeim; verða þeir *(at)* sækja at Arnardölum; kasta þeir akkerum fyrir skipinu, fara sjálfir á land upp ok reisa tjald; hafast þar við um hríð — því at þeim gaf ekki skjótt í brott. Katla hét kona, er bjó í Arnardal. Hon var ekkja. Hana hafði átt maðr sá er Glúmr hét. Dóttir hennar hét Þorbjörg.

Hon var heima með móður sinni. Þorbjörg var kurteis kona ok ekki einkar væn — svart hár ok brýnn, — því var hon kölluð kolbrún — vitrleg í ásjónu ok vel litkuð, limuð vel ok grannvaxin ok útfætt, enn ekki all-lág. Þat barst at einn dag, at Þormóðr gengr frá tjaldi ok upp til bæjar; koma þeir þar í stofu. Þar var ekki inni manna, nema konur einar. Þá heilsar Katla þeim er kominn var ok spyrr hann at nafni. Þormóðr sagði til sín. Hon spyrr hann, hvers son hann væri. Hann segir þat sem hon spurði. Katla mælti: „Heyrt hefi ek getit þín, enn ekki hefi ek sét þik fyrr enn nú". Þar er Þormóðr um daginn ok eru konur vel kátar við hann. Þormóðr rennir nökkut augum til dóttur húsfreyju ok lízt honum vel á hana. Hon hefir ok nökkut augabragð á honum ok verðr henni hann vel at skapi. Nú er Þormóðr þar um daginn ok ferr síðan heim til tjalds síns um kveldit. Nú venr Þormóðr kvámur sínar til húss Kötlu, ok sprettr upp af honum einstaka mansöngsvísur, ok líkar konum þat vel, þeim er þar váru. Þat var einn dag, at Katla mælti: „Hvárt áttu, Þormóðr, nökkut erendi út í Víkina, er þú ferr með húskörlum föður þíns?" Þormóðr svarar: „Ekki á ek annat erendi enn at skemta mér, ok þótti mér dauflegt heima". „Hvárt mun þér skemtilegra þykkja at fara með þeim eða vera hér meðan

þeir fara eftir skreiðinni, ok skemta þér hér? Nú er þat heimilt, at þú sér hér, ef þú vilt þat, því at oss er mikit gaman at þér". Þormóðr svarar: „Vel fara þér orð, ok mun ek þat þiggja sem þú býðr, því at mér þykkir hér skemtilegt at vera hjá yðr". Nú ferr Þormóðr til fundar við förunauta sína ok segir þeim at hann muni eftir vera, meðan þeir fara út í Víkina eftir fiskunum; biðr þá koma þar við dalinn, er þeir fara utan; kveðst þá mundu ganga á skip með þeim. Nú skiljast þeir; ferr Þormóðr til bæjarins, enn þeir fara erenda sinna þegar er þeim gaf veðr. Þormóðr var í Arnardal hálfan mánuð. Hann yrkir þá lofkvæði um Þorbjörgu kolbrún. Þat kallaði hann Kolbrúnarvísur. Ok er kvæðit var ort, þá færði hann kvæðit, svá at margir menn heyrðu. Katla dregr fingrgull af hendi sér, mikit ok gott, ok mælti: „Þetta fingrgull vil ek gefa þér, Þormóðr, at kvæðislaunum ok nafnfesti, því at ek gef þér þat *kenningar*-nafn, at þú skalt heita Þormóðr kolbrúnarskáld. Þormóðr þakkaði henni gjöfina. Nú festist þetta nafn við Þormóð, sem Katla gaf honum. Húskarlar Bersa kómu aftr til móts við Þormóð. Stígr hann þá á skip með þeim, ok þakkar húsfreyju þann fagnað, er hon hafði honum veitt. Katla mælti, at Þormóðr skyldi ekki þar hjá garði sneiða, ef farir hans bæri þannig — skildust at svá mæltu.

Ferr Þormóðr heim á Laugaból ok hafðist við heima við þat er eftir var sumarsins. Ok er vetra tók ok ísa lagði, þá mintist Þormóðr þess vinfengis, er honum hafði verit til Þórdísar, dóttur Grímu í Ögri; gerir hann þá heiman för sína ok leggr leið í Ögur. Gríma tók við honum með miklu gleðibragði, enn Þórdís reigðist nökkut svá við honum, ok skaut öxl við Þormóði, sem konur eru jafnan vanar, þá er þeim líkar ekki alt við karla. Þat finnr Þormóðr skjótt, ok sá þó at hon skaut í skjálg augunum stundum, ok sá nökkut um öxl til Þormóðar; kom honum í hug, at vera mætti svá, at dælla væri at draga, ef hálft hleypti; minnir hana á et forna vinfengi hvert verit hafði. Þórdís mælti: „Þat hefir ek spurt, at þú hefir fengit þér nýja unnostu ok hafir ort lofkvæði um hana“. Þormóðr svarar: „Hver er sú unnosta mín, er þú talar til at ek hafa um ort?“ Þórdís segir: „Sú er Þorbjörg út í Arnardal“. Þormóðr svarar: „Engu gegnir þat, at ek hafa kvæði ort um Þorbjörgu; enn hitt er satt, at ek orta um þik lofkvæði þá er ek var í Arnardal — því at mér kom í hug, hversu langt var í milli fríðleiks þíns ok Þorbjargar ok svá et sama kurteisi; er ek nú til þess hér kominn, at ek vil færa þér kvæðit“. Þormóðr kvað nú Kolbrúnarvísur, ok snýr þeim erendum til lofs við Þórdísi, er mest váru ákveðin orð, at hann

hafði um Þorbjörgu ort. Ok svá sem myrkva dregr upp ór hafi ok leiðir af með litlu myrkri, ok kemr eftir bjart sólskin með blíðu veðri, svá dró kvæðit allan óræktar þokka ok myrkva af hug Þórdísar, ok rendi hugarljós hennar heitu ástar gervalla til Þormóðar með varmri blíðu. Þormóðr kemr þá jafnan í Ögur ok hefir góðar viðtökur. Ok er svá hafði nökkura hríð fram farit, þá verðr sá atburðr eina nótt, þá er Þormóðr var heima á Laugabóli, at hann dreymir, at Þorbjörg kolbrún kemr at honum, ok spurði hann, hvárt hann vekti eða svæfi. Hann kvaðst vaka. Hon mælti: „Þér er svefns, enn þat eitt berr fyrir þik, at svá mun eftir ganga, at þetta beri fyrir þik vakanda. Eða hvat er nú — hvárt hefir þú gefit annarri konu kvæði þat er þú ortir um mik?“ Þormóðr svarar: „Ekki er þat satt“. Þorbjörg mælti: „Satt er þat, at þú hefir mitt lofkvæði gefit Þórdísi Grímudóttur, ok snúit þeim erendum, er mest váru ákveðin orð, at þú hefðir um mik ort kvæðit, því *(at)* þú þorðir ekki, lítill karl, at segja satt til, um hverja konu þú hefðir ort kvæðit. Nú mun ek launa þér því lausung þína ok lygi, at þú skalt nú taka augnaverk mikinn ok strangan, svá at bæði augu skulu springa ór höfði þér, nema þú lýsir fyrir alþýðu klækiskap þínum þeim er þú tókt frá mér mitt lofkvæði og gaft annarri konu. Muntu

aldrigi heill verða, nema þú fellir niðr þær vísur, er þú hefir snúit til lofs við Þórdísi, enn takir þær upp, er þú hefir um mik kveðit — ok kenna ekki þetta kvæði öðrum enn þeim, sem ort var í öndverðu". Þormóði sýndist Þorbjörg vera reiðuleg ok mikilúðleg; þykkist nú sjá svipinn hennar, er hon gengr út. Hann vaknar við þat at hann hafði svá mikinn augnaverk, at hann mátti varla þola óæpandi, ok mátti ekki sofa, þat sem eftir var nætrinnar. Hann hvílir lengi um morgininn. Bersi ríss upp, sem hann átti vanda til, ok er allir menn váru upp risnir, aðrir enn Þormóðr. Þá kom Bersi til Þormóðar ok spurði, hvárt hann væri sjúkr, er hann reis ekki upp, sem hann átti vanda til. Þormóðr kvað vísu:

(9) Illa réðk því allar
ey — Draupnis — gafk meyju
— mér bar dóm í drauma
dís — Kolbrúnar vísur.
Þá tókk þetta — freyju
þrúðr kann mart en prúða
— líknumk heldr við Hildi
hvítings — á mik víti.

Bersi mælti: „Hvat hefir þat í drauma borit?" Þormóðr segir drauminn ok alla málavöxtu kvæðisins. Bersi mælti: „Óþarfar unnostur áttu — hlauzt af annarri örkuml þau er þú verðr aldri heill maðr, enn nú ekki minni ván, at bæði augu springi ór höfði þér. Enn þó er

þat nú mitt ráð við þik, at þú snúir aftr kvæðinu á þann hátt sem þat var ort fyrir öndverðu — ok eigna þat kvæði jafnan Þorbjörgu kolbrún, sem þú ortir um hana. Þormóðr svarar: „Þú skalt ráða þessu“. Nú lýsir hann fyrir alþýðu, hversu farit hafi um kvæðit, ok gefr þá af nýju, við mörg vitni, Þorbjörgu kvæðit. Þormóði batnaði þá skjótt augnaverkjarins; verðr hann alheill þess meins. Nú munu vér hvílast láta fyrst frásögn Þormóðar kolbrúnarskálds ok segja nökkut af Þorgeir.

12. Nú er at segja frá Þorgeiri Hávarssyni, hirðmanni Óláfs konungs. Þat var eitthvert sumar, er hann kom skipi sínu í Hvítá ok helt því upp í Norðrá ok setti þar upp um haustit í þann stað er nú er kallat Þorgeirshróf. Hann fór um vetrinn til vistar vestr á Reykjahóla, ok var þann vetr með frændum sínum; selr þar varning sinn; fór um várit snemmendis suðr til Borgarfjarðar ok býr skip sitt til brottferðar. Litlu fyrir þing ferr hann vestr á Reykjahóla eftir vöru þeiri er þar var saman dregin, er hann hafði tekit fyrir varning sinn, þann er hann hafði selt um vetrinn. Hann flutti vöruna til Skógarstrandar ok fær sér hesta; ferr suðr til Borgarfjarðar, ok einn maðr með honum, sá er reið leiðina fyrir ok hafði hest í togi. Þorgeirr reið eftir ok rak nökkura klyfjahesta; hann reið um með skjöld ok hafði

spjót ok exi; fara nú við svá búit. Sá maðr bjó á Hvítsstöðum, er Snorri hét. Hann var kallaðr Hækils-Snorri. Hann var mikill vexti ok sterkr, ok vænn yfirlits ok grimmlegr í ásjánu, óvinsæll ok nasbráðr, heiftúðigr í skaplyndi. Helgi hét son Snorra; hann var þá á ungum aldri, er þessir atburðir gerðust. Mannahúsin váru þá neðar í tungunni enn nú eru ok var bærinn kallaðr á Mel. Lambahús mikit stóð vestr í túnit, þar sem nú heita Snorra-toftir. Þorgeirr ok hans förunautr fóru þar hjá garði. Förunautr Þorgeirs ríðr fram um bæinn, enn klyfjahestarnir, þeir er Þorgeirr rak, hljópu í túnit. Snorri kemr út í því er Þorgeirr elti klyfjahestana ok vill taka þá ór túninu. Hestunum þótti gott at bíta. ok nam þá annarr staðar, er hann rak annan. Snorri gengr *inn ok tekr mikit krókaspjót; hleypr út ok bannar hestunum ok svá Þorgeiri; berr hestana með spjótinu ok særir.* Sýnist Þorgeiri ekki örvænt at hann bani hestunum. Hann hleypr nú af baki ok hefir skjöldinn fyrir sér; exinni heldr hann með skildinum í vinstri hendi; spjót hefir hann í hendi ok sækir þá at Snorra. Hann hörfar þá undan til lambahússins ok verst með spjótinu. Tveir húskarlar sá at Snorri hljóp út reiðr með spjót sitt; tekr sína exi hvárr þeira í hönd sér ok fara til fulltings við Snorra. Þorgeirr verst þeim með miklum mjúkleik, enn sækir at þeim

með miklu afli ok öruggleik sem et óarga dýr. Húskarlarnir verða brátt sárir af Þorgeiri, því at þeir höfðu skammskeftar öxar, enn Þorgeirr lagði spjótinu hart ok tíðum. Hrukku þeir Snorri inn í lambahúsit. Dyrnar váru lágar ok þröngvar á húsinu, ok var ilt þar inn at sækja eftir þeim. Þorgeirr hleypr upp á húsit ok rífr til. Þar sem húsit raufaðist, leggr Snorri spjótinu út í móti. Þorgeirr verðr sárr af því nökkut, enn þó lítt. Kastar Þorgeirr þá spjótinu ok tekr exina enni hægri hendi. Sækir Snorri þá at Þorgeiri með hörðum hug, þar sem húsit var rofit. Enn Þorgeirr varðist með skildi ok exi — leitar ekki annars enn höggva spjót Snorra af skaftinu; létti ekki þeim leik fyrr enn Þorgeirr hjó spjót Snorra af skafti. Ok þegar jafnskjótt hljóp Þorgeirr inn í húsit um glugg þann, er á var rofinn, með skjöld ok exi, ok hjó þegar í höfuð Snorra svá hart, at hann klýfr hausinn allan; fær Snorri af því sári þegar bana. Þá snýr Þorgeirr at húskörlum Snorra, ok sækir þá fimlega, hlífandi með skildi, höggvandi með exi þeiri, er vön var at fá mörgum manni náttstaðar. Lauk svá þeiri atsókn, at Þorgeirr vá þá báða. Eftir þat gengr hann út ok stígr á bak hesti sínum, ríðr til dyra ok hittir menn at máli; sagði at Hækils-Snorri vill hafa fund þeira ok mun bíða þeira í lambahúsinu, ok ríðr á brott eftir þat til

fundar við förunaut sinn. Hann hafði rekit klyfjahrossin ór túninu meðan þeir börðust. Fara þeir við svá búit til skips. Býr Þorgeirr skip sitt ok heldr því til Seleyrar; bíðr þaðan byrjar ok lætr í haf at búnu. Þorgeirr hefir skamma útivist, byrjar honum vel ok tekr Noreg ok ferr skjótt á fund Óláfs konungs, ok fær góðar viðtökur af konungi. Þessa atburðar getr Þormóðr í Þorgeirsdrápu í þessu erendi:

(10) **Hús braut snart til Snorra**
**sverðruðr ok styr gerði**
**hinn es heiftir manna**
**— Hœkils sonar — rœkði.**
**Varð eggjuðr þar þriggja**
**Þorgeirr á hvöt meiri**
**— leygs hetk síks frá sœki**
**sannspurt — bani manna.**

Helgi son Snorra bjó lengi á Hvítsstöðum. Var hann ólíkr feðr sínum ok svá frændum bæði yfirlits ok svá í skapi. Hann færði hús sín þangat sem nú er bærinn. Hann átti þat kenningarnafn, at hann var kallaðr Helgi enn hvíti; því at hann var vænn maðr ok vel hærðr, hvítr á hárslit. Við hann er bærinn kendr á Hvítsstöðum. Helgi var vinsæll maðr, góðr búþegn við heraðsmenn ok gagnsamr við alþýðu. Hann deildi um Gufufitjar við Þorstein Egilsson, því at Þorsteinn vildi kaupa Fitjarnar, enn Helgi vildi ekki selja. Helgi fór einn vetr með húskörlum sínum á Gufufitjar. Hann ók

heyjum sínum á öxnum sunnan um mýrarnar, svá sem hann var vanr. Þorsteinn fór eftir þeim með húskarla sína. Þeira fundr varð í eyjum þeim er Langeyjar heita suðr frá Hvítsstöðum. Á þeim fundi börðust þeir Þorsteinn ok Helgi. Í þeim bardaga varð Helgi sárr mjök. Til þessa fundar kómu góðgjarnir menn, þeir er vitað höfðu ferð hvárratveggju, ok skildu þá, ok sættust at því, at Þorsteinn keypti Fitjarnar, enn bætti Helga áverkann, við góðra manna sann.

13. Þórir hét maðr, er bjó at Hrófá í Steingrímsfirði. Hann var mikill hávaðamaðr ok heldr ódæll ok óvinsæll. Hann varð missáttr við hirðmann Óláfs konungs í kaupstefnu á Steingrímsfirði ok særði konungsmann miklu sári. Á þat mál var ekki sæzt. Ok er konungrinn frá þessi tíðendi, þá mislíkaði honum sjá atburðr. Hann mælti þá við Þorgeir Hávarsson: „Þat vil ek, Þorgeirr, at þú hefnir þessa áverka, er hirðmaðr minn fekk út á Íslandi, ok leiðir svá Íslendingum at berja á mínum mönnum“. Þorgeirr svarar: „Þat væntir mik, at ek muni hefnt fá þessa mótgerða, er yðr hafa gervar verit í þessu verki“. Konungr mælti: „Því býð ek þér um þetta mál, at ek hygg at þú munir minn vilja gera í þessu verki“. Þorgeirr svarar: „Skyldr em ek til þess at gera þat sem þú vill“. Þorgeirr býr þá skip sitt

snemma sumars út til Íslands. Honum byrjar vel ok kemr hann skipi sínu í Vaðil. Hann ferr vestr á Reykjahóla ok tekr til skálasmíðar. Sá maðr hét Vegglagr, er var at skálasmíð með Þorgeiri, ok gerði sínum megin hvárr þeira skálann. Skálinn var um endilangt þilinn, enn ekki öðrum þiljum; þau þili heldust alt til þess er Magnús biskup var at staðnum í Skálaholti enn síðarri. Öndverðan vetr fór Þorgeirr norðr til Steingrímsfjarðar til Hrófár. Með honum var í ferð Vegglagr smiðr. Þeir kómu á bæinn síð um kveld ok drepa á dyrr. Kona ein gekk til hurðar ok heilsar þeim ok spyrr þá at nafni. Þorgeirr segir et sanna til, hverir þeir váru. Hann spurði, hvárt Þórir bóndi væri heima. Hon segir hann heima vera. Þorgeirr mælti: „Bið þú hann út ganga". Hon gengr inn ok segir Þóri, at menn váru komnir úti — „þeir er þik vildu hitta". Hann segir: „Hverir eru þeir menn?" Hon svarar: „Þat ætla ek, at kominn sé Þorgeirr Hávarsson". Þórir reis upp ok tekr spjót sitt, gengr út í dyrr ok setr spjótsoddinn í þresköldinn; heilsar þeim er komnir váru. Þorgeirr tók ekki kveðju hans. Hann mælti: „Þat er erendi mitt hingat, at ek vil vita, hvern sóma þú vill gera konungsins Ólafs fyrir þann vanza, er þú gerðir hirðmanni hans?" Þórir svarar: „Hvárt ertu aðili málsins?" Þorgeirr svarar: „Fyrir þat mun ganga, sem ek

sé aðili þess máls, því at ek hefi konungs umboð til þessa máls". Þórir svarar: „Vera má at svá sé, at þú hafir hans umboð, enn varla virðist mér svá sem ek heyra orð konungsins þó at þú mælir". Þorgeirr svarar: „Satt er þat, at þú heyrir ekki hann sjálfan mæla, enn þó má vera, at þú reynir nökkurt sinn hans ríki". Ok er minstar vánir váru, leggr Þorgeirr spjótinu til Þóris; þat lag kom framan í fang honum ok gekk þar á hol; fell Þórir inn í dyrnar ok var þegar dauðr. Litlu síðar snýr Þorgeirr á brott ok hans förunautr; ok er ekki sagt frá ferð hans fyrr enn hann kemr heim á Reykjahóla. Um þenna atburð orti Þormóðr þetta erendi:

(11) Ár mank þegn hins Þóri
þarfan Hávars arfa
hlýra hrafns með geiri
happauðigr réð dauða.
Dýrr hefndi svá sára
— slíkt fór alt af ríki —
Odds ok ernir söddusk
jóstýrandi hlýra.

Þann vetr váru stuldir miklir á Reykjahólum; hurfu mönnum margir gripir ór hirzlum, ok var svá mikill gangr at því, at nálega ór hvers manns hirzlum hvarf nökkut, hversu rammlegr láss sem fyrir var, enn þó var engi lássinn brotinn. Illugi Arason var heima á Hólum þann vetr. Eftir jól um vetrinn heimta

þeir bræðr saman hjón sín. Tekr Þorgils þá til orða: „Þat er öllum mönnum kunnigt, at hér í vetr hafa verit miklar tökur — hefir mart horfit ór lásum ok lokum; ætlum vér at hafa uppi ransókn; skal fyrst ransaka hirzlur okkar bræðra, enn eftir þat annarra manna, ok ef ekki finst heima hér þat er stolit er, þá munu vér fara á aðra bæi at ransaka menn“. Nú fór þat fram, at ransakaðar váru hirzlur manna, ok finst ekki þat er leitat var. Vegglagr smiðr átti eina mikla kistu, þá er ekki var ransökuð. Þorgils mælti, at Vegglagr skyldi upp lúka kistunni, ok láta menn sjá, hvat væri í. Hann svarar: „Aldri hefi ek ransakaðr verit sem þjófar, ok mun ek ekki lúka upp kistunni“. Þorgils mælti: „Ekki er til þín eins leikr sjá gerr; hafa várar kistur ransakaðar verit, ok má þér þat sem yfir margan gengr“. Þá svarar Vegglagr: „Þótt þér hafið allir ransakaðir verit, þá mun ek þó ekki lúka upp mína kistu til ransaks“. Illugi spratt þá upp ok hafði eina handexi í hendi; hann gengr at kistunni ok mælti: „Ek hefi at varðveita konungs-lykil þann er at öllum kistum gengr ok lásum; nú mun ek með þeim upp lúka kistunni, ef þú vill ekki selja mér lykil“. Veglagr sér, at Illugi mun upp höggva kistuna, ef hon væri ekki upp lokin — selr þá fram lykilinn. Illugi lýkr þá upp kistunni ok finnr þar marga lykla, þá

er at gengu öllum lásum, þeim er váru á Reykjahólum. Hann finnr þar í marga gripi, þá er mönnum höfðu horfit þar. Þá þóttust menn vita, at Vegglagr mundi stolit hafa fénu því er horfit var; er honum þá nauðgat til sagna; gengr hann þá við mörgum stuldum, ok fylgir mönnum þar til er hann hafði féit fólgit úti í ýmsum stöðum. Þá mælti Illugi: „Ólífismaðr sýnist mér Vegglagr vera, ok er þat mitt ráð, at hann sé hengdr“. Þorgeirr mælti: „Ekki muntu svá vilja lúka við húskarl þinn“. Illugi svarar: „Rangt sýnist mér vera, at svá mikill þjófr gangi undan“. Þá segir Þorgeirr: „Hvat sem yðr sýnist rétt vera um þetta mál, þá mun yðr þó verða maðrinn dýrkeyptr í þessu sinni, ok ekki mun hann af lífi tekinn, ef ek má því ráða“. Illugi mælti: „Mikit kapp leggr þú á með þjófum, ok muntu ilt at verki hafa þar sem hann er; ok ekki mun jafnan þinn eiðr fyrir honum standa, þó at hann gangi nú undan. Nú fari hann í brott af Reykjanesi ok komi aldri síðan hér“. Þorgeirr svarar: „Vel má svá vera“. Nú fylgir Þorgeirr Vegglagi vestr á Laugaból í Laugadal til Bersa ok Þormóðar, ok skorar á þá at þeir veiti Vegglagi vist til fardaga — „ok flytið hann til skips í Vaðil“, ok kveðst Þorgeirr þá mundu flytja hann í brott af Íslandi. Þeir feðgar tóku við Vegglagi fyrir Þorgeir, ok var hann með þeim

Þormóði um vetrinn. Þorgeirr fór aftr á Reykjahóla ok var hann þar um vetrinn. Um várit bjó hann skip sitt. Vegglagr kom til skips ok tók Þorgeirr við honum ok flutti hann utan. Skipit kom við Orkneyjar. Rögnvaldr Brúsason var þá búinn til hernaðar, því at víkingar margir lágu við eyjarnar, þeir er ræntu búendr ok kaupmenn. ok vildi Rögnvaldr refsa þeim sín illvirki. Þorgeirr selr þá skip sitt ok réðst í lið með Rögnvaldi. Vegglagr fór upp á Skotland ok gerðist þar mikill þjófr ok var þar drepinn um síðir. Rögnvaldi virðist Þorgeirr vel ok hans förunautum, því at hann reyndist því meiri kappi sem hann kom í meiri mannraunir, svá sem Þormóðr orti um:

(12) **Njörðr gekk á skæ skorðu**
**skeljeggr — enn þann teljum**
**hjaldr — at herja vildi**
**hjörgaldrs með Rögnvaldi.**
**Lítt sparði fjör fyrða**
**fremðar mildr at hildi**
**— drengs varð dáð at lengri —**
**djarfra Hávars arfi.**

Í hernaði var Þorgeirr ágætr maðr at hug ok vápnfimi ok í öllum röskleik. Jarl varð ágætr af þessi ferð; því at hann sigraðist hvar sem hann barðist um sumarit ok gerði góðan frið búkörlum ok kaupmönnum.

14. Síð um haustit fór Þorgeirr til Noregs ok var með Óláfi konungi um vetrinn í góðri

virðingu. Óláfr konungr þakkaði honum þat er hann hafði rekit þeirar sneypu, er Þórir hafði gert honum. Illugi Arason var með Óláfi konungi þann vetr. Um várit bjó Illugi skip sitt til Íslands. Þorgeirr segir Illuga, at hann vill fara með honum. Enn Illugi svarar honum svá: „Óráðlegt sýnist mér, at þú farir út til Íslands; hefir þú stórvirki gert í mörgum heruðum, ok áttu þar í flestum stöðum illa fritt, enn þú hefir hér mikinn sóma af konungi ok góðan frið af öllum mönnum; nú mun ek ekki flytja þik frá friðinum ok til ófriðarins — því at þú munt ekki svá gott upp taka á Íslandi sem þú tekr hér hvern dag mikinn sóma af konungi“. „Vera má svá“, segir Þorgeirr, „at ek komumst þó til Íslands, at þú flytir mik ekki“. Nú býr Illugi skip sitt ok lætr í haf þá er honum gaf byr. Ok er hann var í haf látinn, þá gengr Þorgeirr einn dag fyrir konung ok biðr sér fararleyfis. Óláfr konungr mælti: „Svá virðist mér, at minni mannheill hafir þú á Íslandi enn hér með oss; þykkir mér fyrir því þat vænna, at þú sér hér með oss enn á Íslandi, at þú hafir hér meira gott enn þar“. Þorgeirr sótti þetta mál mjök við konung; ok er konungr sér, at Þorgeiri þótti mikit undir at þiggja þat er hann bað, þá mælti konungr: „Nú mun at því koma, sem ek sagða hinn fyrsta tíma, er þú komt á várn fund, at þú

mundir ekki vera gæfumaðr í öllum hlutum. Nú mun ek lofa þér, at þú farir út til Íslands, enn ekki munum vit sjást síðan. ef vit skilim nú.“ Þorgeirr svarar: „Þökk kann ek yðr, at þér lofit mér at fara, enn þat ætla ek, at fara á yðvarn fund at sumri“. Konungr mælti: „Vera má at svá sé, at þú ætlir þat, enn ekki mun svá verða“. Nú skilja þeir at svá mæltu. Þorgeirr tók sér fari með þeim norrænum manni, er Jökull hét, ok fór með honum út til Íslands. Þat skip kom í Vaðli, ok fór Þorgeirr til vistar á Reykjahóla. Illuga reiddi lengi úti um sumarit ok kom um haustit síð norðr í Hraunshöfn á Melrakkasléttu. Hann setti þar upp skipit ok bjó um ok fær menn til varðveizlu skipsins um vetrinn; fór við þat norðan um heruð ok ætlaði til Hóla. Gautr Sleituson, er fyrr var getit, kom til fundar við Illuga ok tók sér fari með honum at sumri. Einn dag, er Illugi áði hesti sínum *(í Miðfirði)* með sínum förunautum, kom þar maðr einn ríðandi á áfanga. Sá maðr var í hvítri heklu. Hann kvaddi Illuga. Hann tók kveðju hans ok spurði hverr hann væri. Hann sagði: „Ek heiti Helgi“. Illugi svarar: „Hvaðan ertu kynjaðr eða hvar áttu heima?“ Helgi svarar: „Víða stendr kyn mitt fótum, enn þó er hér flest fyrir norðan land, — enn hvergi á ek heima, ok ekki hefi ek heill til þess at hafa tveggja

missera vistir; enn jafnan hefi ek kaup á sumrum, ok enn hefir svá verit í sumar — ok margir kennast við mik, ef heyra kenningarnafn mitt". Illugi spurði: „Hvert er þat?" Helgi svarar: „Ek em kallaðr Helgi selseista". Illugi svarar: „Fánefnt er þat kenningarnafn, enn þó hefi ek heyrt þín getit". Helgi mælti: „Þat er erendi mitt hingat, at ek vil vita, ef þú vill ferja mik utan at sumri". Illugi mælti: „Eru þér nökkur vandræði á höndum, eða hefir þú nökkur fé?" Hann svarar: „Engi vandræði eru mér á höndum, enn eyfit hefi ek fé, enn vera mætti at heldr væri yðr létti at mér, því at ek er ofléttr maðr". Illugi mælti: „Ertu nökkurr atgervimaðr?" Hann svarar: „Engi em ek íþróttamaðr, enn mikit traust á ek undir fótum mínum ok brjóstheill em ek, ok því fær engi tekit mik á rás". Illugi mælti: „Gagn er þeim þat er hræddir verða". Helgi mælti: „Ekki hefi ek þat reynt at verða allhræddr. Enn vita vil ek, hvárt þú vill veita mér farit". Illugi mælti: „Kom þú í vár til fundar við mik, ok ver með mér í flutningum, þá er ek dreg saman vöru mína ok far þá með mér utan". „Sá kostr líkar mér vel", segir Helgi. Nú skiljast þeir at svá mæltu, ok ferr Illugi vestr á Reykjahóla, ok er þar um vetrinn.

**15.** Bræðr tveir bjoggu í Garpsdal. Hét annarr Kálfr, enn annarr Steinólfr. Þeir váru á

ungum aldri ok vel fjár eigandi ok vinsælir menn. Þórdís hét kona, er bjó í Óláfsdal. Hon var ekkja, góð húsfreyja ok gagnsöm. Son hennar hét Eyjólfr, er átti bú með henni. Hann var gervilegr maðr ok vinsæll. Þorgeirr hét frændi Þórdísar, er hon hafði upp fætt. Hann var knálegr maðr. Hann átti þat kenningarnafn, at hann var kallaðr Þorgeirr hófleysa; enn þat kenningarnafn hlaut hann af því, at hann hafði til alls meira enn hann þurfti, þegar hann átti nökkut fé fyrir at ráða. Með þeim fóstbræðrum, Eyjólfi ok Þorgeiri, var vingott á unga aldri. Þeir váru báðir knáir menn ok ólatir, ok var löngum mikit um þá; enn framfærslukerling Þórdísar amaðist oft við þá ok glímur þeira, enn þeir glettust því meir við kerlingu sem hon amaðist meir við. Einn dag, er þeir glímdu á gólfinu — ok var mikit um þá, kómu þar jafnan niðr er kerling var ok drógu verk hennar á fótum sér — þá mælti kerling: „Lítil fremd er ykkr í því at spilla verki fyrir mér eða glettast við mik, enn spá mun ek ykkr spá —: svá vel sem nú er með ykkr, þá munu þit verst skilja ykkart vinfengi“. Þeir segja: „Furðu óspáleg sýnist okkr þú vera“. Kerling mælti: „Hversu sem ykkr sýnist þat, þá mun þat eftir ganga sem ek mæli“. Nú um várit eftir er þeir Illugi ok Þorgeirr höfðu um vetrinn verit á Reykjahólum, beiddi Þorgeirr Illuga,

at hann skyldi veita honum far um Íslands haf. Illugi veitti honum þat sem hann bað. Kálfr ok Steinólfr ór Garpsdal tóku sér far með Illuga. Nú er menn fóru til skips um várit, þá mælti Illugi við Þorgeir: „Þat vilda ek frændi, at þú færir norðr til skips með mönnum mínum, ok búit skipit um þingit; enn ek á erendi til þings, at hitta vini mína; mun ek ríða norðr af þingi; vilda ek at skip væri albúit, þá er ek kem norðr". Þorgeirr segir svá vera skulu sem hann vildi. Þá réðst Þorgeirr norðr til skipsins á Sléttu, enn Illugi bjóst til þings. Steinólfr ok Kálfr ok Helgi selseista váru í ferð með Þorgeiri, enn vara þeira hafði fyrr farit. Þorgils Arason ok Ari son hans ok Illugi bróðir hans riðu með flokki til þings ór Breiðafirði. Þá er Þorgeirr kom norðr í höfnina, setti hann fram skipit ok bjó. Gautr Sleituson var til skips kominn, ok hafði annat mötuneyti enn Þorgeirr. Þar var ilt til eldiviðar, ok fóru sinn dag hvárir at afla eldibranda, Þorgeirr og hans förunautar, Gautr og hans förunautar. Einn dag fór Þorgeirr at afla eldibranda, enn Gautr var heima. Matsveinar Gauts höfðu ketil uppi, ok er vella var komin á ketil þeira, þá var lokit eldiviði þeira; sögðu þeir Gauti til sinna vandræða. Gautr gengr til búðar Þorgeirs ok tekr ofan spjót hans ok höggr af skafti spjótit ok kastar í rúm hans ok hefir með sér; hann

tekr ok skjöld Þorgeirs ok hefir með sér; gengr síðan til eldstóarinnar; hann klýfr í sundr skjöldinn ok spjótskaftit, ok eldir undir katlinum; verðr þá vel matbúit. Þorgeirr kom heim um kveldit. Hann saknar skjótt vápna sinna. Hann spyrr, hverr sveina hafi á brott borit, — „skjöld minn ok spjót". Gautr svarar: „Ek tók skjöld þinn ok spjótskefti, ok klauf ek undir ketil várn; enn áðr mátti ekki vel matbúa því at lokit var eldiviði várum; enn oss þótti ilt hrátt at eta". Nú fann ekki á Þorgeiri, at honum mislíkaði sjá tiltekja Gauts. Annan dag fór Gautr ok hans förunautar at fá eldibranda, enn Þorgeirr var heima ok bjó skip. Matsveinar Þorgeirs höfðu eldiviðar fátt, ok er þeir skyldu matbúa fóru þeir til Þorgeirs ok sögðu honum. Hann gekk til tjalds Gauts, ok tók spjót hans ok skjöld, ok hjó af skafti spjótit, enn klauf skjöldinn undir ketil; þá skorti ekki eldivið til þess at vella mat þeira. Gautr kom heim um kveldit, ok spurði, hvat menn vissi til skjaldar hans eða spjótskeftis. Þorgeirr svarar: „Skjöld þinn ok spjótskefti klauf ek undir ketil í dag; því at matsveinum varð eldiviðarfátt". Gautr svarar: „Seint lætr þú af at auka oss skapraunir". Þorgeirr svarar: „Sá er leikr hverr sem heiman er gerr?" Gautr hjó þá til Þorgeirs, enn hann laust við exi sinni ok bar af sér höggit; skeindist þó lítt á fæti. Þá hljópu menn milli

þeira ok tóku þá ok heldu. Þorgeirr mælti: „Ekki þurfi þér at halda mér, því at ek mun mik til engis ófriðar líklegan gera“. Nú váru þeir skildir, ok ferr hvárrtveggi til síns tjalds; hafa síðan náttverð ok leggjast til svefns. Ok er menn váru sofnaðir, þá ríss Þorgeirr upp, ok tekr exi sína í hönd sér, ok gengr til tjalds þess er Gautr var í ok sprettir tjaldskörum, gengr inn í tjaldit ok at rúmi Gauts ok vekr hann. Gautr vaknar ok spratt upp ok vildi taka til vápna, ok í því bili höggr Þorgeirr til Gauts ok klýfr hann í herðar niðr. Þorgeirr gengr í brott ok til búðar sinnar. Búðunautar Gauts vakna við brestinn, er hann var veginn; styrmdu þeir yfir líki hans ok bjuggu um. Um þenna atburð orti Þormóðr vísu þessa:

(13) Gaut veitk at son Sleitu
snarfengr með lið drengja
hölðr við harðar deilðir
hjördjarfan nam fjörvi;
ófeigum varð eigi
— almþing — í gný malma
— oft verðr rík þeim's rœkir
raun — stynfullu launat.

**16.** Eftir þenna atburð sá Þorgeirr einn dag, hvar skip sigldi af hafi þangat til hafnar. Þat skip tók þar höfn ok lágu um akkeri ekki allnær skipi Þorgeirs. Hann fór á báti með skipverjum sínum til kaupskipsins ok spyrr hverr fyrir skipinu réði. Honum var sagt, at

Þorgrímr Einarsson réð fyrir skipinu, er kallaðr var trölli, grænlenzkr maðr, ok annarr maðr, Þórarinn ofsi, Þorvaldsson, norðlenzkr maðr. Þeir spyrja, hverr fyrir því skipi réði, er þar var fyrir í höfninni. Þeim var sagt, at Illugi Arason ætti skipit, enn þá réð fyrir skipinu Þorgeirr Hávarsson. Þorgeirr spyrr, hversu fjölment þeir hefði á skipinu. Honum var sagt, at þar væru fjórir tigir karla innanborðs. Nú sá Þorgeirr, at þar var mikill liðsmunr, ef þá skildi nökkut á, því at þeir Þorgeirr váru eigi fleiri enn þrír tigir vígra manna. Þorgeirr mælti: „Yðr kveð ek at þessu, stýrimennina. Þat er mælt af mörgum mönnum, at vér sém hvárirtveggju nökkurir ójafnaðarmenn ok ekki óágjarnir við aðra. Nú vil ek þess biðja, at vér gerim ekki vára hreysti ok harðfengi at fólsku ok ófriði; sýnist mér þat ráð, at vér setim grið meðal vár til varúðar". Þeir Þorgrímr ok Þórarinn tóku því vel, ok fór þat fram at grið váru sett, sem Þormóðr orti um:

(14) Gulls réð Þorgeirr þolla
því næst griða sæta,
sér es hann sáat fœri
svinngeðr við lið minna;
öll tók seggr enn snjalli
sönn — leygs — friðar mönnum
— fljóts — þá's fergir nýtan
fullmæli réð tæla.

Nú er grið váru sett meðal þeira, þá fór Þor-

geirr til skips. Hann flutti þá út á skip alt fé skipmanna sinna ok lét skipit liggja um akkeri ekki allnær landi, ok váru þá menn hans allir á skipi, því at hann trúði ekki til fulls þeim Þorgrími ok Þórarni, þó at grið væri sett meðal þeira. Menn koma af landi ofan til þeira Þorgríms, ok segja þeim víg Gauts Sleitusonar, þat er þar hafði orðit í höfninni, því at Þorgeirr hafði ekki sagt þeim vígit. Ok er Þórarinn heyrir þessi tíðendi sögð, þá heimtir hann Þorgrím á tal einn saman ok mælti svá: „Ekki munda ek grið hafa sett við Þorgeir, ef ek hefði vitat þessi tíðendi — víg Gauts frænda míns. Nú vil ek vita af yðr, hvers ek skal þar ván eiga um liðveizlu, ef ek vil hefna Gauts“. Þorgrímr svarar: „Ekki mun ek skiljast við yðr í þessu máli, enn torsóttlegr sýnist mér Þorgeirr vera“. Þórarinn mælti: „Vér munum bera á land upp einnhvern dag skrúð vár ok léreft ok aðra góða gripi ok breiða til þerris, ok kann vera. at nökkurir menn Þorgeirs fari út at undrast gripina, ok munu vér fyrst drepa þá ok fækka svá liði þeira“. Þorgrímr mælti: „Freista máttu þess ef þú vilt“. Þeir Þorgrímr ok Þórarinn höfðu ætlat at fara til Grænlands, ok áttu félag saman, bæði skip ok áhöfn, ok bera þeir fyrir því ekki fé sitt af skipi. Einn veðrdag góðan báru þeir Þórarinn á land upp skrúð ok léreft ok góða gripi, ok breiddu

við þerri. Þann dag fóru þeir Kálfr ok Steinólfr tólf á báti til lands eftir vatni. Ok er þeir sá varning á land breiddan, þá hljópu þrír menn af liði þeira þangat sem þeir sá varninginn, ok þegar er þeir kómu þangat, þá váru þeir drepnir. Ok eftir þat fóru þeir Þórarinn ok Þorgrímr með liði sínu at þeim Kálfi. Þeir gerðu þá handtekna, Kálf ok Steinólf, ok settu í fjötur, enn þeir drápu þar þrjá menn hjá vatninu. Helgi selseista hjó í fyrstu mann þeira Þórarins banahögg, ok eftir þat hljóp hann á brott. Menn runnu eftir honum ok fengu ekki tekit hann; hljóp hann et efra um fjall daga ok nætr, ok nam ekki fyrr staðar enn hann kom á Þingvöll. Hann segir þeim Þorgisli ok Illuga þau tíðendi, er gerzt höfðu í Hraunhöfn, þá er hann fór í brott.

17. Eftir þessi tíðendi, er nú var frá sagt, tóku þeir Þorgrímr kaupskipsbátinn, þann er þeir Kálfr höfðu til lands haft, ok fóru þá til skips síns. Þorgeirr var á skipi út, ok þeir níu saman, ok vissu þeir ekki þau tíðendi, er á landi höfðu gerzt — því at leiti bar á milli þar sem vatnit var ok skipit; finnr Þorgeirr ekki fyrr enn þeir Þórarinn flytja kaupskipit með tveimr bátum þangat til skips þeira Þorgeirs ok allir herklæddir. Þeir Þorgeirr grípa vápn sín ok verjast vel. Þeir Þorgrímr flytja þá skip sitt at skipi Þorgeirs ok leggja borð

við borð; tekst þá skjótt harðr bardagi; ná þeir brátt uppgöngu á skip Þorgeirs ok láta skamt stórra höggva í milli. Þorgeirr hjó jafnan tveim höndum með öxinni, ok var lengi þat, at þeir kómu ekki höggi á hann, því at engum þótti girnilegt gistingarból undir exi hans, enn þó hlutu þat margir. Menn Þorgeirs fellu brátt; hljóp hann þá aftr í stafninn ok varðist þaðan, því at vit mikinn liðsmun var at etja — svá sem Þormóðr orti um:

(15) Stirðr réð stafn at varða
strenghreins tøgum drengja
— ítr þvít — árr — vas heitinn
auðstjóri þrek — fjórum,
áðr sigreynir sínum
— sár hlutu meðr at hváru —
út við eigi lítla
erring fell á knerri.

(16) Kent hefr fjörs hvé frændum
folkbeitir skal veita
dýrr þót drengi væri
dylgjusamt at fylgja.
— Þægs — frák Þorgeir eiga
— þau eru orð komin norðan
handar grjóts frá hreyti —
hug þanns við mun brugðit.

Allir ágættu hans vörn, þeir er vissu, hversu hraustlega hann varðist, ok mæltu allir eitt um hans vörn ok frækneik, at menn þóttust ekki hans jafningja fundit hafa. Þorgeirr hjó hart ok tíðum af miklu afli ok öruggum hug, ok

var honum sjálfum hugr sinn bæði fyrir skjöld ok brynju, ok þykkjast menn ekki vita þvílíka vörn sem Þorgeirr hafði. Almáttigr er sá sem svá snart hjarta ok óhrætt lét í brjóst Þorgeiri; ok ekki var hans hugprýði af mönnum ger né honum í brjóst borin, heldr af enum hæsta höfuðsmið. Nú fyrir því, at þeim Þorgrími reyndist meiri mannraun at sækja Þorgeir, heldr enn klappa um maga konum sínum, þá sóttist þeim seint ok varð þeim hann dýrkeyptr; því at Þormóðr hefir svá um ort, at Þorgeirr yrði þrettán manna bani áðr hann fell; enn tveir eru nefndir í Þorgeirsdrápu, þeir er hann vá þar. Már hét austmaðr sá er fyrst kom sári á Þorgeir. Hann hjó á hönd Þorgeiri; ok enn hafði hann sár fengit; þá hjó hann Má banahögg. Sá maðr er annarr nefndr, er Þorgeirr vá síðar, er Þórir hét, austmaðr, er lagði spjóti í gegnum Þorgeir; enn Þorgeirr gekk á lagit, þar til er hann hjó hann banahögg. Um þenna atburð orti Þormóðr vísur þessar:

(17) Hauks frák hræva lœkja
harðræðis þrot bræði
við svíprunna sennu
sverðs aldrigi verða.
Már hét maðr ok Þórir
málsnjallr es lét falla
— áðr frágum — þá — þeira —
Þorgeirr — lokit eirum. —

(18) Olli fjörr áðr felli
— flugtrauðr — hjarar dauða
— sá vas rœkjandi enn ríki
reggs — þrettaan seggja.
Þar lætk hjaldrs fyr hölðum
hins, es þrek gat vinna
— mál tea mín at deilask
mjúk — víga tal lúkask.

Nú er Þórir var fallinn, enn spjótit stóð í gegnum Þorgeir. þá fell hann ekki, enn þá var skamt höggva á meðal, því at þeir Þórarinn ok Þorgrímr stóðu nær, ok unnu þeir þá á Þorgeiri ok við þat fell hann ok lét líf sitt. Þórarinn ofsi hjó höfuð af Þorgeiri ok hafði í brott með sér. Svá segja sumir menn, at þeir klyfði hann til hjarta — ok vildu sjá, hvílíkt væri, svá hugprúðr sem hann var, enn menn segja, at hjartat væri harðla lítit, ok höfðu sumir menn þat fyrir satt, at minni sé hugprúðra manna hjörtu enn huglausra — því at menn kalla minna blóð í litlu hjarta enn miklu, enn kalla hjartablóði hræðslu fylgja, ok segja menn því detta hjarta manns í brjóstinu, at þá hræðist hjartablóðit ok hjartat í manninum.

18. Eftir þenna bardaga skildu þeir Þorgrímr ok Þórarinn félag sitt, því at Þórarinn þóttist mikinn sigr unnit hafa — vænti hann sér virðingar hér á landi fyrir sigrinn. Þorgrímr hafði skip ór félagi þeira, enn Þórarinn lausafé; helt Þorgrímr skipinu til Grænlands ok

fórst honum vel. Þórarinn aflar sér hesta ok manna ok reið norðan ór höfninni við tólfta mann. Hann hafði höfuð Þorgeirs í belg við slagálar sér til ágætis sigrs síns. Þat var skemtun þeira á áfangum, at þeir tóku höfuð Þorgeirs ór belgnum ok settu þar á þúfur upp ok hlógu at. Enn er þeir kómu í Eyjafjörð, þá áðu þeir þar skamt frá Naustum. Þeir tóku þá höfuð Þorgeirs, ok settu þat upp á þúfu eina, sem þeir váru vanir. Þeim sýndist þá höfuðit ógurlegt — augun opin ok muðrinn, enn úti tungan. Við þá sýn urðu þeir allhræddir ok felmsfullir. Þeir grófu þá gröf með exum sínum hjá höfðinu, ok hrundu þar í ofan höfðinu ok grófu þar á ofan torf. Sléttukarlar ruddu kaupskipit ok fluttu til lands ok jörðuðu þar í höfninni allra manna lík þeirra er þar höfðu fallit á skipi ok á landi — því þeir nentu ekki til kirkju at færa líkin; því at í þenna tíma váru engar kirkjur í nánd höfninni. Kálfr ok Steinólfr váru ór fjötrum leystir eftir bardagann, ok ruddu þeir til líkagraftarins við Sléttukarla. Þeir varðveittu varning þann er á skipinu var þar til er Illugi kom til skips. Nú þó at kristni væri ung í þenna tíma hér á landi, þá var þar þó ekki siðr til þess at taka fé veginna manna. Illugi fór utan þat sumar norðr á Sléttu. Þormóðr kolbrúnarskáld undi löngum illa eftir líflát Þorgeirs, ok þat sumar

fór hann utan í Vaðli. Eyjólfr í Óláfsdal ok Þorgeirr hófleysa fóstbróðir hans fóru utan í Grímsárósi. Þat skip kom í ey þá er Lafon heitir. Þormóðr kolbrúnarskáld fór á fund Óláfs konungs ens helga. Þormóðr kvaddi konunginn ok tók konungr vel kveðju hans, ok spurði, hvat manna hann væri eða hvers son hann væri. Þormóðr svarar: „Ek em íslenzkr maðr, ok heiti ek Þormóðr, enn Bersi heitir faðir minn.“ Konungr mælti: „Hvárt ertu kallað Þormóðr kolbrúnarskáld ok ert svarabróðir Þorgeirs Hávarssonar?“ „Já“, segir Þormóðr, „sá er maðr enn sami“. Konungr mælti: „Njóta skaltu hans frá oss, ok vel ertu hér kominn, ok víst mátt vita þat, at ek tel mér misboðit í vígi Þorgeirs hirðmanns míns ok þökk kynna ek þess at hans yrði hefnt“. Þá kvað Þormóðr vísu:

(19) Þarf 'sás þér skal hvarfa
þengill fyr kné lengi
— svarar hóglega hverju —
hugborð — konungr orði. —
Fáir erum vér ne frýju
frændr órum þó vændir
— minnumk meir á annat
mítt starf— konungdjarfir.

Konungr mælti: „Gaman man vera at skáldskap þínum“. Þormóðr gerðist þá hirðmaðr Óláfs konungs. Þat skip kom um sumarit til Noregs, er var af Grænlandi. Því skipi stýrði

sá maðr, er Skúfr hét. Hann var grænlenzkr maðr at kyni; farmaðr mikill ok vitr ok vinsæll. Hann var vinr Óláfs konungs ok honum handgenginn. Skúfr fór til hirðar Óláfs konungs ok var þar um vetrinn. Þann vetr váru þeir í Noregi — Illugi Arason, Steinólfr ok Kálfr, Eyjólfr ok Þorgeirr hófleysa. Um várit eftir, er einn vetr var liðinn frá falli Þorgeirs Hávarssonar — Þorgils Arason ok Ari son hans bjuggu til mál á hönd Þórarni, um víg Þorgeirs, ok öðrum mönnum þeim er at víginu höfðu verit; gerðu mikinn reka at þeim verkum, er þar váru ger. Á þau mál var sæzt á þingi, ok gerði Þorgils um málin öll tvau hundruð silfrs, ok guldust þar á þinginu um víg Þorgeirs, ok hafði Guðmundr enn ríki hundrat at ráði Þorgils. Þat sumar var Þórarinn veginn á mannamóti í Eyjafirði. Á því sumri fóru þeir Kálfr ok Steinólfr út til Íslands. Þeir kómu út í Vaðli á Barðaströnd ok fóru heim í Garpsdal til bús síns. Eyjólfr ok Þorgeirr hófleysa keyptu skip í Noregi ok heldu því til Íslands, þá er þeir váru búnir. Þá velkti lengi úti ok kómu síð um haustit á Borgarfjörð. Ok er þeir kómu þar, þá skildi þá á um landtöku; vildi Eyjólfr halda skipinu til Straumfjarðar — því at þangat var byrr, enn Þorgeirr hófleysa vildi halda skipinu til réttar, ok vita ef byrr gæfi fyrir jökulinn, ok

vildu halda skipinu í Dögurðarnes. Þá var gengit til siglu ok eftir leitat, hvárir fleiri væri skipverjar, þeir er sigla vildu, eða hinir er í rétt vildu leggja skipit. Enn fyrir því at mönnum hafði leiðst í hafinu, þá váru þeir fleiri, er sigla vildu til lands. Þeir fóstbræðr váru svá reiðir, at þeir tóku til vápna, enn menn gættu þeira, svá at ekki varð at. Þeir tóku Straumfjörð. Ok þegar er skipit var landfast orðit, þá fekk Þorgeirr hófleysa sér hest, ok reið hann frá skipi ok fór til þess er hann kom vestr í Garpsdal. Hann tók sér vist með þeim bræðum, Steinólfi ok Kálfi. Eyjólfr var við skip þar til er hann hafði um skip búit; fór þá heim í Óláfsdal til móður sinnar, ok var með henni um vetrinn.

19. Spákerling sú, er fyrr var getit, tók sótt um vetrinn ok lá lengi. Hon andaðist næstu nótt eftir pálmsunnudag. Lík hennar var flutt á skipi til Reykjaness; því at engi kirkja var nær Óláfsdal enn sú er á Hólum var. Eyjólfr ok húskarlar hans fluttu lík spákerlingar til kirkju. Ok er líkit var niðr sett, versnaði veðrit, gerði kófviðri ok frostviðri — lagði fjörðinn út langt, ok mátti ekki skipum koma út til dalsins. Þorgils mælti þá til Eyjólfs: „Þat sýnist mér ráð, at þú farir ekki fyrr heim enn liðin er páskavika; mun ek þá fá þér menn með skip þitt heim, ef þá má komast fyrir ís-

um; enn ef þá er ekki með skip fært, þá mun ek ljá þér hest heim at ríða; enn ef nauðsyn berr til, þá megu húskarlar þínir fara heim fyrir ef þú vill“. Eyjólfr svarar: „Þetta þitt boð mun ek þiggja“. Nú fóru húskarlar Eyjólfs heim ok gengu þeir et innra um Króksfjörð. Eyjólfr var á Hólum þar til er leið páskavika mjök. Fimta dag í páskaviku segir Eyjólfr Þorgilsi, at hann vill heim fara. Þorgils sagði svá vera skyldu sem hann vildi. Þá lætr Þorgils búa honum hest skúaðan til ferðar, ok býðr honum mann til föruneytis ef hann þyrfti. Hann kveðst einn saman ríða vilja. Nú ríðr hann utan af Reykjanesi ok inn um Berufjörð ok Króksfjörð. Ok er hann átti skamt utan til Garpsdals, þá váru þeir Kálfr ok Steinólfr úti staddir undir einum húsvegg ok töluðust við, ok þá geta þeir at líta, hvar menn gengu utan eftir vellinum; þeir þóttust kenna mennina ok sýndist þar vera Þorgeirr Hávarsson, ok þeir níu menn, er þar fellu á skipinu með Þorgeiri — váru allir alblóðugir ok ganga inn eftir vellinum ok ór garði; ok er þeir kómu at á þeiri er fellr fyrir innan bæinn, þá hurfu þeir. Þeim bræðrum varð ósvift við þessa sýn; ganga þeir inn í skálann. Önundr hét nautamaðr í Garpsdal. Hann gengr út ór fjósi, ok sér, hvar maðr ríðr utan eftir vellinum allvænum hesti; sá var gyrðr sverði ok hefir spjót í hendi, hjálm á

höfði, ok er hann nálgaðist bæinn, þá kennir hann manninn, ok var þar Eyjólfr. Önundr gengr til stofu ok er þar fátt manna. Þar var Þorgeirr hófleysa ok konur nökkurar. Önundr tekr til orða: „Nú ríðr Eyjólfr hér um garð“. Ok er Þorgeirr heyrði þessa sögu, hljóp hann út ok tók spjót í hönd sér. Þá var Eyjólfr kominn á innanverðan völlinn. Þorgeirr hljóp eftir honum. Enn Eyjólfr reið leið sína, ok sér ekki er maðrinn rennr eftir honum. Hann kom at Garpsdalsá; hon var upp gengin ok leitaðist hann fyrir. Þorgeirr kallar á hann, at hann skuli bíða hans, ef hann þyrði. Eyjólfr heyrir kallit, ok lítr við ok sér, hvar Þorgeirr hleypr. Eyjólfr hleypr af baki ok rennr í mót honum. Ok er þeir finnast, leggr hvárr þeira í gegnum annan ok falla jafnsnimma. Nú kom þat þar fram, er spákerling hafði fyrir sagt. Þeir bræðr gengu til stofu, þá er af þeim leið þat ómegin, er yfir þá hafði liðit. „Hvar er Þorgeirr?“ segja þeir. Þeim var sagt, at hann hefði út gengit, ok tekit spjót í hönd sér, þá er Önundr nautamaðr sagði för Eyjólfs. Þeir bræðr gengu út snúðigt ok inn ór garði til árinnar; ok váru þeir þá fallir, enn ekki örendir. Sátu þeir bræðr þar yfir þeim til þess er þeir váru örendir, ok síðan færa þeir lík þeira til kirkju.

**20.** Þá er Þormóðr kolbrúnarskáld hafði

verit einn vetr með Óláfi konungi, þá bjó Skúfr skip sitt til Grænlands. Þormóðr gengr þá fyrir konunginn ok mælti: „Þat vilda ek, konungr, at þú leyfðir mér at fara til Grænlands í sumar með Skúfi". Konungr mælti: „Hvert erendi áttu til Grænlands; hvárt ætlar þú at hefna Þorgeirs svarabróður þíns?" Þormóðr svarar: „Ekki veit ek, hvers auðit verðr um þat". Konungr mælti: „Ekki mun ek banna þér förina; því at ek þykkjumst vita, hvat þú vill". Nú skilja þeir talit. Þormóðr tók sér fari með Skúfi. Ok er þeir váru mjök búnir. þá fara þeir á konungsfund ok þakka alla vingan þá er hann hafði þeim veitt. Konungr bað þá vel fara. Konungr gaf Þormóði gullhring ok sverð, þá er þeir skildu. Ganga þeir Skúfr á skip út. Ok er þeir váru komnir á skip, þá gengr maðr út á skipsbryggjuna; sá hefir síðan hatt — mikill maðr vexti, herðibreiðr ok þykkr — ok máttu þeir ekki sjá hans ásjánu. Sá maðr kvaddi Skúf. Hann tók kveðju hans ok spurði hann at nafni. Hann kvaðst Gestr heita. Skúfr mælti: „Hvar er kyn þitt?" Gestr mælti: „Víða stendr kyn mitt fótum. Enn þat er erendi mitt hingat, at ek vil vita, ef þú vill veita mér far til Grænlands í sumar?" Skúfr svarar: „Ókunnigr ertu mér, ok mun ek vita við skipverja mína, hvat þeim sýnist ráð, hvárt ek taka við þér eða ekki".

Gestr mælti: „Þat ætlaða ek, at stýrimaðr ætti at ráða skipi, enn ekki hásetar, ok er þat líkast, at ek vinna hlutverk mín at mínum hluta, svá at ekki munu hásetar þínir þurfa at vinna fyrir mik“. Nú lýkr svá þeira tali, at Skúfr hét farinu. Gengr Gestr upp í bæinn ok kemr aftr litlu síðar með mikla byrði ok þunga, svá at varla máttu tveir menn upp taka. Gestr tók sér rúm aftr á bulkabrún. Hann átti fátt við aðra menn ok lét fátt til sín taka. Skúfr lét þá í haf. Þeir fengu stór áföll ok hvöss veðr. Því liðbetri var Gestr, er meir kom í raun um. Svá sýndist mörgum mönnum, sem Gestr mundi hafa tveggja manna megn í sínum tiltökum. | Heldr skarst alt í odda með þeim Gesti ok Þormóði þat sem við bar. Svá bar at einn dag, at þeir Þormóðr ok Gestr áttu austrmál at halda báðir saman. Í þat mund var byttuaustr á skipum, enn eigi dæluaustr. Nú var Þormóðr niðri í kili ok sökti byttunum; enn Gestr tók við á þiljunum ok bar út fyrir borð. Þormóðr var ekki sterkr maðr ok se*i*ldi oft ekki langt upp bytturnar. Gestr ræddi um, at hann skyldi lengra upp se*ila* bytturnar. Þormóðr svaraði engu, enn gerði rétt sem áðr. Nú er minstar vánir váru, þá lætr Gestr falla ofan byttuna fulla af sjó í fang Þormóði. Varð hann alvátr ok hleypr upp ór austrinum ok þrífr vápn. Gestr tekr þá ok sín vápn. Vilja

þeir þá á berjast. Skúfr mælti: „Þat er eigi sami, at menn sé ósáttir á kaupskipum í hafi; því at þar fylgir mart til meins; ok sjaldan mun þeim skipum vel farast, er menn eru ósáttir innanborðs. Nú viljum vér beiða ykkr, at þit setið grið meðal ykkar, meðan þit eruð í hafi á skipi“. Nú var svá gert. Skip velkir úti lengi; fá þeir veðr stór. Ok í einum stormi gengr í sundr skiprá þeira; fór þá seglit utanborðs; taka menn seglit ok heimta at sér innanborðs, ok váru tiltök Gests harðfenglegust. Skúfr vissi, at þeir menn váru lítt hagir, er farit höfðu af Grænlandi með honum; enn hann hafði sét þá Þormóð ok Gest mart haglega telgja. Skúfr mælti þá við Þormóð: „Vill þú skeyta rá vára saman?“ Þormóðr svaraði: „Ekki em ek hagr. Bið þú Gest gera at ránni; hann er svá sterkr, at hann mun stinga mega saman rár-endunum“. Skúfr gekk þá til Gests ok bað hann bæta rána. Gestr svaraði: „Ekki em ek hagr. Mæl þú, at Þormóðr geri at; því at hann er svá orðhagr, at hann mun yrkja saman rár-endana, svá at fastir sé. Enn fyrir nauðsynja sakir — þá mun ek telgja annan hlutinn rárinnar, enn Þormóðr telgi annan“. Nú er fengin sín öx hvárum þeira, ok telgir sinn hlut hvárr þeira. Gestr lítr nökkut um öxl til Þormóðar. Þá er hann hafði telgt sinn hlut rárinnar, sezt hann niðr á bulkann; enn

Gestr telgir nökkuru lengr þat tré, er hann var at. Ok er lokit er at telgja, þá bar hann saman hlutina, ok þurfti þá af hvárigum hlut at taka. Nú festi Gestr saman rána. Ok eftir þetta festa þeir segl við rá ok síðan sigla þeir. Síð um haustit tóku þeir Grænland. Skip kom í Eiríksfjörð. Þorkell Leifsson var þá höfðingi yfir Eiríksfirði. Þorkell var mikill höfðingi, ríkr ok vinsæll. Hann var vin mikill ens helga Óláfs konungs. Þorkell kom brátt til skips, þá er þat var landfast orðit, ok keypti at stýrimönnum ok at hásetum þá hluti, er hann þurfti at hafa. Skúfr gerði Þorkatli í kunnleika, at hirðmaðr Óláfs konungs var þar á skipi, sá er Þormóðr hét — sagði, at konungr hafði Þormóð honum til handa sent til traustS ok halds, ef hann þyrfti meira við. Nú af þessum orðum Skúfs fór Þormóðr til vistar í Brattahlíð. Skúfr átti bú á Stokkanesi; þat var í Eiríksfirði öðrum megin enn Brattahlíð var. Við Skúf bjó sá maðr, er Bjarni hét, vitr maðr ok vinsæll, ger at sér í mörgu, hagr vel. Hann varðveitti bú þeira beggja, þá er hann var í förum. Þeir áttu félag saman, ok fór vel með þeim. Þormóðr fór til vistar í Brattahlíð. Gestr vistaðist í Einarsfirði á þeim bæ, er hét í Vík. Þar bjó sá maðr, er Þorgrímr hét.

21. Þorgrímr trölli Einarsson bjó í Einarsfirði á Löngunesi. Þorgrímr var goðorðsmaðr,

mikill höfðingi, ríkr ok fjölmennr, garpr hinn mesti í skaplyndi. Við Þorgrím bjó systir hans, er Þórdís hét. Hana hafði átta sá maðr, er Hámundr hét. Synir Þórdísar fjórir váru á vist með Þorgrími. Einn þeira hét Böðvarr. annarr Falgeirr, þriði Þorkell, fjórði Þórðr. Þeir váru allir garpar miklir ok frálegir menn. Þórunn hét önnur systir Þorgríms trölla. Hon bjó í Einarsfirði, á bæ þeim sem heitir á Langanesi. Hon átti son þann er Ljótr hét. Hann var mikill maðr vexti. Allir frændr Þorgríms váru miklir hávaðamenn ok ójafnaðarfullir. Sigríðr hét kona, er bjó á þeim bæ er at Hamri hét. Sigríðr átti gott bú ok gagnsamt. Sigurðr hét son hennar, er at búi var með henni. Sigurðr var frálegr maðr, vinsæll ok lítill hávaðamaðr, ok þótti eigi alla vega jafnt. Loðinn hét verkþræll í Brattahlíð. Hann var verkmaðr góðr. Honum fylgdi at lagi kona sú er Sigríðr hét. Hon var fengin til at vinna Þormóði. Skemma var í Brattahlíð, eigi áföst húsum, er Þorkell svaf í einn ok setumenn hans — þar brann ljós í skemmunni hverja nótt eftir aðra — enn annat fólk svaf inni. Nú þótti Loðni Sigríðr helzti löngum dveljast i skemmunni á kveldum; þótti honum hon gá sín minna enn verit hafði; kom honum þá í hug kviðlingr sá er kveðinn hafði verit um lausungarkonur:

(20) Á hverfanda hveli

váru þeim hjörtu sköpuð;
brigð í brjóst lagin.

Hann ræddi um við Sigríði, at hann vill ekki vistir hennar langar í skemmunni á kveldum. Hon svarar honum sem henni var í skapi til. Þat barst at einn aftan, þá er Þorkell ok Þormóðr vildu ganga út til skemmu, ok Sigríðr með þeim — þá tók Loðinn til Sigríðar ok helt henni, enn hon togast ór höndum honum. Ok er Þormóðr sér þetta, þá tekr hann í hönd Sigríði ok vill kippa henni ór höndum Loðni; enn þat gengr eigi skjótt. Þorkell sér á þrætu þeira. Hann mælir við Loðin: „Lát Sigríði fara leiðar sinnar; óskuggasamlegt er alt um vistir hennar á kveldunum í skemmunni; mun ek gæta hennar, svá at þér sé skammlaust, úti þar, ok svá henni; enn þú gæt hennar þess á milli“.

22. Þá er at jólum dregr, lætr Þorkell mungát heita; því at hann vill jóladrykkju hafa, ok gera sér þat til ágætis — því at sjaldan váru drykkjur á Grænlandi. Þorkell bauð þangat vinum sínum at jólum, ok var þar fjölment. Skúfr af Stokkanesi ok Bjarni váru þar um jólin. Þaðan var hafðr húsbúnaðr ok ker ok klæði um jólin. Nú drukku menn um jólin með mikilli gleði ok skemtan. Affaradag jólanna bjuggust menn á brott. Loðinn greiddi mönnum klæði, sverð ok handagervi, er hann

hafði varðveitt. Hann setti ok fram skip þeira Skúfs ok Bjarna. Húskarlar báru ofan ker ok klæði. Loðinn var í selskinnsstakki ok selskinnsbrókum. Þá kemr Loðinn í stofu við enn fjórða mann. Þar váru áðr eigi fleiri menn enn þeir Þormóðr ok Bjarni. Þormóðr lá í bekkinum á framanverðum stokki. Nú er þeir koma í stofuna, þá greip Loðinn í fætr Þormóði ok kipti honum fram á gólfit ok dró hann utar eftir gólfinu. Þá hleypr Bjarni upp ok grípr um Loðin miðjan, tekr hann upp ok rekr hann niðr við gólfinu hart ok bölvar þeim er Þormóð drógu, ok bað þá láta hann lausan; ok þeir gera svá. Nú stendr Þormóðr upp, ok mælti til Bjarna: „Engi tilkváma þykkir oss Íslendingum um slík brögð; því at vér erum oft slíku vanir í skinnleikum“. Þeir ganga út ok láta sem ekki hafi í orðit. Nú er þeir Skúfr váru albúnir til ferðar, þá gengr Þorkell til skips með þeim, ok heimamenn hans. Þeir höfðu eina ferju, ok lá ein bryggja á land upp af ferjunni. Bjarni stóð hjá ferjunni ok beið Skúfs, er hann hjalaði við Þorkel. Loðinn var uppi skamt frá skipinu ok hafði af hendi greitt klæði manna. Þormóðr var þaðan skamt. Ok er minstar vánir váru, bregðr Þormóðr höggexi undan skikkju sinni ok höggr í höfuð Loðni, svá at hann fell þegar dauðr til jarðar. Þorkell heyrir brestinn ok lítr til; sér hvar Loð-

inn var fallinn. Hann mælir þá við sína menn, at þeir gangi ok drepi Þormóð; enn þeim varð bilt. Bjarni mælti, at Þormóðr skyldi ganga út á skip. Hann gerði svá. Bjarni gekk eftir honum, ok svá Skúfr. Ok er þeir kómu á skipit, þá heimta þeir bryggjuna út. Þorkell eggjar þá atgöngu, ok vildi berjast við þá Skúf ok Bjarna, ef þeir vildi eigi Þormóð fram selja. Skúfr mælti þá: „Bráðlitit gerir þú á þetta, Þorkell bóndi, ef þú vill drepa Þormóð, heimamann þinn, enn hirðmann ok skáld Óláfs konungs; mun yðr maðrinn dýrkeyptr verða, ef Óláfr konungr spyrr, at þér látið drepa hann, allra helzt er hann hafði sent hann þér til traustis, ef hann þyrfti nökkurs við; sýnist þat í þessu máli sem oft, at 'reiðin lítr eigi et sanna'". Nú viljum vér bjóða yðr fébætr fyrir Þormóð um víg þetta ok vanza þann, er yðr hefir ger verit í víginu". Nú af þessum orðum Skúfs — þá sefast Þorkell. Áttu þá margir hlut í um sættir þeira. Fór þat ok fram, at Skúfr handsalaði Þorkatli sjálfdæmi fyrir víg Loðins. Fór Þormóðr þá til vistar á Stokkanes.

23. Egill hét húskarl þeira Skúfs. Hann var mikill maðr vexti ok sterkr, ljótr yfirlits, ófimr ok óvitr. Hann átti kenningarnafn ok var kallaðr fífl-Egill. Þormóðr var löngum ókátr. Þeir spurðu Þormóð eftir, Bjarni ok

Skúfr, ef þeir mætti nökkut bætr ráða á hljóðleikum hans. Þormóðr svaraði: „Þat vilda ek, at þit fengit mér fylgdarmann þann er mér fylgdi hvert er ek vilda fara“. Þeir sögðu svá vera skyldu; báðu hann kjósa þann mann af húskörlum sínum, sem hann vildi. Þormóðr mælti: „Fífl-Egill — hann er mikill vexti ok sterkr — hann kýss ek — ok mun eigi of hygginn at gera slíkt sem fyrir hann er lagt“. Þeir kváðu svá vera skyldu. Menn undruðust þó, hví hann kaus Egil. Bjarni smíðaði Þormóði exi breiða at Þormóðar fyrirsögn; hon var slegin ofan öll af ok fram til eggjar; eigi var eggvölr fyrir henni; helzti var hon bitrleg. Um sumarit eftir þessa atburði fóru menn til þings í Garða í Einarsfjörð. Þeir ór Eiríksfirði höfðu tjaldat búðir sínar; ok var leiti á meðal ok þess er þeir höfðu tjaldat ór Einarsfirði. Nú er menn höfðu flestir tjaldat búðir, þá var Þorgrímr eigi kominn. Litlu síðar var sén för hans; hann hafði skrautlegt skip ok svá liðskost vasklegan ok vel búinn. Svá var ofsi Þorgríms mikill, at menn þorðu varla at mæla við hann. Veiðarfæri höfðu þeir Grænlendingar jafnan á skipi sínu. Nú er skip Þorgríms rendi at landi, þá gengu menn til strandar, at sjá skraut þeira ok vápnabúnað. Þormóðr var þar við staddr, ok tók upp selskutil einn, er þeir höfðu á land kastat, ok lítr á. Enn föru-

nautr Þorgríms tekr til skutilsins ok mælti: „Lumi af skutlinum, maðr“, segir hann; „því at þér mun til lítils koma, þóttú haldir á; ok þat ætla ek, at þú munir lítit kunna at beita skutlinum“. Hann svaraði svá: „Óvíst þykkir mér, hvárt þú beitir betr enn ek“. „Efalaust mun þat“, sagði hinn. Þá kvað Þormóðr vísu þessa:

(21) Betr lézk beita skutli
— Baldr hœlir því skjaldar —
— þollr hleypr hart of hellur
hlunnjós — enn vér kunna.
Gørr mank hitt, hveim harri
hugdýrstr skipar fyrstum
— veitti oss sás átti
ormstorg — í skjaldborgu.

Þormóðr gengr þá heim til búðar Þorgríms. Hann lætr þá tjalda búð sína með miklum sóma ok búast um vel. Þat barst at einn góðan veðrdag á þinginu, at allir menn váru gengnir í brott frá búð þeira Skúfs ok Bjarna, nema Þormóðr; hann lá heima í búð ok svaf. Hann hafði breitt á sik feld tvíloðinn, er hann átti; feldrinn var öðrum megin svartr, enn öðrum megin hvítr. Nú er Þormóðr hafði sofit nökkura stund þá vaknar hann, ok sér at allir menn váru í brottu. Hann undraðist þat; því at þá var mart manna í búðinni, er hann sofnaði. Ok í því kemr Egill farandi í búðina, ok mælti: „Of fjarri ertu mikilli skemtan“. Þor-

móðr spurði: „Hvaðan komtu at? eða hvat er nú í leikum til skemtanar?“ Egill segir: „Ek var at búð Þorgríms Einarssonar, ok þar er nú mestr hluti þingheimsins“. Þormóðr spurði: „Hvat er þar til skemtanar?“ Egill mælti: „Þorgrímr segir þar sögu“. Þormóðr mælti: „Frá hverjum er saga sú er hann segir?“ Egill svarar: „Eigi veit ek gjörla, frá hverjum sagan er; enn hitt veit ek, at hann segir vel frá ok skemtilega, ok er stóll settr undir hann úti hjá búðinni, ok sitja menn þar umhverfis ok hlýða til sögunnar“. Þormóðr mælti: „Kunna muntu nökkurn mann at nefna, þann sem í er sögunni, allra helzt er þú segir svá mikit frá *at gaman sé* at“. Egill mælti: „Þorgeirr nökkurr var mikill kappi í sögunni; ok svá virðist mér sem hann Þorgrímr mundi verit hafa nökkut við söguna, ok gengit mjök vel fram, sem líklegt er; vilda ek, at þú gengir þangat ok hlýddir til skemtanar“. „Vera má þat“, sagði Þormóðr. Ríss hann nú upp ok tekr yfir sik feld sinn ok snýr út enu svarta á feldinum. Hann tekr öxi sína í hönd sér ok setr hött á höfuð sér — gengr til búðar Þorgríms, ok Egill með honum; nema þeir stað undir búðarveggnum ok hlýðast þaðan um, ok mátti þaðan eigi gerla heyra þat er sagt var. Veðr hafði æ verit bjart ok sólskin mikit; enn er Þormóðr var kominn undir búðina, þá tók veðrit at þykna. Þormóðr gerði ýmist, at hann

horfði í himininn upp eða niðr í jörðina fyrir sik. Egill mælti: „Hví lætr þú þann veg?“ Þormóðr svarar: „Þanninn er himininn í at sjá, ok svá jörðin, sem þá er vábrestir verða“. Egill mælti: „Fyrir hverju er vant at verða vábrestir?“ Þormóðr svarar: „Fyrir tíðendum verða vábrestir ávalt. Nú ef svá kann at berast, at þú heyrir vábrestinn, þá forða þú þér, sem þú mátt, ok hlaup heim til búðar sem skjótast ok get þín þar“. Nú er þeir hjalast þetta við, þá gerir á skúr mikla ok mikit vátviðri. Hlaupa menn í brott, hverr til sinnar búðar; því at menn höfðu ekki við vatni búizt. Sumir fóru inn í búð Þorgríms, ok var mikil þröng í búðardyrunum. Þorgrímr sat eftir á stólinum ok beið, ef nökkut ryddist í búðardyrunum. Þormóðr mælti þá við Egil: „Bíð þú hér; enn ek mun ganga fram fyrir búðina, ok vita, hvat þar sé til tíðenda. Enn ef þú heyrir vábrestinn, þá hlaup þú heim til búðar sem skjótast“. Nú gengr Þormóðr fram fyrir búðina ok þar at sem Þorgrímr sat. Hann mælti: „Hvat sögu var þat er þú sagðir áðan?“ Þorgrímr segir: „Ekki getr þat í fám orðum sagt stórmerki þeirar sögu. Eða hvert er nafn þitt?“ Hann segir: „Ótryggr heiti ek“. „Hvers son ertu?“ sagði Þorgrímr. „Ek em Tortryggsson“. Þá vildi Þorgrímr upp rísa af stólinum. Þormóðr höggr þá í höfuð honum ok klýfr hann í herðar

niðr, brá síðar exinni undir feld sinn, ok sezt undir herðar Þorgrími ok kallar: „Fari þér hingat; á er unnit Þorgrími“. Nú snúast margir þangat ok sjá áverkann. Þeir frétta, hvat hann veit til þess manns, er á Þorgrími vann. Þormóðr svaraði: „Hér sá ek hann fyrir skemstu; enn ek hljóp þegar undir herðar Þorgrími, er áverkinn var orðinn; sá ek þá eigi, hvert sá fór, er á hafði unnit. Nú taki hér nökkurir til ok styði Þorgrím; enn sumir fari at leita þess sem á honum hefir unnit“. Þá settust þeir undir herðar Þorgrími; enn Þormóðr fór í brott. Hann gengr þá fram með sjónum fyrir nes nökkurt; hann snýr þá feldinum ok lét þá horfa út et hvíta. Enn er Egill heyrir brestinn, er Þormóðr vann á Þorgrími — hljóp hann þá heim til búðar. Skúfs menn geta at líta, hvar maðr hljóp, ok ætluðu, at sá mundi valda áverkum við Þorgrím. Egill varð stórum hræddr, er hann sá manna för eftir sér, ok með vápnum. Ok er hann var handtekinn, þá skalf á honum leggr ok liðr sakir hræðslu. Enn þegar er þeir kendu Egil, þá þóttust þeir vita, at hann mundi eigi hafa unnit á Þorgrími. Rann hræðsla af honum sem hiti af járni. Nú fara þeir í búðirnar ok leita mannsins ok finna eigi. Þeir fara fram til sjávarins ok fram fyrir nesit þat sem fram gekk í sjóinn. Þar mæta þeir manni í hvítum feldi ok spyrja hann at nafni.

Hann nefndist Vígfúss. Þeir spurðu, hvert hann ætlaði at fara. Hann svarar: „Ek leita þess manns, er á Þorgrími hefir unnit“. Þeir gengust at móti, ok fóru hvárirtveggju hart mjök; skilr nú skjótt með þeim. Þeir Skúfr ok Bjarni sakna Þormóðar, ok þykkir þeim ekki örvænt, at hann muni vera valdr áverkans — því at Skúfr hafði heyrt í Noregi konungs átekjur um hefnd eftir Þorgeir Hávarsson. Nú er af líðr et mesta hlaupit mannanna, þá tóku þeir Skúfr ok Bjarni bát einn á laun ok létu í nökkurar vistir. Þeir reru fram fyrir nesit; því at sagt var, at þar hefði sést maðr í hvítum feldi, sá er nefndist Vígfúss. Enn er þeir koma fyrir nesit, þá sá þeir, hvar Þormóðr var. Reru þeir þá at landi, ok mæla, at Þormóðr skuli ganga á skipit út. Hann gerði svá. Þeir spyrja, hvárt hann hefði unnit á Þorgrími. Hann kvað þat satt vera. Þeir spurðu hann tíðenda, eða hversu mikill vera mundi áverkinn. Þormóðr kvað þá vísu:

(22) Örvendi trezk undir
— oft finnumk þess minni —
öll es fremð of fallin
fjörneppr í strá greppi,
ef hreggboða höggvit
hefk vart í skör svarta
nadda borðs þvít Nirði
nættings bana vættik.

„Vera má“, segir Þormóðr, „at eigi hafi mikit

orðit höggit; því at örvendr maðr hjó. Enn því hjó ek eigi fleiri, at ek hugða, at þetta skyldi at fullu vinna". Skúfr mælti þá: „Gæfu hafðir þú á, er þeir kendu þik eigi, er þú sazt undir höfði honum Þorgrími, eða þá er þeir fundu þik uppi á nesinu". Þá kvað Þormóðr vísu:

(23) Undr 's hví eigi kendu
élbörvar mik görva
stáls hefk mark á máli
mart ok skoft et svarta;
burgumk langs þvít lengra
líf vas Tý skapat drífu
þremja svells enn þolli
þeim aldrtili seima.

*Skúfr mælti: „Svá má vera; enn hvárt var Falgeirr þar hjá Þórdísarson, kappinn?" Þormóðr svarar: „Þar var hann". Skúfr mælti: „Þó mundi hann nú óðr verða við víg Þorgríms frænda síns". Þormóðr kvað vísu:*

*(24) Strengði þess á þingi*
*þarflyndr ef mik fyndi*
*höldr at höggva skyldi*
*heit lofgerðar veiti.*
*Nær stóðk randa rýri,*
*rekkr lézk ei mik þekkja,*
*gótt's þat Huldar hetti*
*hefr haldit smiðr stefja.*

„Auðkendr maðr em ek", segir Þormóðr, „svartr maðr ok hrokkinhærðr ok málhaltr; enn ek var eigi í því sinni feigr; ok má vera, at ek

hafa til nökkurs undan rekit ok lúti enn fyrri í gras nökkurir frændr Þorgríms enn ek". Bjarni mælti þá: „Þú munt nú vera láta svá búit um hefndir eftir Þorgeir, ok hefir þú þó leyst þínar hendr". Þá kvað Þormóðr vísu:

(25) **Matkak hefnd enn hrafni**
**hrings fekk bráð á þingi**
**Baldrs — létk vígi valdit —**
**varga setrs við marga.**
**Meir hefni þó þeira**
**Þorgeirs vinir fleiri**
**gnýþolli létk gjalla**
**gört hefk fyr mik svartan.**

„Svá sýnist mér", segir Bjarni, „sem þú þurfir eigi meira at at gera um hefndina eftir Þorgeir; því at mikit stórvirki hefir þú gert, einn útlendr maðr ok einmani, sem þú ert hér — drepit þann höfðingja, sem annarr er mestr á öllu Grænlandi — ok eigi sýnt, hvárt þú kemst í brott; því at Þorgrímr á marga frændr þriflega eftir ok mikla kappsmenn". Nú flytja þeir Þormóð til Eiríksfjarðar ok fylgja honum í helli þann, er nú er kallaðr Þormóðshellir. Sá hellir er í sævarhömrunum öðrum megin fjarðarins enn Stokkanes. Hamrar eru upp ok niðr frá hellinum, ok hvárttveggja ilt at fara. Þeir Skúfr ok Bjarni mæla þá við Þormóð: „Vertu nú hér í hellinum; enn vit munum koma til móts við þik, þegar lokit er þinginu". Síðan fara þeir brott ok aftr til þingsins. Þormóðar

var saknat á þinginu; þykkjast menn nú vita, at hann mun vegit hafa Þorgrím. Böðvarr ok Falgeirr bjuggu mál til á hendr Þormóði, ok varð Þormóðr sekr skógarmaðr um vígit. Nú er lokit var þinginu, fór hverr heim til síns heimilis. Þeir Skúfr ok Bjarni kómu til fundar við Þormóð, ok færðu honum vistir ok þat annat er hann þurfti, ok sögðu honum sekt hans; mæltu, at hann skyldi þar við hafast í hellinum; sögðu, at hann mundi hvergi frið hafa, ef menn vissi, hvar hann var; sögðust þeir mundu koma endr ok sinnum til fundar við hann. Fyrir hellisdyrunum var grastó mikil, ok máttu nauðulega þeir menn er færir váru hlaupa af hamrinum ok í grastóna. Þormóði þótti dauflegt í hellinum; því at þar var fátt til skemtanar. Einn góðan veðrdag ræðst Þormóðr brott frá hellinum. Hann klífr upp hamrana ok hafði exi sína með sér. Ok er hann er skamt kominn frá hellinum, þá mætti hann manni á leið. Sá var mikill vexti ok ósinnilegr, ljótr ok eigi góðr yfirbragðs. Hann hafði yfir sér verju saumaða saman af mörgum tötrum; hon var feljótt sem laki ok höttr á upp með slíkri gerð; hon var öll lúsug. Þormóðr spyrr þenna mann at nafni. Hann segir: „Ek heiti Oddi“. Þormóðr spyrr: „Hvat manna ertu, Oddi?“ Hann svaraði: „Ek em einn göngumaðr, fastr á fótum, ok em ek kallaðr lúsa-

Oddi — nenningarlauss maðr ok ekki alllyginn — fróðr nökkut, ok hefi jafnan gott af góðum mönnum. Eða hvat heitir þú?“ Þormóðr svaraði: „Ek heiti Torráðr“. Oddi spurði: „Hvat manna ertu, Torráðr?“ Hann svarar: „Ek em einn kaupmaðr. Eða hvárt viltu, Oddi, eiga kaup við mik“. Oddi svarar: „Ek hefi fátt til kaupa. Eða hverju viltu við mik kaupa?“ „Ek vil kaupa af þér yfirhöfn þá er þú átt“. Oddi svarar: „Eigi þarftu at spotta at mér“. Þormóðr segir: „Eigi er þetta spott; ek mun selja þér kápuna, er ek em í; enn þú skalt gefa mér við verjuna, er þú ert í, ok fara sendiför mína á Stokkanes ok koma þar í aftan; ok seg þeim Skúf ok Bjarna, at þú hefir hitt mann í dag, er Torráðr nefndist, ok skifti hann yfirhöfnum við þik. Ekki býð ek þér fleiri erendi. Skaltu þá eignast kápuna, ef þú kemr þessu erendi fram“. Oddi segir: „Eigi er auðveldlegt at komast yfir fjörðinn — þar þarf skip at hafa; enn þó má vera, at ek koma þessu til leiðar, ef ek vil, at koma á Stokkanes í kveld“. Nú skifta þeir skikkjunum; tekr Oddi við blári kápu, enn fær Torráði verjuna, ok ferr hann í. Þá fór Þormóðr til Einarsfjarðar, þar til er hann hittir smalamann Þórdísar á Löngunesi. Hann spurði, hvárt synir Þórdísar væri heima. Smalamaðrinn svaraði: „Eigi er Böðvarr heima; enn bræðr hans váru heima í nótt, enn nú eru

þeir rónir á fiski". Þormóðr svaraði: „Svá má vera". Nú hugði smalamaðr. at hann væri lúsa-Oddi. Nú skiljast þeir Þormóðr ok smalamaðr; ferr Þormóðr til nausta Þórdísar ok hefst þar við. Ok er kvelda tók, þá sá Þormóðr, at þeir bræðr reru at landi. Þorkell reri í hálsi, Þórðr í miðju skipi, Falgeirr í austrrúmi. Nú er skipit rennir at landi, þá stendr Þorkell upp ok fór fram í stafninn ok ætlaði at taka við skipinu. Þormóðr gengr þá út ór naustinu, ok þykkjast þeir þar kenna lúsa-Odda. Þá snarar Þormóðr at Þorkatli ok höggr báðum höndum í höfuð Þorkatli ok klýfr hausinn; fekk hann þegar bana. Þá snýr Þormóðr í brott ok steypir af sér verjunni. Þórðr ok Falgeirr hlaupa eftir honum. Hann tekr undan fast, ok fram á sjávarhamrana yfir hellinn, ok hleypr Þormóðr fyrir ofan í tóna þá er fyrir hellisdyrunum var. Ok er hann kom niðr, þá hleypr Þórðr eftir honum, ok lyknar í knésbótum, er hann kom niðr í tóna, ok lýtr áfram. Þá hjó Þormóðr meðal herða honum, svá at exin sökk at skafti; ok fyrr enn hann gæti exina ór tekit sárinu, þá hljóp Falgeirr ofan í tóna ok hjó þegar til Þormóðar. Þat högg kom meðal herða Þormóði, ok varð þat mikit sár. Þá rann Þormóðr undir hendr Falgeiri; því at hann var vápnlauss. Þormóðr finnr þat, at hann verðr aflvani fyrir Falgeiri; þykkist hann þá vera

miðlung staddr, slyppr maðr ok sárr mjök; rennir þá hugnum þangat er var Óláfr konungr, ok vænti hans hamingju, at honum mundi duga; fellr þá exin ór hendi Falgeiri niðr fyrir hamrana ofan á sjóinn; þykkir honum þá nökkuru vænna, er hvárrtveggi var slyppr; ok því næst falla þeir báðir fyrir hamrana ofan á sjóinn; reyna þeir þá sundit með sér ok færast niðr ýmsir; finnr Þormóðr, at hann mæddist af miklu sári ok blóðrás; enn fyrir því at Þormóði var ekki dauði ætlaðr, þá slitnaði bróklindi Falgeirs; rak Þormóðr þá ofan um hann brækrnar. Falgeiri daprast þá sundit; ferr hann þá í kaf at öðru hvoru, ok drekkr nú ómælt; skýtr þá upp þjónum ok herðunum; ok við andlátit skaut upp andlitinu; var þá opinn munnrinn ok augun, ok var þá því líkast at sjá í andlitit, sem þá er maðr glottir at nökkuru. Svá lýkr með þeim, at Falgeirr druknar þar. Þormóðr var þá mjök farinn. Hann lagðist þá í eitt sker, ok skreið þar upp á grjótit ok lá þar, ok vænti þá einkis annars, enn hann mundi þar líf láta; því at hann var mjök móðr ok sárr, enn langt til lands. — Nú er at segja frá lúsa-Odda. Hann fór sem mælt var með þeim Þormóði, ok segir þeim Skúf ok Bjarna, at hann hafði fundit mann á leið sinni of daginn, þann er Torráðr nefndist, ok skifti við hann yfirhöfnum, ok mælti, at hann skyldi

fara á Stokkanes ok segja þeim Skúf ok Bjarna fund þeira ok klæðakaup. Þeir kenna kápuna, ok þykkjast vita, at Þormóðr muni því sent hafa lúsa-Odda til fundar við þá, at hann mun ætlast fyrir nökkut stórvirki at gera. Þeir tóku þá einn bát á laun um kveldit ok róa um nóttina yfir fjörðinn. Ok er þeir nálgast hellinum, þá sjá þeir kvikt nökkut í einu skeri, ok ræða um, hvárt þat mun vera selr eða annat; róa nú at skerinu; ganga upp á skerit; sjá þar mann liggja, ok kenna, at þar er Þormóðr; spyrja hann tíðenda; enn hann segir þau tíðendi, sem gerzt höfðu um nóttina. Skúfr mælti: „Víst hefir þik ekki til einkis undan rekit á Garðaþingi, er þú hefir orðit á einu kveldi bani þriggja kappa ok kynstórra manna“. Þormóðr mælti: „Þat eitt kom mér í hug. áðr þit komuð hingat, at ek munda hér líf mitt láta í skerinu. Enn nú þykkir mér ekki örvænt, at ek verða græddr; ok má þá enn vera, at ek hafi undan rekit til nökkurs“. Þeir spyrja at um samaneign þeira Falgeirs. Þormóðr kvað þá vísu:

(26) Skoftak enn þás uppi
— undarlegt — á sundi
hrókr dó heimskr við klœki
— hans razaklof gandi —
alla leitk á Ulli
eggveðrs hugar gleggum

— setti gaurr ok glotti —
goðfjón — við mér sjónir. —

Þeir Skúfr ok Bjarni bera Þormóð á skip út í fjórum skautum; því at hann mátti ekki ganga. Þá sækja þeir í hellinn klæði hans ok vist; því at þeim sýndist hann ekki þar mega vera. Þeir reru þá inn eftir Eiríksfirði. Gamli hét maðr, er bjó í Eiríksfjarðarbotni uppi undir jöklinum; hann var félítill maðr ok einrænn, veiðimaðr mikill. Gamli var kvángaðr, ok hét Gríma kona hans; hon var svarkr mikill, ger at sér um mart, læknir góðr ok nökkut fornfróð. Ekki váru þar fleiri hjón enn þau tvau. Þau kómu sjaldan til annarra manna, ok sjaldan kómu menn til þeira. Þeir Skúfr ok Bjarni lendu báti sínum skamt frá bygð Gamla; gengr Skúfr upp til húss; enn Bjarni sitr yfir Þormóði. Skúfi var þar vel fagnat ok boðinn greiði. „Sáran mann höfum vér með at fara, er ek vildi at þér læknuðut". Gríma segir: „Hverr er sá maðr?" Skúfr svaraði: „Þormóðr, skáld ok hirðmaðr Óláfs konungs, er vorðinn fyrir áverkum". „Hverr hefir á honum unnit?" segir hon. Skúfr segir henni tíðendin, þau sem gerzt höfðu. „Mikill atburðr er sjá orðinn, ok mikil vandræði hefir þessi maðr ráðit sér, ok mikit er at takast á hendr skógarmann frænda Þorgríms, ok allra helzt er hann hefir nú unnit svá mikit stórvirki í sekt sinni". Skúfr mælti:

„Ek skal fé fyrir hann bæta, eftir því sem vert er, ef þér eru sakir gefnar of þetta mál, ok hvergi skal þik skaða í um kostnað þann er þú hefir fyrir honum“. Nú lýkr þeira viðræðu, ok tekr Gríma við Þormóði; er hann þá færðr upp til bæjar, ok fægir Gríma sár hans ok bindr; er honum þegar nökkuru hægra. Skúfr ok Bjarni fara heim á Stokkanes. Þessi tíðendi þótti öllum mönnum mikil vera; ok varð ekki skjótt spurt hit sanna um þetta — því at margir höfðu þat fyrir satt í fyrstu, at Þormóðr mundi þar druknat hafa, þá er lík Falgeirs fanst. Sár Þormóðr höfðust illa, ok lá hann tólf mánuði í sárum. Þá er einn vetr var liðinn frá þessum atburðum, þá gengr Þormóðr milli stofu ok eldhúss, ok var þó ekki gróit sár hans. Um várit varð sá atburðr, at Þórdís á Löngunesi lét illa í svefni um nótt, ok ræddu menn um, at hana skyldi vekja. Böðvarr son hennar mælti: „Láti þér móður mína njóta draums síns; því at vera má, at þat nökkut beri fyrir kerlingu, er hon vill vita“. Ok er hon ekki vakin. Enn er hon vaknar, hratt hon mæðilega öndinni. Böðvarr son hennar mælti þá: „Þú lézt illa í svefni, móðir; eða hefir nökkut fyrir þik borit?“ Þórdís svaraði: „Víða hefi ek göndum rent í nótt; ok em ek nú vís orðin þeira hluta, er ek vissa ekki áðr“. Böðvarr mælti: „Hvat er þat?“

Þórdís svaraði: „Þormóðr sonabani minn, enn bróðurbani þinn, er á lífi, ok er hann á vist með þeim Gamla ok Grímu inn í Eiríksfjarðarbotni. Nú vil ek fara á fund þeira ok taka Þormóð ok launa honum með ljótum dauða þann mikla skaða er hann hefir oss gert. Munu vér koma í Brattahlíð ok biðja Þorkel fara með oss; því at hann mun illa kunna, ef þeim Gamla ok Grímu er gert nökkut til meins — því at Þorkell heldr mjök hendi yfir þeim". Böðvarr kveðst búinn til ferðar þegar vildi. Nú standa þau upp um nóttina ok taka eina skútu er þau áttu, ok stíga þar á skip við fimtánda mann; róa um nóttina til Eiríksfjarðar. Þá var svá misserum komit, at nótt var farljós. Nú er Þórdís var á leið komin við sínu föruneyti, er þat sagt, at Gríma lætr þessa sömu nótt illa í svefni. Þormóðr mælti, at Gamli skyldi vekja hana. Gamli svaraði: „Ekki vill Gríma, at hún sé vökt; því at jafnan verðr hon í svefni þeira hluta vís, er henni þykkir varða". Nú hætta þeir hjalinu; enn Gríma vaknar skjótt. Gamli mælti þá: „Illa lézt þú í svefni, Gríma. Eða hvat bar fyrir þik?" Gríma svaraði: „Þat bar fyrir mik, at ek veit, at Þórdís af Löngunesi er á leið komin með fimtán húskarla sína ok ætlar inn hingat til vár; því at hon er nú vís orðin af trollskap sínum, at Þormóðr er hér á vist með

okkr, ok ætlar hon at drepa hann. Nú vil ek at þú sér at húsi í dag ok farir ekki at veiðum; því at ekki eru þit of margir, þótt þit sét tveir fyrir, enn fimtán menn sæki ykkr heim, allra helzt er Þormóðr er ekki vápnfærr; enn þó nenni ek ekki at senda ykkr á jökla í brott — heldr munu þit heima við hafast". Nú fór Þórdís um nóttina til þess er hon kom í Brattahlíð. Þorkell fagnar þeim vel ok býðr þeim greiða. Þórdís svarar: „Sá er málavöxtr, at ek ætla at fara á fund þeira Gamla ok Grímu þingmanna þinna; því at ek þykkjumst þess vís orðin, at þar er kominn Þormóðr skógarmaðr várr, er margir menn hyggja at druknaðr sé. Nú vilda ek, at þú færir með oss — ok halt til þess, at vér náim lögum af þeim Gamla og Grímu; veiztu þá gerla, hvat vér eigumst við, ef þú heyrir ræður várar". Þorkell svaraði: „Ólíklegt sýnist mér vera, at Gríma muni varðveita skógarmann þinn; enn þó mun ek fara, ef þér vilið". Nú eta þau Þórdís þar dagverð. Enn Þorkell sópast at mönnum; því at hann vildi ekki undir þeim Þórdísi ok Böðvari eiga, ef þau yrði ekki á eitt sátt. Ok er menn váru mettir, þá stígr Þorkell á skip við tuttugu menn, ok fara hvárirtveggju við svá búit. Enn Gríma kona Gamla átti stól einn mikinn; enn á brúðum stólsins var skorinn Þór, ok var þat mikit líkneski. Gríma mælti um

morgininn: „Nú vil ek skipa til verka í dag. Stól minn mun ek setja á stofugólf mitt; þar vil ek, Þormóðr, at þú sitir á, þá er menn koma: vil ek ekki, at þú rísir upp af stólnum, meðan Þórdís er á bænum. Nú þó at þér þykki nökkurar nýlundur í gerast, eða þér sýnist ófriðr at þér borinn, þá rís þú ekki upp af stólnum; því at ekki mun stoða at hrökkva í hyrningar undan, ef þér verðr bana auðit. Gamli skal festa upp ketil ok sjóða sel; þú skalt bera sorp á eldinn ok lát verða mikinn reyk í húsunum. Ek mun sitja í dyrum ok spinna garn, ok taka við komendum". Nú er svá gert sem Gríma sagði fyrir. Ok er skip þeira Þorkels ok Þórdísar sjást at landi fara, sezt Þormóðr á stólinn. Gamli hafði uppi ketilinn ok bar sorpit á eldinn; varð mjök reykfast í húsunum; þar fylgdi ok myrkr mikit, svá at ekki mátti sjá. Gríma sat á þreskeldi ok spann garn ok kvað nökkut fyrir sér þat er aðrir skildu ekki. Nú renna skip at landi ok ganga menn upp til bæjarins; gengr Þorkell upp. Gríma heilsar honum vel ok bauð honum þar at vera. Þorkell mælti: „Þórdís af Löngunesi er hér í för, ok hefir hon þat fyrir satt, at Þormóðr skógarmaðr hennar sé hér með þér; viljum vér, at þú selir Þormóð fram, ef þú veizt, hvar hann er; því at þér mun þat ofráð verða, at halda skógarmann fyrir þeim Þórdísi

ok Böðvari syni hennar". Gríma svarar: „Undarlegt sýnist mér vera, at Þórdís ætlar, at ek muni halda skógarmann fyrir svá ríkum mönnum sem þau eru á Löngunesi, þar sem ek sit við annan mann í húsi". „Víst er þat undarlegt; enn þó viljum vér ransaka herbergi þín". Gríma mælti: „Þess munu þér kost eiga, at ransaka bæ minn, þó at þér hefðit ekki svá mikit fjölmenni. Nú þykkir mér ávalt gott, er þú kemr í mín hús; enn ilt mun mér þykkja geis þeira Einarsfirðinga ok spellvirki um herbergi mín". Þorkell mælti: „Við Þórdís munum ganga inn tvau ok ransaka". Nú gera þau svá; fóru þau inn ok ransökuðu; ok var þat ekki löng dvöl, því at húsin váru einkar lítil; þau luku þá upp stofunni, ok var þar fult alt af reyk, ok sá þau ekki til tíðenda; ramt var í húsunum af reyk, ok váru þau heldr skemr inni enn þau myndi, ef reyklaust hefði verit. Nú koma þau út. ok var þá ransakaðr bærinn úti. Þá mælti Þórdís: „Eigi þóttumst ek mega sjá gerla fyrir reykinum, hvat í stofunni var títt. Nú munum vit fara upp á stofuna ok taka af skjána, ok láta leggja út reykinn, ok sjá þaðan, hvat í stofunni er til tíðenda". Nú fara þau Böðvarr ok Þórdís á stofuna upp ok taka af skjána; leggr þá út reykinn; má þá sjá um alla stofuna; geta þá at líta stól Grímu, þar er hann stóð á miðju gólfi; þau

sá Þór með hamri sínum skorinn á stóls-brúðunum; enn þau sá ekki Þormóð. Fara þau af stofunni ok ganga til dyranna. Þá mælti Þórdís: „Eftir er enn nökkut fyrnsku Grímu, er Þórs líkneski er skorit á stólsbrúðum hennar". Gríma svarar: „Ek kem sjaldan til kirkju at heyra kenningar lærðra manna; því at ek á langt at fara, enn fáment heima. Nú kemr mér þá heldr í hug, er ek sé líkneski Þórs af tré gert, þat er ek má brjóta ok brenna þegar ek vil, hversu miklu sá er meiri, er skapat hefir himin ok jörð ok alla hluti sýnilega ok ósýnilega, ok öllum hlutum gefr líf ok engi maðr má yfir stíga". Þórdís svaraði: „Vera má, at þú hugsir slíkt; enn nökkut ætla ek at vér mundim nú nauðga þér meir til sagna, ef Þorkell væri ekki hér með sitt fjölmenni — því at svá segir mér hugr, at þú vitir nökkut til, hvar Þormóðr er". Gríma svaraði: „Nú kemr at því sem mælt er — ‚oft verðr villr, er geta skal', ok hitt annars, at ‚hverjum bergr nökkut, er eigi er feigr'. Enn þér er nauðsyn þat er heilög gæzla er svá yfir þér, at fjándinn á ekki þik svá heimila til illra hluta, sem þú vildir gert hafa — því at þat er várkunn, at menn geti stundum annars enn er; enn þat er engi várkunn, at hann trúi ekki því er satt er, þá er hann reynir sannleikinn". Nú skilja þau at svá mæltu; ferr Þorkell heim í Brattahlíð; Þórdís ferr ok heim.

Þeir Skúfr ok Bjarni kom á laun til fundar við þau Gamla ok Grímu; færa þeim þá hluti, er þeim bar nauðsyn til, ok launa þeim mörgu þann kostnað, er þau höfðu fyrir Þormóði.

24. Þá er Þormóðr var orðinn heill maðr þess er Falgeirr hafði á honum unnit, þá fluttu þeir Skúfr ok Bjarni Þormóð heim á Stokkanes, ok varðveittu hann þar á laun í einu búri. Þar var Þormóðr þrjá vetr. Þann vetr seldu þeir Skúfr ok Bjarni bæinn á Stokkanesi ok aðrar jarðir þær sem þeir áttu, ok svá kvikfé, ok ætluðu at ráðast í brott af Grænlandi. Snemmendis um várit bjuggu þeir skip sitt ok settu fram. Þá fýstist Þormóðr ór útibúrinu; hann sagðist eiga erendi norðr í fjörðinn. Hann fær sér þá einn bát. Fífl-Egill réðst til ferðar með honum; sezt Egill til ára, enn Þormóðr stýrir. Egill var góðr ræð*ari* ok vel syndr. Veðr var bjart ok gott, sólskin ok vindr lítill. Þeir fara inn eftir Einarsfirði. Ok er þeir váru komnir inn í fjörðinn, þá ókyrrist Þormóðr mjök ok róast um ok hallar skipinu ýmsa vega. Egill mælti: „Hví lætr þú svá heimsklega ok ferr sem ærir menn? Eða hvárt vill þú hvelfa undir okkr skipinu?“ Þormóðr svaraði: „Óvært er mér“. Egill mælti: „Ekki má ek róa fyrir látum þínum; ok er nauðsyn á, at þú látir ekki svá ferlega, at þú hafir okkr á kafi“. Enn hvat sem Egill ræðir um þetta, þá

lýkr svá, at Þormóðr hvelfir bátinum undir þeim. Kafar Þormóðr undan skipinu; ok þegar eftir tekr hann annat kaf at öðru til þess er hann kemr á land. Hann hefir exi sína með sér. Egill kemr upp hjá skipinu, ok kemst á kjöl, tekr þar hvíld ok litast um, ok hyggr at, ef hann sjái Þormóð nökkut, ok fær ekki sét hann; réttir Egill þá bátinn; ok eftir þat sezt hann til ára, ok rær út eftir firði ok þar til er hann kemr heim á Stokkanes; segir þeim Skúfi ok Bjarna et sanna frá sínum ferðum — lét þat fylgja sögunni, at hann hugði Þormóð dauðan mundu vera. Þeim sýndist sjá atburðr undarlegr, ok þykkjast ekki svá búit mega hafa at; enn renna nökkut grunum á, hvárt Þormóðr mun týndr vera. Nú er at segja frá Þormóði, hvat hann hafðist at, þá er hann kom á land. Hann vatt fyrst klæði sín ok eftir þat tók hann á sik göngu ok fór til þess er hann kom á Hamar til Sigríðar. Þat var síð dags. Hann barði þar á dyrr, ok gengr út kona ein ok heilsar honum ok snýr inn aftr ok gengr til stofu. Þormóðr gengr eftir henni til stofu ok sezt utarlega á óæðra bekk. Sigríðr tók til orða ok mælti: „Hver kom þar?“ Hann svaraði: „Ósvífr heiti ek“. Sigríðr mælti: „‚Svá er hverr sem heitir‘. Vill Ósvífr vera hér í nótt?“ Hann svaraði — kveðst þat vilja. Um morguninn kom Sigríðr at máli við hann, ok spurði,

hvernig af stæðist um ferðir hans. Þormóðr mælti: „Satt er þat, at ek nefndumst Ósvífr í gær“. Hon svaraði: „Kenna þóttumst ek þik, þó at ekki hefði fyrri sét þik, at þú ert Þormóðr kolbrúnarskáld“. Hann svaraði: „Ekki gerir at dylja; því at rétt kendan hefir þú manninn. Enn ek ætla at fara á Langanes, til Þórunnar Einarsdóttur, ok hitta Ljót son hennar; þau hafa oft ljótlega til mín lagt“. Sigríðr mælti: „Þá skal Sigurðr son minn fylgja þér; lengi hafa þau Ljótr ok Þórunn þung verit til vár“. Þormóðr mælti: „Óráðlegt sýnist mér, at Sigurðr fari með mér; því at þit munut ekki halda mega bústað ykkrum hér, ef nökkut skerst í með okkr Ljóti“. „Gjarna vil ek láta bústað til þess“, sagði Sigríðr, „at Ljótr fengi nökkura svívirðing“. Nú ferr Sigurðr með Þormóði á Langanes til Þórunnar. Þeir drepa þar á dyrr, ok gengr út ein kona ok heilsar þeim. Sigurðr spurði, hvárt Ljótr væri heima. Hon svaraði: „Hann er í stofu“. Sigurðr mælti: „Bið þú hann út koma“. Griðkona gengr inn ok mælti, at Ljótr skyldi út koma. Hann svarar: „Hverr mælti þat?“ „Sigurðr af Hamri“, segir hon, „ok annarr maðr sá er ek kenda eigi“. „Hvernig var sjá maðr sjónum, er þú kendir eigi?“ Hon svaraði: „Svartr maðr ok hrokkinhærðr“. Ljótr mælti: „Líkan segir þú hann Þormóði sakadólgi várum“. Nú gengr

Ljótr fram ok konur með honum, þær sem þar váru. Ljótr tekr eitt spjót í hönd sér ok gengr í dyrrin ok kennir Þormóð, ok leggr þegar á honum miðjum. Þormóðr laust við laginu exinni, er hann hafði, ok berr niðr spjótit — kemr lagit í fót honum fyrir neðan kné ok verðr þat mikit sár. Ljótr lýtr eftir, er hann lagði til Þormóðar; ok þá höggr Sigurðr meðal herða Ljóti ok særir hann miklu sári. Hann hljóp inn í dyrnar; enn konur hlaupa fram fyrir hann. Snúa þeir þá í brott. Mælir Þormóðr, at Sigurðr skuli fara heim á Hamar — „ok seg móður þinni tíðendin; enn ek mun leita fyrir mér", segir Þormóðr. Nú skiljast þeir; ferr Sigurðr heim á Hamar og segir móður sinni þau tíðendi, sem í höfðu gerzt. Sigríðr mælti: „Þat er mitt ráð, at þú farir á fund Skúfs ok skorir á hann til viðtöku. Seg honum, at ek vildi selja land mitt, ok ráðast með honum brott af Grænlandi". Nú ferr Sigurðr á fund Skúfs ok berr upp erendi sín fyrir hann. Skúfr tekr við Sigurði ok selr land Sigríðar, ok tekr upp bú hennar ok flytr til skips. Þormóðr bindr sár sitt ok ferr ofan til nausts þess er Þórunn átti; sér hann, at skip hafði verit dregit fram ór nausti, ok þykkist vita, at húskarlar Þórunnar munu vera rónir; gengr Þormóðr þá til sjávar ok gerir sér rúm í einu þarabrúki; liggr þar um daginn. Ok er aftnast tók, þá heyrir hann

áraglamm; verðr þess varr, at húskarlar Þórunnar eru komnir at landi. Þeir mæla svá: „Gott veðr mun á morgin ok munum vér þá róa — munum ekki brýna upp skipi váru ok láta fljóta her í höfninni í nótt“. Þeir gera svá; fara heim síðan. Þá var mjök kveldat. Nú er þeir eru heim farnir, þá ríss Þormóðr upp ok ferr þangat sem skipit flaut, leysir festar ok sezt til ára, rær á fjörðinn ok stefnir til bæjarins í Vík. Á því kveldi lagðist Þórdís niðr, á Löngunesi, til svefns; hon lét illa í svefni. Ok er hon vaknaði, mælti hon: „Hvar er Böðvarr son minn?“ Hann svaraði: „Hér em ek, móðir. Eða hvat vill þú?“ Hon svarar: „Ek vil, at vér róim á fjörðinn; því at þar eru veiðarefni“. Böðvarr svararði: „Hvern veg er veiðarefni þat?“ Þórdís mælti: „Þormóðr skógarmaðr várr er á firðinum einn á skipi, ok skulu vér fara til fundar við hann“. Þá fóru fim húskarlar með Þórdísi. Þau róa á fjörðinn um nóttina. Þormóðr heyrir róðrinn ok mannamálit, ok grunar, at Þórdís sé á för komin með húskörlum sínum; sýnist honum þvígit vænni sinn kostr, ef hann verðr fundinn. Hólmr einn lítill var skamt frá Þormóði. Þat var land lágt, ok gengu þar yfir háflæðar, enn eigi gekk þar sjór yfir at meðalsdögum. Þat varð Þormóði fyrir, at hann hvelfdi skipinu; enn hann legst til hólmsins. Þarabrúk var um hólminn allan; grefst Þor-

móðr niðr milli tveggja steina ok berr á sik ofan þarann. Þau Þórdís fara um nóttina, ok sjá um nóttina sorta nökkurn á sjónum, ok vita eigi, hvat þat er; róa at þangat, ok sjá, at þar hvelfir skip á sjónum ok eru árar í hömlu-böndum. Húskarlar Þórdísar mæla þá: „Hér mun Þormóðr hafa róit á stein upp, ok meiri ván, at hann sé druknaðr“. Þórdís segir: „Eigi mun Þormóðr hér druknat hafa; heldr mun hann hafa orðit var við för vára, ok mun hann sjálfr hvelft hafa skipinu, ok gert þat til þess at vér skulim hann ætla dauðan. Enn hann mun hafa svimit í hólminn, ok mun hann fólgist hafa. Nú skulu vér leggja skipit við hólm-inn ok leita hér í hólminum. Nú skulu þér stanga með spjótsoddum allan þenna hólm oftar enn eitt sinn“. Þeir gerðu sem hon mælti ok fundu hann ekki. Þá sýndist þeim örvænt vera, at þeir fyndi hann. Þórdís mælti: „Þat hygg ek, at hann sé hér í hólminum, þótt þér finnið hann ekki. Nú ef Þormóðr má heyra mál mitt, þá svari hann mér, ef hann hefir heldr manns hug enn merar“. Þormóðr heyrði, hvat Þórdís mælti, ok vildi svara henni; enn hann mátti ekki mæla — því at honum þótti sem tekit væri fyrir munn honum. Nú fara þau Þórdís á brott við svá búit; taka skip þat er hann hafði þangat haft ok hafa þat með sér. Nú er þau váru brottu, stendr Þormóðr upp ór

brúkinu. Hann svimr þá þangat á leið sem honum þótti skemst til lands. Hann hendir sker þau er á leiðinni váru, ok tók þar hvíldir. Ok er skamt var til meginlands, þá komst Þormóðr á eitt sker, ok var þá orðinn svá, at hann mátti hvergi þaðan komast. Á þessi nótt dreymdi Grím bónda í Vík, at maðr kom at honum, vænn ok merkilegr, meðalmaðr vexti, riðvaxinn ok herðimikill. Sá maðr spurði Grím, hvárt hann vekti eða svæfi. Hann svaraði: „Ek vaki. Enn hverr ert þú?“ Draummaðr segir: „Ek em Óláfr konungr Haraldsson; ok er þat erendi mitt hingat, at ek vil, at þú farir eftir Þormóði hirðmanni mínum ok skáldi ok veitir honum björg, svá at hann megi þaðan komast, sem hann liggr, í skeri einu skamt frá landi. Nú segi ek þér þetta til merkja, at þat er satt er fyrir þik berr, at sjá maðr útlendr, er verit hefir á vist með þér í vetr ok Gestr nefndist, hann heitir Steinarr, ok er kallaðr Helgu-Steinarr; hann er íslenzkr maðr, ok fór hingat til Grænlands, at hann ætlaði at hefna Þorgeirs Hávarssonar; enn þó at Steinarr sé garpr mikill ok harðfengr, þá mun honum verða lítils af auðit um hefnd eftir Þorgeir, ok mun hans harðræði annarsstaðar meira fram koma“. Nú er Óláfr konungr hafði svá mælt, þá vaknar Grímr. Hann vekr Gest ok bað hann upp standa. Hann gerir svá ok tekr vápn í hönd

sér — gengr út með Grími. Setjast þeir niðr, ok mælti Grímr: „Hvat segir þú til þess, hvat þú heitir?“ Gestr segir: „Mantu þat, Grímr, hvat ek sagða til þess“. Grímr svaraði: „Man ek þat víst, hvat þú nefndist; enn at því spyr ek, hvárt þú heitir svá sem þú nefndist“. Gestr svaraði: „Hví eigi?“ Grímr mælti: „Því — ef þú heitir Steinarr, ok ert kallaðr Helgu-Steinarr á þínu landi“. Gestr mælti: „Hverr sagði þér, at svá væri?“ Grímr svarar: „Ó-láfr konungr“. Gestr mælti: „Hvenær fant þú hann Óláf konung?“ Þá svaraði Grímr ok sagði honum drauminn. Hann svarar: „Satt er þat í drauminum, er til mín kemr“. Nú fara þeir Steinarr at leita Þormóðar ok finna hann þar sem Óláfr konungr hafði til vísat, færa hann heim í Vík ok varðveita hann þar á laun ok græða hann. Ok er hann var heill maðr orðinn þeira áverka, er Ljótr hafði á honum unnit, þá flytr Steinarr Þormóð til skips þeira. Skúfr var þá ekki við skip; réðst Steinarr þá brott ór Vík, ok er þá við skip, ok svá Þormóðr. Skúfi frestast mjök alt þar til er lokit var þinginu. Böðvarr Þórdísarson gerði sekjan Sigurð Sigríðarson um áverka við Ljót. Eftir þingit var Skúfr albúinn til brottferðar. Ok þann morgin, er Skúfr ætlaði út at sigla, fóru þeir Þormóðr ok Gestr í óleyfi Skúfs frá skipi á einum báti. Þeir fóru til Einarsfjarðar ok

inn eftir firðinum, fyrir bæ Þórunnar. Þar sjá þeir fjóra menn á skipi sitja á fiski. Þeir kenna þar Ljót Þórunnarson. Þeir leggja þegar at Ljóti ok berjast; lýkr svá þessum fundi, at Ljótr fellr ok þeir menn þrír, sem með honum váru á skipi. Fara þeir Þormóðr þá aftr til skips, ok var Skúfr þá búinn til siglingar. Stíga þeir þá á skip, Þormóðr ok Skúfr. Enn Steinarr sezt eftir; ferr hann þá til vistar í Brattahlíð til Þorkels. Skúfr ok Bjarni láta í haf. Þeir fá. góða byri; ferst þeim vel — taka Noreg. Ok er þeir váru landfastir, þá skiftu þeir fé sínu; hafði Bjarni skip ór félagi þeira, enn Skúfr lausafé. Heldr Bjarni suðr til Danmerkr ok gengr út til Róms ok sækir heim hinn heilaga Pétr postula ok Pál postula; ok í þeiri för andast Bjarni. Sigríðr ok Sigurðr son hennar keyptu jarðir í Noregi ok bjuggu þar til dauðadags. Skúfr ok Þormóðr fóru á fund konungs ok váru með honum til dauðadags. Konungrinn var ekki margr til Þormóðar í fyrstunni. Maðr sá kom til konungs, er Grímr nefndist; hann var íslenzkr maðr; hann kallaðist hafa hefnt Þorgeirs Hávarssonar fyrr enn Þormóðr. Konungr lagði á hann virðing ok gaf honum gjafir. Enn Þormóðr vissi deild á Grími, at hann var illr maðr ok hafði myrt mann á Íslandi. Þá gengr Þormóðr fyrir konung ok kvað vísu:

(27) Ér fenguð fé fleira
— flim 's oft kveðit — Grími
mér ok miklu færa,
mæringr enn þörf væri;
hann hefr hunds verk unnit,
hvinn gerir slíkt at vinna,
mætr, enn ek menśku bœttak
mína, gramr, ok þína.

Konungr mælti: „Þykkist þú, Þormóðr, meiri fremd hafa unnit á Grænlandi enn Grímr á Íslandi?“ Þormóðr svaraði: „Ráðit er þat“. Óláfr konungr mælti: „Hvat vant þú til frægðar á Grænlandi?“ Þormóðr svaraði:

(28) Þollr vák Þorgrím trolla
— þar laut harðr til jarðar —
áðr réðk, odda hríðar,
ótrauðr Loðins dauða,
þar namk Þorkel fjörvi,
Þorðr lét önd enn fjorði,
f̣ldr vas frægr til moldar
Falgeirr skörungr þeira.

Óláfr konungr mælti: „Framarr hefir þú þá gert um vígin á Grænlandi enn fiskimaðrinn kallar aflausn vera fiskinnar; því at hann kallast leysa sik, ef hann dregr fisk fyrir sik, enn annan fyrir skip sitt, þriðja fyrir öngul, fjórða fyrir vað. Nú hefir þú framar gert. Eða hví draptu svá marga menn?“ Þormóðr svaraði: „Illr þótti mér jafnaðr þeira vera við mik; því at þeir jöfnuðu mér til merar — töldu mik svá vera með mönnum sem meri með hestum“.

Konungr mælti: „Várkunn var þat, at þér mislíkaði þeira umræða; hefir þú ok stórt at gert“. Þá kvað Þormóðr vísu:

(29) Éls hefk illan díla
ekkils þeirs mik sekðu
geig vannk gervidraugum
Grœnlendingum brendan;
sá munat sœkitívum
sverðéls frömum verða
hrings á hryggjar tanga
hóggrœddr, nema mér lógi.

„Svá mun vera“, segir konungr; „seint mun sá díli gróa, er þú hefir þar brent“. Nú var Þormóðr með Óláfi konungi í góðri virðingu, ok þótti hinn röskvasti maðr í öllum mannraunum. Þormóðr fór ór landi með konungi ok þoldi með honum alla útlegð. Hann fór ok aftr með honum til Noregs; því at honum þótti betra at deyja með honum, enn lifa eftir hann. Enn er konungr kom í Þrándheim í dal þann er Veradalr heitir, ok hann vissi umsátir Þrænda um sik, þá spurði konungr Þormóð í gamni, ok mælti svá: „Hvert mundi nú vera ráð þitt, ef þú værir höfðingi fyrir liði því er vér höfum nú?“ Þormóðr kvað þá vísu:

(30) Brennum öll fyr innan
inni þaus vér finnum
— land tegask herr með hjörvi
Hverbjörg — fyr gram verja —;
ýs taki allra húsa
Innþrœndir kol sinna

angr mun kveykt í klungri
kald, ef ek má valda.

Óláfr konungr mælti: „Vera má, at þat hlýddi, at svá væri gert sem þú mælir; enn annat ráð munu vér taka enn brenna land várt sjálfra; enn þó grunum vér ekki þik um, at þú mundir svá gera sem þú mælir“. Þann dag, er bardagi var á Stiklastöðum, mælti Óláfr konungr — bað Þormóð skemta nökkuru. Enn hann kvað Bjarkamál en fornu. Konungr mælti: „Vel er til kvæðis tekit fyrir sakir þeira hluta, er hér munu at berast í dag; ok kalla ek kvæðit Húskarlahvat“. Þat er sagt, at Þormóðr var heldr ókátr um daginn fyrir bardagann. Konungr fann þat ok mælti: „Hví ertu svá hljóðr, Þormóðr?“ Hann svarar: „Því, herra, at mér þykkir ekki víst vera, at vit munim til einnar gistingar í kveld. Nú ef þú heitir mér því, at vit munim til einnar gistingar báðir, þá mun ek glaðr“. Óláfr konungr mælti: „Ekki veit ek, hvárt mín ráð megu um þat til leiðar koma; enn ef ek má nökkuru um ráða, þá muntu þangat fara í kveld sem ek ferr“. Þá gladdist Þormóðr ok kvað vísu:

(31) Ála þryngr at éli
örstiklandi miklu
skyldut skelknir höldar
— skalmöld vex nú — falma.
Brott komumk vér, enn veitum
valtafn frekum hrafni,

— vizk eigi þat vága
viggruðr — eða hér liggjum.

Konungr svarar: „Svá mun vera, skáld, sem þú segir, at annat tveggja munu þeir menn, er nú eru hér komnir, komast brott eða liggja hér eftir". Þá kvað Þormóðr vísu:

(32) Þér munk eðr unz öðrum
allvaldr náir skaldum,
— nær vættir þú þeira? —
þingdjarfr fyr kné hvarfa.
Ríkr vilk með þér, rœkir
randar linns enn svinni,
— stöndum ár á öndrum
eybaugs — lifa ok deyja.

Óláfr konungr mælti: „Sighvati skáldi þykkist þú nú sneiða, ok þarftu þess ekki — því at hann mundi sik nú hér kjósa, ef hann vissi, hvat hér væri títt; ok má svá vera, at hann komi oss at mestu gagni". Þormóðr svarar: „Vera má, at svá sé; enn þat hygg ek, at þunnskipat væri þá um merkisstöngina í dag, ef þann veg hefði margir farit". Þat hafa menn at ágætum gert, hversu rösklega Þormóðr barðist á Stiklastöðum, þá er Óláfr konungr fell; því at hann hafði hvárki skjöld né brynju; hann hjó ávalt tveim höndum með breiðexi, ok gekk í gegnum fylkingar, ok þótti engum gott, þeim er fyrir honum urðu, at eiga náttból undir exi hans. Svá er sagt, þá er lokit var bardaganum, at Þormóðr væri ekki sárr. Hann

harmaði þat mjök ok mælti: „Þat ætla ek nú, at ekki muni ek til þeirar gistingar sem konungr í kveld; enn verra þykki mér nú at lifa enn deyja“. Ok í því bili, er hann mælti þetta, þá fló ör at Þormóði ok kom fyrir brjóst honum, ok vissi hann ekki, hvaðan at kom. Því sári varð hann feginn; því at hann þóttist vita, at þetta sár mun honum at bana verða. Hann gengr til einnar bygghlöðu, þar er margir konungsmenn váru inni sárir. Kona ein vermdi vatn í katli til þess at þvá sár manna. Þormóðr gengr at einum vandbálk ok styðst þar við. Konan mælti við Þormóð: „Hvárt ertu konungsmaðr? eða ertu af bóndaliði?“ Þormóðr kvað vísu:

(33) Á sér at vér várum
vigreifir með Áleifi,
sár fekk ek, Hildr, at hváru
hvítings ok frið lítinn;
skinn á skildi mínum,
skald fekk hríð til kalda;
nær hafa œskiaskar
örvendan mik görvan.

Konan mælti: „Hví lætr þú ekki binda sár þín, ef þú ert nökkut sárr?“ Þormóðr svarar: „Þau ein hefi ek sár, at ekki þarf at binda“. Konan mælti: „Hverir gengu bezt fram með konungnum í dag?“ Þormóðr svarar:

(34) Haraldr sák at vel varðisk
vigreifr með Áleifi;

þar gekk hára hjörva
Hringr ok Dagr at þingi;
réðu þeir und rauðar
randir prútt at standa
— fekk benþiðurr blakkan
bjór — döglingar fjórir.

Konan spurði þá enn Þormóð: „Hversu gekk konungrinn fram?“ Þormóðr kvað vísu:

(35) Ört vas Áleifs hjarta,
óð fram konungr — blóði
rekin bitu stál — á Stikla-
stöðum, kvaddisk lið böðvar.
Élþolla sák alla
Jalfaðs, nema gram sjalfan,
reyndr vas flestr — í fastri
fleindrífu sér hlífa.

Margir menn váru í hlöðunni þeir er mjök váru sárir, ok lét hátt í holsárum, sem náttúra er til sáranna. Nú er Þormóðr hafði kveðit þessar vísur, þá kom maðr einn af bóndaliðinu í hlöðuna inn; ok er hann heyrir, at hátt lætr í sárum manna, mælti hann: „Ekki er þó undarlegt, at konunginum hafi ekki vel gengit bardaginn við bændr, svá þróttlaust fólk sem þetta er, sem konunginum hefir fylgt; því at mér þykkir svá mega at kveða, at þeir menn sem hér eru inni, þoli varla óæpandi sár sín“. Þormóðr svarar: „Sýnist þér svá sem ekki sé þróttigir menn, sem hér eru inni?“ Hann svarar: „Svá sýnist mér víst, at hér sé margir menn þreklausir saman komnir“. Þormóðr

mælti: „Svá má vera, sá sé hér nökkurr maðr í hlöðunni inni, er ekki sé þrekmikill — ok ekki mun þér sýnast sár mitt mikit“. Bóndi gengr at Þormóði ok vildi sjá sár hans. Enn Þormóðr sveipar exinni til hans ok særir hann miklu sári. Sá kvað við hátt ok stundi fast. Þormóðr mælti þá: „Þat vissa ek, at vera mundi nökkurr sá maðr inni, er þreklauss mundi vera; er þér illa saman farit — leitar á þrek annarra manna — því at þú ert þreklauss sjálfr; eru hér margir menn mjök sárir, ok stynr engi þeira; enn þeim er ósjálfrátt, þótt hátt láti í sárum þeira; enn þú stynr ok veinar, þó at þú hafir fengit eitt lítit sár“. Nú er Þormóðr mælti þetta, stóð hann við vandbálkinn, þann er í bygghlöðunni var. Ok er lokit var ræðu þeira, þá mælti konan, sú er vatnið vermdi, við Þormóð: „Hví ertu svá fölr, maðr, ok litlauss sem nár? eða hví lætr þú ekki binda sár þín?“ Þormóðr kvað vísu:

(36) Emka rauðr, enn rauðum
ræðr grann kona manni;
jarn stendr fast et forna
fenstigi mér benja;
þat veldr mér en mæra
marglóðar, nú, tróða
djúp ok danskra vápna
Dags hríðar spor svíða.

Ok er hann hafði þetta mælt, þá dó hann standandi við bálkinn ok fell til jarðar dauðr. Har-

aldr Sigurðarson fyldi vísu þá, er Þormóðr hafði kveðit; hann lagði þetta við: „svíða" — „Svá mundi hann vilja kveða: ‚Dagshríðar spor svíða'" Nú lauk svá sem sagt var æfi Þormóðar kolbrúnarskálds; ok lýkr hér frásögn þeiri, er vér kunnum at segja frá Þormóði, kappa ens helga Óláfs konungs.

---

# Viðaukar

## úr Flateyjarbók.

### I.

(Flateyjarbók II, 159).

121. Þat bar til um várit eftir, at þeir Þorgeirr ok Þormóðr fóru norðr á Strandir ok alt norðr til Horns, ok einn dag fóru þeir í bjarg at sækja sér hvannir, ok í einni tó, er síðan er kölluð Þorgeirstó; skáru þeir miklar hvannir; skyldi Þormóðr þá upp bera, enn Þorgeirr var eftir. Þá brast aurskriða undan fótum hans. Honum varð þá þat fyrir, at hann greip um einn hvannnjóla með grasinu ok helt þar niðri alt við rótina, ella hefði hann ofan fallit. Þar var sextögt ofan á fjörugrjót. Hann gat þó eigi upp komizt ok hekk þar þann

veg, ok vildi þó með öngu móti kalla á Þormóð sér til bjargar, þó at hann felli ofan á annat borð, ok var þá bani víss sem vita mátti. Þormóðr beið uppi á hömrunum, því at hann ætlaði at Þorgeirr mundi upp koma, enn er honum þótti Þorgeiri dveljast svá miklu lengr enn vân var at, þá gengr hann ofan í skriðuhjallana. Hann kallar þá ok spyrr, hví hann komist aldri eða hvárt hann hefir enn eigi nógar hvannirnar. Þorgeirr svarar þá með óskelfdri röddu ok óttalausu brjósti: „Ek ætlar", segir hann, „at ek hafi þá nógar at þessi er uppi, er ek held um". Þormóð grunar þá, at honum muni eigi sjálfrátt um; ferr þá ofan í tóna ok sér vegs ummerki, at Þorgeirr er kominn at ofanfalli. Tekr hann þá til hans ok kippir honum upp, enda var þá hvönnin nær öll upp tognuð. Fara þeir þá til fanga sinna. Enn þat má skilja í þessum hlut, at Þorgeirr var óskelfr ok ólífhræddr, ok flestir hlutir hafa honum verit karlmannlega gefnir sakir afls og hreysti ok allrar atgervi. Segja menn at þeir hafi verit allir þrír á einni vist á Reykjahólum, Þorgeirr, Þormóðr ok Grettir enn sterki Ásmundarson, ok hafi verit nær um afl þeira tveggja ok Grettis eins; segja menn ok at Þorgisl hafi svá sagt at lögbergi á alþingi, er hann var spurðr at vetrtaksmönnum sínum, hvárt þeir mundu eigi röskvastir menn á öllu Íslandi, ok sízt kunna nökkut at hræðast, enn hann svarar því svá, at þat væri eigi — „því at Grettir er myrkhræddr, enn Þormóðr guðhræddr", enn Þorgeirr sagði hann ekki vætta hræðast kunna ok sízt bregða sér við nökkurn váfeiflegan háska.

## II.

(Flateyjarbók II, 199—203).

### *Þáttr Þormóðar, er hann var með Knúti í Danmörk.*

(148). Prýðimaðr mikill var Þormóðr kolbrúnarskáld ok vel at íþróttum búinn, skáld gott, meðalmaðr á vöxt, allra manna snarastr. Hann undi sér öngu eftir andlát Þorgeirs fóstbróður síns. Ok þat sama sumar sem hann var veginn, fór Þormóðr utan vestr í Vaðli, ok er ekki sagt af ferðum þeira fyrr enn þeir kómu fram í Danmörk. Þá réð þar fyrir Knútr enn ríki, ok var honum sagt frá Þormóði, at hann væri mikit afbragð annarra manna, bæði sakir hreysti ok kappgirni, ok svá skáldskapar, ok sendir konungr eftir honum ok bað hann koma á sinn fund. Þormóðr bregzt fljótt við ok ferr at hitta konung ok gengr fyrir hann ok kveðr hann ágætlega. Enn konungr fagnar vel Þormóði ok býðr honum þegar til sín — „ok ferr þat orð frá þér“, segir konungr, „at þú sér vel fallinn til at vera í konungs hirð ok þjóna tígnum mönnum“. Þormóðr svarar: „Þat er mér eigi felt, herra, fyrir því at ek er eigi til færr, at setjast í rúm höfuðskálda, slíkra sem með yðr hafa verit, ok er ek ekki reyndr at því at yrkja um þvílíka höfðingja sem þér eruð“. Konungr mælti: „Þetta viljum vér at þú kjósir af at vera með oss“. Þá svarar Þormóðr: „Herra, varla er oss þetta fallit, því at vér erum illa stiltir, ok kann vera at vér fáim eigi til gætt, ok þykkir mér ilt, ef ek hrata hér í nökkurn ófagnað fyrir sakir skaplyndis míns, því at oft nenni ek lítt at gera í móti skapi mínu, enn þó

vil ek yðr þess biðja, at þér fyrirkunnið mik eigi þess, er ek mun mæla; þat verðr stundum mælt af sumum mönnum, at eigi hafi gefizt at fullu þeim mönnum er með yðr hafa verit“. Konungr mælti: „Var með oss Þórarinn loftunga“. Þormóðr svarar: „Satt er þat, herra, enn þó var sú stund um hríð, at eigi þótti þat ólíkara, at Þórarinn bæri sik eigi heilan á brott, enn yðr mun þó svá reynast, at ek er miklu verra skáld enn Þórarinn“. Konungr mælti: „Mjök verðum vér eftir at leita við þik, Þormóðr, ok má þat gera um stundar sakar, enn þó má þat á finna, at vér vildum þína þjónustu hafa“. „Guð þakki yðr þat, herra“, segir Þormóðr, „enn þó verðum vér at ætla hóf fyrir oss, þótt vér vitim þat, at yðr sé merkilegast at þjóna“. „Nú mun ek þat sýna“, segir konungr, „sem ek gat áðr, at heldr enn eigi farir þú til mín, ok mun ek gefa þér þvílíkan mála sem Þórarinn hafði, enn þat var mörk gulls“. „Herra“, sagði Þormóðr, „ef vér tökum þenna kost, þá þurfum vér mjök þinnar umstilli ok umsjár, því at ek er raunlítt stiltr, sem ek sagða yðr“. Þormóðr tekr nú þetta af, at hann ferr til hirðvistar með Knúti konungi, ok er hann þar um hríð ok vel virðr. Hann skemtir oft konungi. Ok er þat frá sagt, at hann skemti allra manna bezt ok oft kvæði hann vísur um þat er við bar. Konungi hugnaði hann vel, ok verðr þó ekki meira um enn hann hugði til. Líðr nú sumarit.

*Þormóðr ræðst með Háreki.*

149. Um vetrinn er þat sagt, at maðr sá kemr

til hirðarinnar, er Hárekr heitir; honum er svá farit, at hann er víkingr mikill ok illgerðamaðr, enn hann er þó vinr Knúts konungs; færði hann honum jafnan herfang mikit ok gersimar margar ok virði konungr hann mikils. Svá er sagt, at konungr fréttir nú Hárek at, hversu honum hefir farist um sumarit, enn hann segir at eigi hafi nú vel farist. Kveðst látit hafa stafnbúa sinn — „ok vil ek þess biðja yðr, herra, at þér fáið mér stafnbúa annan, ok er þó vandfengit í stað hans, at því at mér þykkir, því at hann var oft góðr tiltaks um orð, ef svara þurfti, hvárt sem skyldi skattyrðast eða leita lofgjarnlegra orða“. Konungrinn íhugar þetta mál, ok kveðst þó vilja bjóða honum til sín, ef hann vildi þat, ok hætti hann hernaði, ok kveðst sér þat ráð sýnast vænlegt, at hann gerði svá. Enn Hárekr lézt enn vilja hafa ena sömu iðn. Þar er hann um vetrinn með konungi. Hann er vel við Þormóð ok gerði mjök at athvarfi við hann. Hárekr vekr til mjök oft við konunginn um stafnbúann, at hann skuli fá honum, enn konungr slítr eigi ór því svá brátt. Þormóðr verðr eigi fyrir öfund af mönnum, sem oft kann verða við þá menn, sem nýkomnir eru til hirðar ok virðir vel. Enn þar kemr um málit Háreks, at hann segir honum, at hann kýs Þormóð til stafnbúa sér. Konungr mælir ekki því í móti, ef Þormóðr vildi, ok var nú þess leitat við hann ok tók hann því ófljótt heldr, ok kom þar loks, at konungr sjálfr ræðir um við hann ok segir at hann vill at Þormóðr réðist til með Háreki. Þormóðr svarar: „Þat er mér nú skapfeldast, at vera með yðr, herra, ok er mér sjá alls ó-

kunnr, hann Hárekr". Konungr biðr nú Þormóð til ok segir hann hafa nú munu í móti vingan sína, ef hann gerir nú þetta sumarlangt fyrir orð sín. Þormóðr svarar: „Heldr vilda ek nú, herra, með yðr vera, enn þó fyrir því at þér beiðist þessa, þá vil ek eigi þessu afsvör veita með öllu; enn skilja vil ek nökkut í málit. Ef ek ráðumst í þessa ferð með Háreki, þá vil ek ráða hvar í hafnir skal leggja eða brott skal leggja". Konungr játar þessu, ok segir svá vera skulu sem hann beiðir. Ok nú er kemr at þeiri stundu, er þeir Hárekr ok Þormóðr skulu brott fara frá hirðinni, þá koma eigi fram gjafir þær af konungs hendi við Þormóð, sem honum þótti sér heitit hafa verit, og eru þeir konungr nú báðir saman staddir. Þá þykkir Þormóði ráðlegt vera munu, at minna konunginn á með nökkuru móti, ok kvað hann þá vísu þessa:

(37) Loftungu gaftu lengi
látr þats Fáfnir átti
þú lézk mér enn mær̨i
merkr fránöluns vánir
verðr emk varga myrðir
víðlendr frá þér síðan
eða heldr um sjá sjaldan
slíks réttar skalk vétta.

Konungr dregr þegar gullhring af hendi sér, er stóð hálfa mörk, ok gaf Þormóði. „Haf nú mikla þökk fyrir, herra", segir Þormóðr, „enn fyrirkunnið oss eigi várrar framgirni, þótt ek mæla um þetta enn nökkuru framar; þat töluðu þér, herra, at ek skyldi mörk gulls af yðr þiggja í málagjöf". Kon-

ungr svarar: „Þat er satt, skáld, er þú mælir, ok skal þat ok eigi af draga". Tekr konungr nú hring annan ok gefr honum. Ok er hann tók við þessum hringnum, þá kvað hann vísu þessa:

(38) Flest of sér hvé fasta
fagrbúnar hefk túna
báðar hendr ór breiðum
barðs þjóðkonungs garði
eld ák iöfri at gjalda
ungr þeims bregðr hungri
djúps berk gull á greipum
gráðugs ara báðum.

Nú skiljast þeir Knútr konungr.

*Þormóðr drap stafnbúa Óláfs konungs.*

150. Þormóðr ræðst nú til skips með Háreki ok gerðist stafnbúi hans, ok fara þeir um sumarit, ok þykkir Þormóðr vera góðr tiltaks, bæði um orð ok atgöngu, ok líkar þeim við hann einkar vel. Þat er sagt eitthvert sinn at áliðnu sumri, at þeir leggja skip sín í lægi síð um aftan hjá ey nökkurri, ok þat sjá þeir, at renna fram hjá þeim skip nökkur, ok var þat dreki, er fyrst fór ok allveglegt skip. Ok er drekann bar fram hjá skipinu því er Þormóðr var á, þá kallaði maðr af drekanum: „Ór hart ór konungs höfninni", segir sá. Þeir vilja þegar bregða tjöldunum, ok láta ór höfninni, ok er Þormóðr sér þat, þá bað hann hvergi bratt leggja — „ok minnizt nú á", segir hann, „hvat mælt var með oss, at ek skylda slíku ráða". Þeir svöruðu félagar hans, biðja hann eigi verða svá óðan — „ok hefir þú mátt ráða þessu enn hér til fyrir oss,

ok enn kann vera at svá sé". Drekinn brunar nú fram at skipi þeira Þormóðs, ok gengr nær, ok þykkir þeim er á drekanum eru seint við látit at leggja ór höfninni. Þat er sagt, at stafnbúinn á drekanum stendr upp ok bregðr sverði ok höggr til Þormóðs, enn hann lætr eigi á sik halt verða ok höggr í móti til þess mannsins, ok berr svá til, at sá lézt, enn Þormóð sakaði ekki. Ok þegar hleypr Þormóðr af skipi sínu ok upp á drekann, ok hefir skjöldinn fyrir sér, ok aftr eftir skipinu alt til lyftingar. Enn við þetta alt saman varð kall á skipinu ok fréttist nú hvat tíðenda er. Ok er Þormóðr því næst höndlaðr, enn víkingar leggja því næst brott, ok hirða ekki um Þormóð, hvat af honum verðr. Enn drekanum stýrir Óláfr konungr, ok er honum sagt, hvat í hefir gerzt, ok svá at vegandinn er handtekinn. Ok biðr konungr láta drepa hann ok kallar hann þess verðan vera. Ok er Finnr Árnason heyrir þetta er konungr mælti, þá gengr hann til ok vill vita, hverr maðrinn sé, sá er vegit hefir stafnbúann, ok mælti, er þeir fundust: „Fyrir hví vartu svá djarfr maðr, at þú treystir at hlaupa á konungsskipit, slíkt sem þú hafðir áðr unnit". Þormóðr svarar: „Þat kom til þess", segir hann, „at ek hirta ekki um lífit, ef ek kæmumst á vald konungsins". Nú segir Finnr þetta Sigurði byskupi, ok biðr hann veita sér orðafullting við konunginn at biðja manninum friðar ok ræða um með sér, ok sýnist þeim sem honum hafi hvatlega orðit alt jafnsaman, ok biðja þeir nú konung, at hann skuli gefa honum grið ok fara um þat mörgum orðum. Konungr spurði, hví hann

kæmi á hans vald, þar sem hann var áðr á öðru skipi, svá illa sem hann hafði sína sök til búit. Þormóðr heyrði þetta sjálfr ok svarar konungi með vísu þessi:

(39) Hafa þóttumk hœtir
hafs sœkjandi ef tœkir
hreins við haldi mínu
hvert land þegit branda.
Ríkr vilk með þér rækir
randa linns hinn svinni
rönd berum út á andra
eybaugs lifa ok deyja.

„Já", sagði konungr, „auðsætt er þat á þessi tiltekju, at þú hirðir lítt um lífit, ef þú kemr því fram sem þú vildir, enn þat hygg ek, at verir þú þat rúm, er þér er skipat í, eða hvert er nafn þitt?" Þormóðr sagði til sín — „ok em ek fóstbróðir Þorgeirs Hávarssonar". Konungr mælti: „Meiri gæfumaðr skyldir þú vera enn Þorgeirr var, enn hitt er mér sýnt, at þú munt lagiðr til óhappanna, því at mér sýnist þú unglegr, eða hversu mörg hefir þú vígin vegit?" Þormóðr kvað þá vísu:

(40) Sex hefk alls síz óxu
ón hjalta Tý fjónir
— kendr emk við styr stundum —
stálregns boða vegna,
þó emk enn at mun manna
morðs varlega orðinn
vér létum þó þeira
þritögr skarar bíta.

Konungr mælti: „Þörf væri at þú biðir eigi aðra

þrjá tigi vetra, enn þó er skaði at (um) slíka menn, því at þú munt vera skáld mikit". Þormóðr svarar: „Þat mun nú vera mjök á yðru valdi, hversu gamall ek skal verða, enn góðs væntir ek af yðr fyrir sakir þíns vinar, Þorgeirs Hávarssonar, fóstbróður míns; fór ek því ok mest af Íslandi, at ek þóttumst vita, at þú mundir vilja láta hefna hirðmanns þíns ok vinar, Þorgeirs Hávarssonar, enn ek vissa mik skyldastan at hefna hans með yðvarri umsjá". Konungr mælti: „Þiggja muntu höfuð þitt, alls þú ert á minn fund kominn; vil ek at þú leitir fyrir þér, hvárt er þú vill fyrir mér". Þormóðr svarar: „Sú lífgjöf kemr mér fyrir lítit, því at mér er ókunnigt um Noreg, enn ek vil ekki leita til annarra konunga enn þín; nú ger þú annathvárt, tak við mér, eða lát mik drepa ella". Ok nú við árnun byskups ok Finns, ok hins annars, er konungi felst vel í þokka til Þormóðar, þá mælti konungr: „Statt upp, þú Þormóðr, nú muntu verða at gjalda mér til þjónustu sjálfan þik fyrir þann mann minn er þú vátt. Ertu vel til fallinn at fara sendiferðir mínar". Þá kvað Þormóðr vísu:

(41) Þarf sás þér skal hvarfa
þengill fyr kné lengi
— svarar hóglega hverju —
hugborð — konungr orði. —
Fáir erum vér né frýju
frændr órum þó vændir
— minnumk meir á annat
mitt starf — konungdjarfir.

Konungr svarar: „Gaman mun vera at skáldskap þínum, ok eigi ætla ek at þú verðir til lykta ó-

gæfumaðr". Þormóðr var nú með konungi, ok var hann því betr til hans sem hann hafði lengr verit, því at konungi reyndist hann enn röskvasti í öllum mannraunum.

## III.

(Flateyjarbók II, 221—222; sbr. Fóstbrs. 24. kap.).

(164.) Maðr hét Kárr. Hann var verkstjóri Þórdísar. Hann var nú róinn með húskörlum. Hann var ok frændi Böðvars. Nú vinna þeir at fangi sínu og setja upp skip sitt ok búa um. Veðri var þann veg farit, at þoka var ok úrvæta; ganga þeir heim er þeir váru búnir. Þormóðr heyrir, at þeir ræða um, at Böðvarr væri heim kominn. Þormóðr vildi hafa skipit yfir fjörðinn til Víkr. Ok er þeir Kárr váru nær at túngarði komnir, þá mælti Kárr: „Mér hefir eftir legit bolex mín, ok mun ek ganga eftir". Þeir buðu at fara með honum, enn hann vildi þat eigi; ferr nú ofan snúðigt. Þormóðr var þá kominn til skipsins ok hefir þá fram sett. Kárr lítr manninn ok kennir Þormóð; snýr hann heim ok ætlar at segja Böðvari hvat títt er. Þormóðr sér Kár, at hann snýr heim ok vill Þormóðr snúa eftir honum, enn honum var svá stirðr fótrinn, at hann mátti hvergi komast. Hann kastar þá öxinni eftir Kár ok kom á fótinn fyrir neðan knésbótina ok beit ór kálfann ór fætinum. Kárr haltrar heim ok verðr för hans sein. Þormóðr tekr öxi sína ok hleypr á skipit ok rær frá landi ok stefnir til bæjarins í Vík. Þórdís hafði sofit um kveldit ok er hon vaknar varpar hon mæðilega öndinni ok mælti: „Hvárt er Böðvarr heim kominn eða eigi?" Hann

svarar: „Hér em ek, móðir, eða hvat vildir þú nú?“ Hon svarar: „Bíta mætti nú beitfiskr, ef at borði væri dreginn“, segir hon, „því at hér hefir verit Þormóðr skógarmaðr þinn í allan dag í nausti váru, ok hefir hann nú unnit á Kár frænda þínum ok tekit bát þinn ok rær nú yfir á fjörð, ok hygg ek at honum sé verkr í sári því er Ljótr veitti honum. Get ek ok at honum verði eigi greiðfært yfir fjörðinn fyrir þoku sakir. Þætti mér eigi fjarri, at vér færim til fundar við hann“. Böðvarr sprettr þegar upp og mælti: „Búinn em ek þessarrar ferðar“, segir hann. Enn er þau koma út fyrir dyr, þá sjá þau hvar Kárr baltrar ok var hann þá kominn heim at húsunum, enn Þormóð sjá þau hvergi, því at þokan var svá myrk.

IV.

(Flateyjarbók II, 226).

(168). Þaðan af var Þormóðr með Óláfi konungi í miklum kærleikum, því at hann reyndist enn röskvasti í öllum mannraunum. Þormóðr fór í Garða austr með Óláfi konungi ok þoldi með honum alla útlegð; fór aftr með Óláfi konungi til Noregs, því at Þormóði þótti betra at deyja með honum, heldr enn lifa eftir hann dauðan, sem enn mun síðar sagt verða.

V.

(Flateyjarbók II, 342—343).

*Viðrtal konungs ok Þormóðar.*

273. Þá nátt er Óláfr konungr lá í safnaðinum ok áðr er frá sagt, vakti hann löngum ok bað til

guðs fyrir sér ok öðru liði sínu ok sofnaði lítt, ok rann höfgi á hann í mót deginum; enn er hann vaknaði, þá rann dagr. upp. Konungi þótti heldr snemt at vekja herinn. Þá spurði hann, hvárt Þormóðr skáld vekti. Hann var þar nærr ok spurði hvat hann vildi honum. Konungr sagði: „Tel þú oss kvæði nökkut". Þormóðr settist upp ok kvað svá hátt, at mjök svá heyrði um allan herinn, enn hann kvað Bjarkamál en fornu; enn áðr enn hann tók til, spurði Þormóðr, hví Sighvatr skáld skyldi eigi skemta ok launa gullinhjaltan – „er þú konungr gaft honum í jólagjöf í fyrra vetr". Konungr mælti: „Veiztu eigi, at Sighvatr er nú eigi hér. Engi mun oss nú þarfari enn hann, er hann biðr fyrir oss á suðrvegum". Þormóðr svarar: „Þá mun þat nú gera hvárr okkar sem tilfærr er; ek mun drýgja karlmensku ok skemtan í dag, enn hann spilar fingrum sínum at Rómi. Þetta er upphaf at kvæðinu:

Dagr es upp kominn,
dynja hanfjaðrar,
mál es vilmögum
at vinna erfiði;
vaki ok æ vaki
vina höfuð,
allir enir æztu
Aðils of sinnar.

Hárr enn harðgreipi,
Hrolfr skjótandi,
ættgóðir menn,
þeirs ekki flýja;
vekkat yðr at víni,

né at vífs rúnum,
heldr vekk yðr at hörðum
Hildar leiki.

Þá vaknaði lýðrinn. Ok er lokit var kvæðinu, þá þökkuðu menn honum, ok fanst mönnum mikit um ok þótti vel til fundit ok kölluðu húskarla hvöt. Konungr þakkaði honum skemtan sína; síðan tók hann gullhring ok gaf honum. Þormóðr þakkaði honum gjöfina ok mælti: „Góðan eigu vér konunginn, enn vant er at sjá, hversu langlífr verðr, enn sú er bæn mín, konungr, at þér látið okkr hvárki skilja lífs né dauða, því at ek vilda fara til einnar gistingar ok þér í kveld“. „Þat skal ok vera“, kvað konungr, „ef vit förum báðir lífs af Stiklastöðum“. „Ekki þykkir mér þá jafnmikit á liggja“, kvað Þormóðr, „enn hitt er satt, at ek vil ekki lifa eftir þik, því at ek hefir rannsakat ráð mitt ok sýnist mér svá, at síðan er ek var sjau vetrum ellri, hafi sá einn hlutr verit mér til hjálpar framleiðis, er ek hefi fylgt þér ok þínu föruneyti, ok þykkjumst ek þat ekki með ódygð gert hafa“. „Veit ek at þú munt ekki hirða at lifa eftir mik“, kvað konungr, „enn eigi veit ek, hvárt við erum jafnbúnir til at fara til einnar gistingar, eða hversu gamall maðr ertu, eða hversu marga menn hefir þú drepit í einvígi?“ Þormóðr svarar: „Ek em nú nökkuru meir enn hálffertugr, enn mér þykkir ván, at ek muna fjórtán mönnum hafa at bana orðit“. „Ekki þykkir mér þú mjök gamall“, kvað konungr, „enn þó mun ek því heita þér, at þú komir til nökkurrar hvíldar eftir sjaund þína ok munt þú eigi mega minna við koma, enn dægr komi fyrir

hvern mann er þú hefir vegit". „Hins beidda ek þik, herra, at skilja aldri við yðr". Konungr svarar: „Allir munu vér ok saman fara, ef ek má ráða, meðan þér vilið eigi við mik skiljast". Þá mælti Þormóðr: „Þess vænti ek, herra, hvárt sem friðr er verri eða betri, at ek sé nær yðr staddr, meðan ek á þess kost, hvárir sem sigr kunna at hafa". Síðan kvað Þormóðr vísu:

Þér munk eðr unz öðrum

(sbr. Fóstbræðra s. 24. kap.)

VI.

(Flateyjarbók II, 358).

(288). Þat hafa menn ok sagt, at Þormóðr kolbrúnarskáld var þann dag í kyrtli rauðum, er hann bjóst til bardaga, ok drap upp blöðunum fyrir, enn kyrtillinn var siðr mjök á bakið. Einn hirðmaðr spurði, hví hann byggist svá. Þormóðr svarar: „Því at ek ætla mér lengrum áfram enn á bak aftr". Hann var gyrðr sverði því er Óláfr konungr gaf honum. Hann hafði öxi sína í hendi, enn enga hlíf. Konungr spurði Þormóð, hví hann byggist eigi til bardaga sem aðrir menn ok hefði enga hlíf — „eða ætlar þú at bændr munu eigi kunna at berjast?" Þormóðr svarar: „Þat skulu búkarlar finna í dag, at öx mín skal mér bæði skjöldr ok brynja". Þat hafa menn at minnum haft ok ágætum, hversu rösklega Þormóðr barðist um daginn, því at hann hjó tveim höndum með öxi sinni hinn fyrra bardagann, enn með sverðinu alla Dagshríð, því at þá gekk öxin af skaftinu. Fellu

margir menn fyrir honum, svá at seint er þeira nöfn at skrá.

## VII.

(Flateyjarbók II, 359).

(289). Þá var Þormóðr kolbrúnarskáld ekki mjök sárr, enn óvígr sakir mæði, ok vildi hann þó standa hjá sveitungum sínum. Eigi var hann því ekki sárr, eða lítt, at hann hafði sér hlíft meir enn aðrir menn, heldr hitt, at mönnum þótti annarsstaðar auðveldara til at sækja enn þar sem hann var. Einn maðr spurði Þormóð: „Sáttu nökkut skjöld minn, er ek kastaða áðan?" „Hvat skal þér rögum skjöldr?" kvað Þormóðr; „geta munda ek mér slíkan skjöld ef ek vilda, enn eigi gjafvin þann er ek hefi mist".

## VIII.

(Flateyjarbók II, 360—361).

*Viðrtal þeira Þormóðs ok Dags.*

291. Svá er sagt, þá er lokit var bardaganum, at Þormóðr gekk þar at er Dagr ok hans menn höfðu staðar numit eftir bardagann, því at þá var eigi vígljóst fyrir nætr sakir. Bændr sátu um þá Dag, at þeir skyldu eigi á burt komast um nóttina, ok ætluðu þeir þegar at þeim at ganga, er lýst var orðit. Dagr mælti: „Er nökkur sá maðr í mínu liði, er ráð kunni til þess at leggja, at vér komimst á burt, svá at bændr eigi engan kost á oss, því at ek veit at þeir munu þegar at oss eggja, ef vér bíðum hér?" Engi maðr veitti svör

máli hans, ok er Þormóðr sá at engi fengust ráð af þeira hendi, þá mælti hann: „Hví munu eigi finnast ráð til þess?“ segir hann. Dagr spurði: „Hverr er sá maðr, er svá talar um hreystilega?“ Hann svarar: „Sjá heitir Þormóðr“. Dagr mælti: „Ertu Þormóðr kolbrúnarskáld?“ „Sjá maðr enn sami“, segir Þormóðr. Dagr mælti: „Hvat ráð er þat at þú sér til þess at vér komimst í brott með lið várt?“ Þormóðr svarar: „Þér skuluð fella mörkina, ok gera elda stóra af hrísinu, enn færa stofna sem flesta fram at eldinum, ok skulu fjórir menn vera við hvern eld, enn þrír menn skulu ganga um eldana jafnan, enn einn skal kynda hvern eld. Enn þá er þér hafið svá gert nökkura hríð, þá slökkvi þér alla senn eldana, ok farið þá leið ytra ok gefið hvárki stað í dag né á morgin, enn bændum mun þykkja sem kominn sé at múgr manns, er þeir sjá kvikt alt við eldana, enn er mornar, þá munu þeir sjá þetta ráð, ok er mér þá ván at þeir fari eftir yðr, enn þó mun þá svá mikill verða yðvarr misfari, at mik væntir at ekki saki til“. Dagr mælti: „Ertu nökkut sárr, Þormóðr?“ Hann svarar: „Fjarri ferr þat“. Dagr mælti: „Farðu þá austr í Svíþjóð með mér, ok mun ek þá gera vel til þín, enn þú átt hér nú einkis góðs at bíða“. Þormóðr svarar: „Ekki mun þess auðit verða, at ek þjóna öðrum konungi er Óláfr konungr er fallinn. Snýr Þormóðr þá í brott, enn þeir Dagr höfðu þetta ráð ok komast við þat undan. Bændr þeir er heima áttu í Veradal gengu til höfðingjanna Háreks í Þjóttu og Þóris hunds ok kærðu fyrir þeim sín vandræði ok sögðu svá:

„Flóttamenn þessir, er hér hafa undan komist, munu fara upp um Veradal ok munu búa óþarflega at heimilum várum, enn oss er ekki fært heim meðan þeir eru þar. Nú gerit svá vel, farit eftir þeim, ok látit ekki mannsbarn í brott komast, því at slíkan kost mundu þeir oss ætla, ef þeir hefðu betr haft af várum fundi, ok svá munu þér enn gera, ef vér hittumst síðar svá, at þeir hafi meira kost. Enn vera kann at þeim dvelist í dölunum. Ef þeir vita sér einskis ótta vánir, munu þeir fara óspaklega um bygðir várar. Ræddu bændr um þetta mörgum orðum með ákafa miklum, at höfðingjar skyldi fara ok drepa þat fólk alt, er undan hafði komist, ok er höfðingjar töluðu þetta sín á milli, þá þótti þeim bændr mart hafa sagt satt í sínu tali. Réðu þá þat, at Þórir hundr réðst til ferðar með Verdælum ok hafði sex hundruð manna, þat er lið hans var; fóru síðan. Tók þá at nátta. Létti Þórir eigi fyrr ferð sinni enn hann kom um nóttina upp á Súlu, ok spurði þar þau tíðendi, at um kveldit hafði þar komit Hringr Dagsson ok margar aðrar sveitir af Óláfs mönnum; hafa þeir þar haft náttverðar dvöl, enn farit síðan á fjöll upp. Þá segir Þórir, at hann mun ekki elta þá um fjöll, ok sneri hann þá ofan í dalinn ok fengu mart annarra manna drepit. Síðan fóru Þrændr til heimila sinna, enn Þórir fór eftir um daginn til skipa sinna, enn konungsmenn þeir er sárir váru forðuðu sér, leyndust í skógum, enn sumir fengu sér hjálp af mönnum.

## IX.

(Flateyjarbók II, 363—366).

*Dauði Þormóðar kolbrúnarskálds.*

293. Þormóðr gengr þá heim til húsanna ok at einni bygghlöðu, er menn Óláfs konungs höfðu inn verit færðir þeir er sárir váru. Þormóðr hafði bert sverð í hendi, ok er hann gekk inn, þá kom maðr í mót honum. Þormóðr spurði hann at nafni, enn hann kveðst Kimbi heita. Þormóðr spurði: „Vartu í bardaganum?“ „Var ek“, segir hann, „með bændum, er betr var“. „Ertu nökkut sárr?“ segir Þormóðr. „Lítt“, segir Kimbi, „eða hvárt vartu nökkut í bardaganum?“ Þormóðr svarar: „Var ek með þeim er betr höfðu“. Kimbi sá at Þormóðr hafði gullhring á hendi. Hann mælti: „Þú munt vera konungsmaðr; fá þú mér gullhringinn, enn ek mun leyna þér. Bændr munu launa þér óspekt, ef þú verðr á vegi þeira, eða ertu nökkut sárr?“ Þormóðr svarar: „Ekki em ek sárr, svá at lækningar þurfi, enda hafðu hringinn ef þú vill; látit hefi ek nú meira, því at mér tekr nú at þykkja minna gaman at gulli enn var. Kimbi rétti fram höndina ok vildi taka hringinn. Þormóðr sveiflaði til sverðinu ok hjó af Kimba höndina ok kvað hann eigi þeiri mundu stela síðan. Kimbi þoldi illa. Þormóðr kvað hann reyna skyldu, hversu sárin væri at þola. Síðan fór Kimbi í brott, enn Þormóðr stóð eftir. Þá hleypr maðr innan ór hlöðunni ok sækir viðarfang. Kona ein vermdi vatn í katli til þess at fægja sár manna. Þormóðr gekk at einum vandbálk ok studdist þar við. Þá

mælti konan við Þormóð: „Hvat manna ertu, hvárt ertu konungsmaðr, eða ertu af bóndaliði?“ Þormóðr svarar ok kvað vísu:

Á sér at vér várum
(sbr. Fóstbr. s. 24. kap.).

Konan mælti: „Hví lætur þú eigi binda sár þín, ef þú ert mjök sárr?“ Þormóðr svarar: „Þau ein hefi ek sár, at ekki þarf at binda“. Konan mælti: „Þú munt þat kunna at segja mér, er vér höfum lengi um rætt í kveld, hverr bezt hefir fram gengit í bardaganum eða minst hlíft sér?“ Þormóðr kvað þá vísu:

Ört vas Áleifs hjarta
(sbr. Fóstbr. s. 24. kap.).

Bóndi einn kom þá í kornhlöðuna, er þau töluðu þetta; hann fór at forvitnast, hvat títt væri um konungsmennina. Þar váru margir menn mjök sárir, ok lét hátt í holsárum manna, eða höfuðsárum, sem náttúra er til stórsára. Bóndi nam staðar í hlöðunni ok hlýddist þaðan um, ok er hann heyrði, at hátt lét í holsárum manna, þá mælti hann: „Þat er ván, at konunginum hafi lítt gengit bardaginn við bændr, svá þróttlaust lið sem þetta er, at honum hefir fylgt, því at mér þykkir svá mega at, at þeir þoli eigi óæpandi sár sín, ok eru þetta fýlur, enn ekki dugandi menn“. Þormóðr svarar: „Sýnist þér svá, félagi, sem þeir sé eigi þróttmiklir er hér eru inni?“ „Já“, segir hann, „svá sýnist mér, sem hér sé flestir menn of þreklausastir saman komnir“. Þormóðr svarar: „Vera kann þat, at nökkur sé sá hér inni, at eigi sé

þrekmikill, ef til er reynt, ok eigi mun þér mitt sár mikit þykkja, þótt þú hyggir at því". Bóndi svarar: „Ek ætla þá væri betr, at þú hefðir bæði mörg ok stór". Snýr bóndi þá utar eftir hlöðunni, ok ætlaði út at ganga. Í því höggr Þormóðr eftir honum. Þat högg kom á bakit, ok hjó hann af honum báða þjóhnappana. „Styn þú eigi nú", kvað Þormóðr. Bóndi kvað við hátt með miklum skræk, ok þreif til þjóhnappanna báðum höndum. Þormóðr mælti: „Þat vissa ek, at vera mundi hér inni nökkurr maðr, sá er eigi mundi þróttigr reynast; er þér illa saman farit, er þú finnr at þrek(i) annarra manna, þar er þú ert þróttlauss sjálfur. Eru hér margir menn mjök sárir, ok vælar engi þeira, enn þú bræktir sem geit blæsma ok veinar sem merr, þó at þú hafir eina vöðvaskeinu litla".

294. Eftir þenna atburð kom í hlöðuna kona með mjólkurskjólur tvær, sú er færa ætlaði drykk sárum mönnum. Hon mælti við Þormóð: „Hverr er þessi maðr, er hér stendr við bálkinn?" Hann svarar: „Þormóðr heiti ek". Hon mælti: „Hefir þú nökkut verit við bardagann í dag?" Þormóðr svarar: „Þat vilda ek ætla, at þat skyldi nökkurir bændr eiga at segja heim konum sínum í kveld, at Þormóðr kolbrúnarskáld hafi komit til bardagans í dag, enn þó vilnumst ek hins, at nökkurir megi ekki frá segja". Konan mælti: „Hverir gengu bezt fram með konunginum?" Þormóðr kvað vísu:

Haraldr sák at vel varðisk

(sbr. Fóstbr. s. 24. kap.).

Konan mælti: „Þú munt vera sárr mjök, eða viltu drekka mjólk? Þat er sárum mönnum gott til styrktar“. Þormóðr svarar: „Eigi þarf ek mjólk at drekka; því at ek er nú svá fölr sem ek hafa nýsopit skyr út á Íslandi, enn ek er þó lítt sárr“. Konan mælti: „Hví ertu svá litlauss, ef þú ert sárr þó lítt“. Þormóðr kvað þá vísu:

**Undrask öglis landa**
**eik hví vér 'rom bleikir?**
**Fár verðr fagr af sárum,**
**fannk örva drif, svanni.**
**Mik fló malmr enn dökkvi**
**magni keyrðr í gagnum;**
**hvast beit hjartat næsta**
**hættlegt járn es vættik.**

Konan mælti: „Þat þóttumst ek sjá á þér, at þú mundir mjök sárr, er þú varst svá litlauss, ok láttu binda sár þín sem aðrir menn, ok lát mik sjá“. Síðan settist hann niðr ok kastaði klæðum af sér, enn er læknir sá sár hans, þat er hann hafði á síðunni — hon kendi þess, at þar stóð ör í, enn þat vissi hon eigi víst, hvárt járnit hafði snúit. Hon hafði þar gert í steinkatli af lauk ok önnur grös ok velt þat saman, ok gaf at eta þeim hinum sárum mönnum, ok reyndi svá, hvárt þeir höfðu holsár, því at þá kendi af laukinum ór sárinu. Hon bar þat at Þormóði ok bað hann eta. Hann svarar: „Ber í brott; ekki hefi ek grassótt“. Síðan tók hon spennitöng ok vildi draga út járnit, enn þat var fast ok gekk hvergi. Stóð ok lítit út, því at sárit var sollit. Þá mælti Þormóðr: „Sker þú til járnsins, svá at vel megi ná með tönginni; fá mér síðan ok lát mik

kippa". Hon gerði svá. Þá tók Þormóðr gullhring af hendi sér ok gaf lækninum; bað hana slíkt af gera sem hon vildi, — „enn góðr er nautrinn", segir hann, „Óláfr konungr gaf mér hring þennan í morgin". Síðan tók Þormóðr töngina ok kipti á burt örinni, enn á örinni váru krókar ok lágu þar á tágar af hjartanu, sumar rauðar, enn sumar hvítar, gular og grænar. Ok er þat sá Þormóðr, þá mælti hann: „Vel hefir konungrinn alit oss, hvítt er þessum karli um hjartarætr". Þá kvað Þormóðr vísu:

Emkak rauðr enn rjóðum
(sbr. Fóstbr. s. 24 kap.).

Ok er hann hafði þetta kveðit, þá andaðist hann standandi við bálkinn, ok fell eigi fyrr til jarðar enn hann var dauðr. Haraldr konungr Sigurðarson fyldi vísuna, er Þormóðr hafði ort. „Dagshríðar spor svíða", sagði hann, „svá mundi skáldit vilja kveðit hafa". Nú lýkr þar ævi Þormóðar með þessum atburðum, sem nú váru sagðir.



## Vísnaskýringar.

1 (Grettir Ásmundarson). Þessi vísa þarf ekki skýringar við.

2 (Þormóðr kolbrúnarskáld). Starf hófsk upp þás auðveitir[1] lét arfa Klœings falla; hestrennir hlunna[2] vas hugsnjallr. Hafstóðs Móði[3] tók efnd Hávars hefndar þá es (hann) vas fimtaan vetra. Hann *bar hveti*[4] at vinna höpp.

1. *auðveitir*, mannkenning. — 2. *hlunna hestr*, skip, *hestrennir hlunna*, mannkenning. — 3. *hafstóð*, skip (í flt.); skipa-*Móði*, mannkenning. — 4. *bar hveti* (hvatleik) er tg. dr. Jóns Þorkelssonar.

Þorgeirr hóf verk sitt, þegar hann feldi son Klæings; hann var hugaðr maðr. Hann efndi það, að hefna Hávars, þegar hann var fimtán vetra. Hann var skjótr að vinna happaverk.

3 (Þormóðr kolbrúnarskáld). Ek kveð vald alföðurs tjalda[1] ollu aldrspelli Ingolfssonar; þingat[2] es frétt víg, sem vættik. Þorbrandr fell fyr fræknum stilli drasils vandar;[3] þat vas fjörtjón ljóna;[4] lítt vas þar til þrætu.

1. *alföðurs* (Óðins) *tjöld*, skildir? *valdr alföðurs tjalda*, mannkenning. — 2. *þingat* = þangat. — 3. *drasill* =

drösull, hestr; drasils *vöndr*, sverð eða keyri; *stillir drasils vandar*, mannkenning. — 4. *ljónar*, menn.

Eg segi, að Þorgeirr varð Ingólfssyni að bana; vígið er frétt þangað sem eg vænti. Þorbrandr fell fyrir Þorgeiri; þat var mannskaði; enn lítið efni til ófriðar.

4 (**Þorgeirr Hávarsson**). Vel dugir at telja fyr seggjum frá gunni *víg*[1] Butralda, — oft flýgr geirr; vápna hreggs *gjóðr*[2] hljóða*r*[3] — þót þjóðir kunni fetils stíga margrjóðanda[4] mun minni þakkar þess vígs. Nék hnekkik því.

1. *víg*, tilgáta f. *verk*. — 2. *gjóðr*, tilg. f. *gjóð*, hræfugl. — 3. *hljóðar*, tg. f. *hljóða*. — 4. *fetils stígr*, sverð; *margrjóðandi* sverðs, bardagamaðr.

Vel má segja mönnum frá bardaganum víg Butralda, — oft fljúga spjót; hræfugl gargar — þót menn kunni Þorgeiri mun minni þakkir fyrir það víg. Eg ber ekki á móti því.

5 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Öld hefr frétt at vit áttum saman gnóga rógsmenn. Ek naut ráða undlinns rjóðanda.[1] Enn (ek) vil einskis minnask nema okkars góða. Ek gat raun fyrða[2] fjóna[3] við flóðs œsi-dýrs stýri.[4]

1. *undlinnr*, sverð; sverðs *rjóðandi*, maðr. — 2. *fyrðar*, menn. — 3. *fjón*, hatr. — 4. *flóðs œsi-dýr*, skip, skipstýrir, maðr.

Mönnum er orðið það kunnugt, að við áttum nóga rógsmenn. Eg naut ráða hans. Enn eg vil einskis minnast nema þess góða sem okkar fór á milli. Eg reyndi hatrsfullan rógburð manna milli okkar.

**6 (Þormóðr kolbrúnarskáld).** Höldr lét Más syni goldit kapp — sverða hríð gerðisk þá; hrafn gat at líta hrátt hold —. Enn vágs viggriðandi[1] vas síðan at vígi Skúfs ok Bjarna — hann bar gjarna greipr at gunni.[2]

1. *vágs viggr*, vogs hestr, skip; *vágs viggs ríðandi*, maðr. — 2. *gunnr*, orrusta.

Þorgeirr galt Mássyni kapp sitt, — þá varð bardagi og hrafnar fengu hræ að eta —. Enn hann var síðan að vígi Skúfs og Bjarna. Hann var fús til bardaga.

**7 (Þormóðr kolbrúnarskáld).** Gunnar sviprunnr[1] lét sævar Faxa[2] sex sinnum búinn heðan; undlinns þollr vas örr at öllu. Sœkir seims[3] réð sjároknum knerri í haf. Frá ek þat; auðar skiftir[4] vann oft erring[5] heima.

1. *gunnar sviprunnr*, mannkenning. — 2. *sœvar Faxi*, sævar hestr, skip. — 3. *sœkir seims*, maðr. — 4. *auðarskiftir*, maðr. — 5. *erring*, kvk., bardagi.

Þorgeirr lét skip búið sex sinnum heðan af landi; hann var höfðinglegr í öllu. Hann réð særoknu skipi í haf; eg hefi frétt af því; hann átti oft í bardögum heima.

**8 (Þormóðr kolbrúnarskáld).** Ek ber á hendi mikla flugu[1] hrundar; — hjaldr[2] söng; urpum þá skjaldi siklings;[3] höfum fengit of sár — nærgi[4] es hlunns hrafns umnýsandi[5] má hefna ossa[6] sára glapvígum árkyndils runni.[7]

1. *fluga*, (hér) sár. — 2. *hjaldr*, bardagi. — 3. *siklingr*, konungr. — 4. *nærgi es*, nær sem. — 5. *hlunns hrafn*, skip; skips *umnýsandi*, maðr. — 6. *ossa*, vorra. — 7. *árkyndill*, gull; gulls *runnr*, mannkenning.

Eg ber á hendi sár af konu völdum; eg átti í bar-

daga; hafði skjöld konungs(naut); fekk sár, hvenær sem eg get hefnt þess á hinum illvíga manni.

9 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Ey réðk því illa, es gafk meyju kolbrúnarvísur; mér bar Draupnis dís[1] dóm í drauma. Þá tókk á mér þetta víti; en prúða „freyju" þrúðr[2] kann mart; líknumk heldr við hvítings Hildi.

1. *Draupnir*, hringr; *Draupnis dís*, kona. — 2. *„freyju" þrúðr* er eitthvað afbökuð kvenkenning. — 3. *hvítingr*, horn; *hvítings Hildr*, kona.

Það var ætíð illa gert af mér, að eg gaf Þórdísi allar kolbrúnarvísur; hún færði mér dóm sinn í draumi. Þá fekk eg þessa refsingu; hún kann margt; eg verð heldr að sættast við hana.

10 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Sverðrjóðr,[1] hinn es rækði heiftir manna ok gerði styr, braut snart hús til Snorra Hœkils sonar. Þorgeirr, eggjaðr á meiri hvöt, varð þar bani þriggja manna; hefk sannspurt frá sœki síks leygs.[2]

1. *sverðrjóðr*, mannkenning. — 2. *síks leygr*, gull; *sœkir*, mannkenning.

Bardagamaðrinn, sem refsaði heiftum manna og barðist, braut rösklega hús á Snorra Hœkilssyni. Þar varð Þorgeirr, hvattr til meira hreystiverks, þriggja manna bani; eg hefi sannspurt það frá honum.

11 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Mank þegn, hlýra hrafns ár,[1] þarfan Hávars arfa, hins happauðigr réð Þóri dauða með geiri. Dýrr hlýra jóstýrandi[2] hefndi svá sára Odds ok ernir söddusk; alt slíkt fór af ríki.

1. *hlýra hrafn*, skip; skips *árr*, maðr. — 2. *hlýra jór*, skip; skip*stýrandi*, maðr.

Eg man skipstjórann, hinn duglega son Hávars, sem sigrauðugr vann á Þóri með spjóti. Hann hefndi svo Odds og saddi ernina. Það fór alt rösklega.

12 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Hjörgaldrs Njörðr[1] gekk skeljeggr[2] á skorðu skæ,[3] at vildi herja með Rögnvaldi; teljum enn þann hjaldr. Lítt sparði fremdar mildr arfi Hávars fjör djarfra fyrða at hildi; dáð drengs varð at lengri.

1. *hjörgaldrs Njörðr*, maðr. — 2. *skeljeggr*, með skelþunnar eggjar, bitrt sverð. — 3. *skorðu skær*, hestr.

Þorgeirr gekk á skip með bitru sverði til að berjast með Rögnvaldi. Hann sparði ekki líf hraustra manna í bardaganum. Því meiri varð frægð hans.

13 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Veitk at höldr, snarfengr við harðar deildir með lið drengja, nam hjördjarfan Gaut, son Sleitu, fjörvi. Eigi ófeigum varð launat stynfullu í malmagný; oft verðr raun rík, þeim es rœkir almþing.[2]

1. *stynfult*, fult af stunum; honum var launað með kvölum. — *almþing*, bogaþing, bardagi.

Eg veit, að hinn hrausti bardagamaðr vó Gaut Sleitu son. Honum, sem var feigr, var launað með dauðastríði í bardaganum. Þeir komast oft í harða raun, sem eru í bardögum.

14 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Þorgeirr réð því næst æsta golls þolla[1] griða, es hann svinngeðr sáat sér fœri við minna lið; enn snjalli seggr tók mönnum öll

fullmæli friðar sönn, þás fljóts leygs fergir[2] réð tæla nýtan.

1. *golls þollr*, mannkenning. — 2. *fljóts leygr* (eldr), gull; gulls *fergir*, mannkenning.

Þorgeirr bað því næst mennina um frið, er hann, jafnhygginn maðr, sá ekki fært að berjast við þá við minna lið. Hann tók öll friðarmálin sönn, þegar maðrinn (Þórarinn ofsi) tældi hann.

**15 (Þormóðr kolbrúnarskáld).** Stirðr strenghreins árr[1] réð at varða stafn fjórum tögum drengja, þvít auðstjóri[2] vas heitinn þrekitr,[3] áðr sigreynir[4] fell út á sínum knerri við lítla erring;[5] meðr hlutu sár at hváru.

1. *strenghreinn*, skip; skips-*árr*, maðr. — 2. *auðstjóri*, mannkenning. — 3. *þrekitr*, frægr at afli, hreysti. — 4. *sig*, bardagi; bardaga *reynir*, bardagaviðr, maðr. — 5. *erring*, bardagi.

Hinn staðfasti sæfari varði stafn fyrir fjórum tugum manna, því að hann var kallaðr frægr að hreysti, áðr enn hann fell úti á skipi sínu í miklum bardaga. Mótstöðumenn hans fengu samt sár.

**16 (Þormóðr kolbrúnarskáld).** Dýrr folk-fjörs-beitir[1] hefr kent, hvé skal veita frændum, þót væri dylgjusamt at fylgja drengi. Frák Þorgeir eiga hug þann es við mun brugðit; þau orð eru komin norðan frá hreyti þægs handargrjóts.[2]

1. *folk-fjörs-beitir*, sá sem beitir veiðir fjör manna, mannkenning. — 2. *handargrjót*, gull; gulls *hreytir*, mannkenning.

Hinn frægi bardagamaðr hefir sýnt, hvernig menn eiga að veita vinum sínum og frændum, þótt hættusamt væri

að fylgja honum. Mér var kunnugt, að Þorgeirr var svo hugaðr, að því mun lengi við brugðið. Sá orðrómr hefir komið af honum að norðan (frá bardaganum í Hraunhöfn).

Dr. *Jón Þorkelsson*, fyrrv. rektor, tekr saman:

Dýrr *fjorr* hefir kent hvé beita skal frændum *folkhneiti*.

*Folkhneitir* er sverðsheiti.

Þessi skýring er líklegri, því *fjörsfolkbeitir* er ólíkleg kenning.

17 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Frák aldrigi verða hræva lœkja hauks bræði[1] harðræðis þrot sennu[2] við sverðs sviprunna.[3] Már hét maðr ok Þórir, es málsnjallr Þorgeirr lét þá falla; frágum eirum[4] þeira lokit ár.[5]

1. *hræva lækir*, blóð; blóðs *haukr*, hrafn; hrafns *bræðir* (af b r á ð), sá sem veitir hrafninum bráð, bardagamaðr. — 2. *senna*, bardagi. — 3. *sverðs sviprunnr*, mannkenning. — 4. *eir*, friðr. — 5. *ár* = fyrri, snemma.

Mér er sagt, að hann skorti aldrei hreysti í bardaga við óvini sína. Már og Þórir hétu menn, sem Þorgeirr feldi þá. Friðinum var snemma lokið þeirra á milli.

18 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Hjarar fjorr[1] olli dauða þrettan seggja áðr felli; sá enn ríki reggs rœkjandi[2] vas flugtrauðr. Þar lætk hjaldrs víga tal hins, es gat vinna þrek lúkask fyr höldum; mín mjúk mál tea at deilask.

1. *hjarar fjorr*, sverðs viðr, maðr. — 2. *reggs rækjandi*, sá sem rœkir skip, sæfari.

Hann vann á þrettán mönnum áðr hann fell; hann

var ófús til að flýja. Þar læt eg lúkast víga tal hreystimanns. Orð mín víkja nú að öðru.(?)

19 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Sá es skal lengi hvarfa fyr kné þér, þengill, þarf hugborð;[1] svarar, konungr, hóglega hverju orði. Fáir erum vér frændr konungdjarfir; órum þó né vændir frýju;[2] minnumk meir á annat mitt starf.

1. *hugborð*, hugrekki. — 2. *vændir frýju*, = vændir hugleysis.

Sá sem er lengi með þér, konungr, þarf að hafa hug til að bera, og (þó) svarar þú kurteislega hverju orði. Fáir af frændum mínum eru „konungdjarfir", og þó hefir oss aldrei verið brugðið um hugleysi. Eg tala fremr um annað starf, sem mér er fyrir höndum.

20 (**Hávamál**). Þarf engrar skýringar við.

21 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Skjalda Baldr[1] lézk betr kunna beita skutli enn vér; hœlir því; hlunnjós þollr[2] hleypr hart of hellur. Görr mank hitt, hveim hugdyrstr harri skipar fyrstum í skjaldborgu. Sá veitti oss ormstorg,[3] es átti.

1. *skjalda-Baldr*, mannkenning. — 2. *hlunnjós þollr*, mannkenning. — 3. *ormstorg*, gull.

Maðrinn lést betr kunna að beita skutli enn vér; hælir því; hann hleypr hart á grjótinu. Gerla man eg hverjum hinn hrausti konungr skipar fyrstum í skjaldborg. Sá veitti oss gullið, sem átti það.

22 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Öll fremð es of fallin greppi í strá, — fjörneppr[1] trezk undir örvendi,[2]

finnumk oft minni þess — ef hefk höggvit vart í svarta skör nættings hreggboða,[3] þvít vættik bana nadda borðs Nirði.[4]

1. *fjörneppr*, sá sem er feigr. — 2. *örvendi*, þáguf. af örvhönd? — 3. *nættingr*, sverð; *nættings hregg*, bardagi; bardaga *boði*, maðr. — 4. *nadda borð*, skjöldr; skjaldar *Njörðr*, mannkenning.

Öll fremd skáldsins er fallin í strá — hinn feigi maðr treðst undir örvendum? manni — ef eg hefi óvasklega höggvið í hið svarta höfuð bardagamannsins, því eg vænti þess að hann deyi.

23 (Þormóðr kolbrúnarskáld). Undr es, hví stáls élbörvar[1] kendu mik eigi görva á máli ok et svarta skoft[2] — hefk mart mark —; burgumk,[3] þvít langs þremja svells drífu Tý[4] vas skapat lengra líf, enn aldrtili[5] þeim seima þolli.

1. *stáls élbörvar*, menn. — 2. *skoft*, hár. — 3. *burgumk* = eg bjargaðist. — 4. *þremja svell*, sverð; sverðs *Týr*, mannkenning. — 5. *aldrtili*, dauði.

Furða er, að mennirnir þektu mig ekki gerla á málinu og svarta hárinu — eg hefi mörg einkenni —; eg barg mér, því mér var skapað lengra líf, enn honum dauði.

24 (Þormóðr kolbrúnarskáld). Þarflyndr[1] höldr strengði þess heit á þingi, ef (hann) fyndi mik, at höggva skyldi lofgerðar veiti. Ek stóð nær randa rýri;[3] rekkr lézka[4] mik þekkja; gotts þat Huldar hetti hefr faldit[5] smiðr stefja.

1. *þarflyndr*, hraustr(?) — 2. *lofgerðar veitir*, skáld. — 3. *randa rýrir*, mannkenning. — 4. *lézka* = lézt eigi

(fyrir *lézk ei* í útgáfum, sem eigi getr staðizt). — 5. *faldit* (eflaust rétt f. *haldit*, sem í útgáfum stendr) *Huldar hetti*, verið ósýnilegr.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

25 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). **Matkak hefnð hrings setrs Baldrs við marga, enn fekk hrafni bráð varga á þingi; létk valdit vígi.**

Síðari hlutr vísu þessarar er svo aflagaðr, að örðugt er að lagfæra hann.

Eg vildi eigi láta marga um það, að hefna Þorgeirs, enn eg gaf hrafninum bráð úlfsins; eg vann víg. Nú geta fleiri vinir Þorgeirs hefnt hans o. s. frv.

26 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). **Skoftak[1] enn uppi á sundi, þás heimskr hrókr — hans razaklof gandi[2] undarlegt — dó við klœki; leit alla goðfjón[3] á hugar gleggum[4] eggveðrs Ulli[5]; gaurr setti sjónir við mér ok glotti.**

1. *skofta*, hvílast eftir vinnu (á norsku ‚skofta'). — 2. *gandi* = gapti. — 3. *goðfjón*, guðshatr, guðleysi. — 4. *hugargleggr*, spar á hug, blauðr. — 5. *eggveðrs Ullr*, mannkenning.

Ég hvíldi mig enn á sjónum, er hinn heimski hrókr dó með skömm; hann glenti ámátlega út klofið; ég sá alt guðleysi á hinum huglausa manni; hann horfði á mig og glotti.

27 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). **Ér fenguð, mæringr, Grími fleira fé ok mér miklu færa enn þörf væri — flím es oft kveðit — hann hefr unnit hunds verk — hvinn gerir at vinna slíkt — enn ek bættak mensku mína ok þína, mætr gramr.**

Þú konungr hefir fengið Grími meira fé og mér miklu minna enn vera átti — það er oft talað illa um hann — hann hefir unnið hundsverk — slíkt gera að eins fantar — enn eg hefi aukið virðingu okkar beggja, mína og þína, með hefndinni, mætr konungr.

28 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Oddahríðar þollr[1] vá Þorgrím trolla — þar laut harðr til jarðar — áðr réðk ótrauðr Loðins dauða. Þar namk Þorkel fjörvi, Þorðr lét önd enn fjorði, feldr vas Falgeirr, frægr skörungr þeira til moldar.

1. *oddahríðar þollr*, maðr (Þormóðr sjálfr). Þess vegna á að lesa *vá* (ekki *vák).*

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

29 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Hefk brendan Grœnlendingum illan díla; vannk Ekkils éls gervi-draugum[1], þeim[2]s sekðu mik, geig; sá (díli) munat[3] verða hóggrœddr[4] á hryggjar tanga[5] sverðéls-frömum hrings sœkitívum[6], nema lógi mér.

1. *Ekkill*, sækonungr; *Ekkils él*, bardagi, bardaga gervi-*draugur* (tré) menn. — 2. *þeim's* (leiðr. f. *þeir's*). — 3. *munat* = mun eigi. — 4. *hóg-grœddr*, hæglega græddr. 5. *hryggjar tangi*, hrygglengja. — 6. *hrings sœkitívar*, menn.

Eg hefi brent á Grænlendingum illan blett; eg hefi gert þeim mikinn skaða, sem gerðu mig sekan. Sá blettur, það sár mun ekki verða grætt á hrygglengju þeirra, nema þeir bani mér.

30 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Brennum öll inni[1] fyr innan Hverbjörg, þaus vér finnum; hérr tegask[2] verja

land hjörvi fyr gram. Innþrœndir taki kǫld kol allra sinna húsa; ýs angr[3] mun kveykt í klungri[4], ef ek má valda.

1. *inni*, hús. — 2. *tegask* = býst til. — 3. *ýr*, trjátegund; *ýs angr*, eldr. — 4. *klungr*, (hér) eldsneyti.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

31 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Örstiklandi[1], þryngr at miklu Ála éli[2]; skalmöld[3] vex nú; höldar skyldut falma skelknir. Vér komumk brott eða liggjum hér — þat vizk[4] eigi, vága viggruðr[5] — enn veitum hrafni valtafn[6].

1. *örstiklandi*, örskyti (Ólafr konungr). — 2. *Ála él* bardagi. — 3. *skalmǫld*, styrjöld. — 4. *vizk* = vindsk (af v i n d a), snýst, breytist, bregzt. — 5. *vága viggruðr*, skips*frunnr*, maðr. — 6. *valtafn*, hræ (í valnum).

Bardagamaðr, nú dregr saman mikið sverðaél; styrjöld kemr; menn skyldu nú ekki óttast og fálma í ráðleysu. Vér komust á brott eða liggjum hér; það bregzt ekki.

32 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Munk eðr[1], þingdjarfr allvaldr, hvarfa fyr kné þér, unz náir öðrum skáldum — nær vættir þú þeira? — Enn svinni, ríkr randar linns rœkir[2], vilk lifa ok deyja með þér; stöndum ár[3] á eybaugs öndrum[4].

1. *eðr* = enn. — 2. *randar linnr*, sverð; sverðs *rœkir*, mannkenning. — 3. *ár*, fyrri. — 4. *öndurr*, skíð; *eybaugr*, sjór; sjávarskíð, skip.

Eg mun enn, þingdjarfr konungr, vera með þér, unz þú fær önnur skáld — nær væntir þú þeira? Þú vitri og voldugi konungr, eg vil lifa og deyja með þér. Stöndum fyrri á skipum.

33 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Á sér, at vér várum vígreifir með Áleifi. hvítings Hildr;[1] sár fekk ek at hváru[2] ok lítinn frið; skínn á skildi mínum; skald fekk til kalda hríð; nær hafa eskiaskar[3] gervar mik ðrendan.

1. *hvítings Hildr*, kvenkenning. — 2. *at hváru* = hvað sem öðru líðr. — 3. *eskiaskar*, mannkenning, enn líklega ekki heil; *eski*, spjót? = spjóts-viðr, maðr.

Það sér á, að vér vorum með Oláfi, gjarnir að berjast, kona. Eg fekk sár, hvað sem öðru líðr og lítinn frið. Það sést á skildi mínum, að skald fekk kalda hríð. Fjandmenn vorir hafa nær gert mig ðrendan.

34 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Sák, at vígreifr Haraldr varðisk vel með Áleifi; þar gekk Hringr ok Dagr at þingi *harðra*[1] hjörva; *þar*[2] réðu fjórir döglingar at standa prútt und rauðar randar; benþiðurr[3] fekk blakkan bjór.

1. *harðra*, tilg. dr. J. Þ. fyrir *hára*. — 2. *þar*, tilg. dr. J. Þ. fyrir *þeir*. — 3. *benþiðurr*, örn.

Eg sá, að hinn hrausti Haraldr barðist vel með Óláfi; þar gengu líka Hringr og Dagr vel fram; þessir fjórir höfðingjar stóðu hraustlega undir hinum rauðu skjöldum; örnin fekk dökkvan bjór (að drekka).

35 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Hjarta Áleifs vas ðrt; konungr óð fram á Stiklastöðum; stál blóði rekin bitu; lið kvaddisk böðvar.[1] Sák alla Jalfaðs élþolla,[2] nema gram sjalfan, hlífa sér í fastri fleindrífu; flestr vas reyndr.

1. *böð*, orrusta. — 2. *Jalfaðr*, Óðinn; Óðins *élþollr*, mannkenning.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

36 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Emka rauðr, enn grannkona ræðr *rjóðum* manni; et forna jarn stendr fast benja fenstigi[1] mér; þat veldr mér, en mæra marglóðar tróða,[2] (at) djúp spor Dags hríðar ok danskra vápna svíða mér nú.

1. *rjóðum* stendr í Flat.b. — 2. *benja fenstigi* eða *fenstígr*, sár. — 3. *marglóðar tróða*, kona.

Eg er ekki rauðr, enn hin granna kona á rjóðan mann? Hið forna járn stendr fast í sárinu. Því svíða mér nú spor danskra vopna eftir Dagshríð.

37 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Þú gaft loftungu lengi látr þats Fáfnir átti;[1] þú lézk mér vánir fráns ölunns merkr.[2]

Síðari hlutr vísunnar er eitthvað úr lagi færðr. Dr. J. Þ. getr til að standa eigi *sveldan* f. *sjaldan* = sollinn sæ.

1—2. báðar kenningarnar eru gull.

Þú gafst (Þórarni) loftungu lengi gull; þú gafst mér von um mörk gulls.

38 (**Þormóðr kolbrúnarskáld**). Flest*r*[1] of sér hvé ek hef báðar hendr fagrbúnar barðs túna fasta;[2] ek á at gjalda djúpseld[3] ungum iofri,[4] þeims bregðr hungri gráðugs ara.[5] Ek ber gull á báðum greipum.

1. *flestr*, tg. f. *flest*. — 2. *fasti*, eldr; *barðs tún*, sjór; sjávareldr, gull. — 3. *djúpseldr*, gull. — 4. *iofurr*, konungr. — 5. *ari*, örn.

Flestir munu sjá, hvé eg hefi báðar hendr gulli búnar; eg á að gjalda (þakka) konungi gull, þeim sem seðr hina gráðugu erni. Eg ber gull(hringi) á báðum höndum.

39 (Þormóðr kolbrúnarskáld). Hœtir branda þœttumk hafa hvert land þegit, ef þú, hafs hreins sœkjandi, tœkir við haldi mínu.

Síðari hlutrinn er áðr skýrðr í 32. vísu hér að framan.

Eg þættist hafa þegið hvert land, vera stórauðugr, ef þú tækir við mér, konungr.

40 (Þormóðr kolbrúnarskáld). Sex stálregns boða[1] vegna hefk síz ón[2] hjalta Tý[3] óxu fjónir — emk kendr við styr stundum.

Síðari hlutrinn er eitthvað aflagaðr.

1. *stálregnsboði*, maðr. — 2. *ón* er eitthvað aflagað. — 3. *hjalta Týr*, maðr.

Síðustu vísuorðin heldr dr. J. Þ. að gæti verið: Vér létum þorn (=sverð) bíta skarar þeira.

Hér segir Þormóðr, að hann sé „varlega þrítögr".

41 (Þormóðr kolbrúnarskáld). Þessi vísa er skýrð hér á undan.

Vísa Þormóðs „Undrask öglis landa" á bls. 146 þarf ekki skýringar við.



# Nöfn.

## Leiðréttingar.

*Bls.* $8_{28}$: hrafni *mun eiga að vera* manni, *eins og í hdr. stendr, því svipuð orðatiltæki finnast víðar. Bls.* $80_{25}$: fallir *les* fallnir. *Bls.* $118_{14}$: vák *les* vá. *Bls.* $144_{24-25}$: svá mega *les* svá vera mega. *Bls.* $150_{5}$: viggr *les* vigg *í nokkrum eintökum.*

Mánaðarritið **SVAVA** segir meðal annars um útgáfuna á Íslendinga sögum: — — „Alþýða fær þar þessa gimsteina sína, sögurnar, í handhægum og ódýrum útgáfum, og er það góðra gjalda vert. — —

Þessir gimsteinar hinnar íslenzku þjóðar, sem útlendir fræðimenn hafa snúið athygli sinni að, eru þeir kjörgripir, sem lengst munu geyma í minni forntungu vora, og frægð og hreysti forfeðranna. Sérhver sannur Íslendingur ætti að kaupa þessar ódýru útgáfur sagnanna".

(*Svava* III, 12.)

Verð: [illegible] aur.

Íslendinga sögur.

27.

# Vigastyrs saga ok Heiðarviga.

Búið hefir til prentunar
Valdimar Ásmundarson.

Reykjavik.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1899.

Félagsprentsmiðjan.

# VÍGA-STYRS SAGA
# OK HEIÐARVÍGA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
VALD. ÁSMUNDARSON.



REYKJAVÍK.
KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*
1899.

# FORMÁLI.

Víga-Styrs saga ok heiðarvíga hefir sætt þeim forlögum, að nærri hefir legið að hún glataðist með öllu. Á seytjándu öld var hún enn hér á landi norðanlands, að líkindum heil, eða að mestu heil, og er álitið, að hún hafi komizt til Svíþjóðar með Jóni Rúgmann, Íslendingi, um 1660. Guðbrandr Vigfússon segir reyndar, að handrit þetta hafi ekki komið til Svíþjóðar fyrr enn 1682, líklega með Jóni Eggertssyni, enn það er ólíklegra. Svo virðist sem engin afskrift hafi verið til af skinnhandriti því sem sagan var rituð á, því hér á landi er engum kunnugt um söguna um það leyti sem Árni Magnússon safnar hér handritunum. Séra Magnús Ólafsson í Laufási, fornfræðingur, snemma á 17. öld († 1636), hefir þekt söguna, og að líkindum hefir hún verið í höndum hans, eða annarsstaðar í Þingeyjarsýslu, og farið þaðan til Svíþjóðar. Eftir er Árni Magnússon hafði safnað handritum sínum, komst hann að því, að til væri skinnhandrit af víga-Styrs sögu í Stokkhólmi, og bað hann um það til láns, enn fekk að eins 12 blöð framan af handritinu. Hann lét ritara sinn, Jón Ólafsson frá Grunnavík, taka afskrift af þessum kafla sögunnar, enn bæði skinnhandritið og afskrift Jóns Grunnvíkings brann

í brunanum mikla 1728, þegar stórmikið annað brann af Árna safni; var þá ekki annað ritað eftir af sögunni enn nokkur orð og talshættir, sem Jón Grunnvíkingr hafði ritað sér til minnis. Var því álitið, að nú væri sagan glötuð með öllu. Enn 44 árum síðar (1772) fann Hannes Finnsson, síðar biskup, á ferð í Stokkhólmi 24 blöð af þessu skinnhandriti, og afskrifaði Hannes Finnsson þegar þessi 24 blöð. Þar á er allur síðari hluti sögunnar, nema eyður eru nokkurar í hann, af því letrið er orðið ólæsilegt, og á einum stað vantar eitt blað í handritið. Enn þessi hlutr handritsins hefst þar sem hinn glataði fyrri hlutr hefir hætt, og hefir ekkert vantað þar á milli.

Jón Grunnvíkingr var látinn skrifa eftir minni sínu það sem brann af sögunni 1728, og sú frásögn hans er prentuð í þeim tveimr útgáfum, sem gefnar hafa verið út af víga-Styrs sögu og heiðarvíga, sem áðr eru prentaðar í Íslendingasögum, Khöfn 1830 og 1847. Þessi frásögn Jóns Grunnvíkings verðr eflaust ekki gefin út með meiri vandvirkní enn í útg. 1847, og þar er líka síðari hlutr sögunnar eftir Stokkhólms-handritinu gefinn út nákvæmlega, enn þó er líklegt, að betr mætti gera og meira mætti lesa af handritinu, eins og gert hefir verið við gull-Þóris sögu og Vápnfirðinga sögu.

Frá því á 17. öld hafa gengið munnmæli um það, að á Borgarkletti eða Borgarvirki í Víðidal hafi Barði gert sér vígi til að verjast sunnanmönnum eftir heiðarvígin. Sagan getr ekkert um það, eins og hún er nú, enn líkur eru til, að það hafi staðið í þeim kafla sög-

unnar, sem nú vantar í hana, þar sem eitt blað er tapað úr handritinu.

Páll Vídalín lögmaðr skýrir frá þessum munnmælum í „Skýringum yfir fornyrði lögbókar“ (pr. í Reykjavík 1854) undir orðinu „virki“. Hann segir svo: „Segja svo *traditiones* (munnmæli), að Barði Guðmundsson í Ásbjarnarnesi hafi það (ɔ: virkið) gera látið fyrir væntanlegum ófriði Borgfirða, síðan hann hafði hefnt Halls bróður síns, og skuli þar frá sagt í Heiðarvíga sögu. Barði setti varðmenn til í tveim stöðum, annan á Þóreyjarnúpi, ef Borgfirðir riði Tvídægru, annan á Rauðanúp, hvort sem þeir riði Arnarvatnsheiði eða ofan í Víðidal; skyldu varðmenn í þessum stöðum vita kynda. Svo fór sem hann sagði, að Borgfirðir kómu (hvorn veginn er eigi getið); gekk Barði þá í virkit og fylgdarmenn hans, enn Borgfirðir settust um það, sóttu að nokkurum sinnum og fengu eigi aðgert; ætluðu þá að svelta virkismenn og sátu í hálfan mánuð um virkið, enn hinir höfðu vistir ærnar. Sneru Borgfirðir þá frá við svo búið. *Relatio* (frásögn) Guðbr. Arngrímssonar eftir *traditio* segir þetta vera í Heiðarvígasögu. Aðrir segja, að svo hafi þrengt að matbjörgum virkismanna, áðr hinir viku frá, að enginn kostr væri eftir nema eitt mörsiðr, og í seinasta sinn, er Borgfirðir sóttu að, hafi einhver af virkismönnum kastað þessu mörsiðri ásamt grjótinu út í flokk Borgfirða, svo sem til varnar virkinu; þar af hafi Borgfirðir dæmt, að gnótt vista væri í virkinu, og því horfið frá, og sé þaðan orðtækið, að kasta út mörsiðrinu. Þetta sagði mér Bjarni heitinn Guðmundsson, dóttursonr Steingríms prests Þjóðólfssonar.

Sömu *relatio* um mörsiðrið sagði Gísli í Melrakkadal Þorvaldi Ólafssyni; Gísli dó 1672 eða 1673 og skyldi þetta standa í Heiðarvígasögu".

Mesta eyðan í sögunni, þar sem getið hefði átt að vera um virkið, er í 34. kap. Þar endar á orðunum: „ráða nú ráðum sínum, at" . . ., enn byrjar aftr á . . . „hjöltum laust ek þik", þegar verið er að deila um heiðarvíg á þingi.

Því hefir verið fleygt, að til hafi átt að vera hér á landi fyllra handrit af Heiðarvígasögu enn þau sem kunn eru af útgáfunum; enn það er víst alveg tilhæfulaust, nema að því leyti, að afskrifarar á síðustu tímum hafi bætt inn í söguna munnmælunum um Borgarvirkið. Eftir einu slíku handriti er prentaðr sá viðauki, sem stendr hér aftan við söguna.

Um Borgarvirki hefir dr. *Björn M. Ólsen* samið fróðlega ritgerð í „Árbók Fornleifafélagsins" 1880.

Tímatalið er hér sem víðast annarsstaðar í útgáfum þessum tekið eftir Guðbr. Vigfússyni. Vísnaskýringarnar eru að mestu teknar eftir skýringum dr. Jóns Þorkelssonar.

Heiðarvíga saga hefir verið talin ein af hinum merkustu Íslendingasögum. Því meira tjón er það, að hún er ekki til heil. Skinnhandritið hefir að líkindum verið með eyðunni miklu og öðrum skemdum þegar það fór úr landi, enn mest furða er, að engin afskrift hefir verið tekin af því í Stokkhólmi, því af öðrum söguhandritum íslenzkum, sem bárust þangað um sama leyti, eru til margar afskriftir frá þeim tíma.

---

## TÍMATAL.

| | |
|---|---|
| Veginn víga-Styrr . . . . . . . . . | 1005 |
| Utanför Gests . . . . . . . . . | 1006 |
| Utanför Þorsteins Styrssonar . . . . | 1007 |
| Víg Halls Guðmundssonar . . . . . | 1011 |
| Heiðarvíg . . . . . . . . . . | (?)1014 |



# Víga-Styrs saga ok Heiðarvíga.

Atli stóð í dyrum úti, ok var hann veginn af manni nökkurum, sem deildi við hann út af einum langási (man ek eigi, hvárt sá var þræll Atla); reiddi hann burt ásinn.

**2.** Þar næst getr um, at Styrr vá þenna sama mann, ok at hann héti Þormóðr, eða þvílíku nafni; vildi sá forðast Styr ok hafði vara á sér; var hann tekinn til at færa sik ór bygðinni, er Styrr frétti til ferða hans; tók hann sik þá heiman með fjóra menn, ok reið af stað um nóttina eða í dögun; spurði hann upp náttstaði hans í tveim stöðum; vildu þó báðir þeir bændr leyna manninum; reið Styrr svá upp veg eftir honum; þetta var á einu kveldi; mætti hann þá mönnum, sem sögðust hafa sét menn ríða fyrir utan almennings veg; hvataði Styrr þá eftirreiðinni, ok varð varr við mennina í víðikjörum nökkurum eða kvosum skamt frá veginum; reið hann þegar þar at, ok fóru eigi mörg orð milli þeirra, áðr Styrr vá hann, ok var hann götvaðr þar við veginn.

3. Vermundr hét maðr, kallaðr Vermundr enn mjóvi; hann bjó í Ísafirði, á bæ þeim er Laugaból heitir; sá var bróðir Styrs. Honum þótti bær sinn lasinn ok mjök at falli kominn; þess vegna fór hann utan til Noregs at sækja sér við til húsabótar. Hákon jarl réð þá í Noregi; Vermundr hitti á þar hann sat um vetrinn; brátt kom hann sér í vingan við jarlinn, ok gaf honum gráfeldi ok skinnavöru, sem hann hafði með sér fært; þar var hann um vetrinn með jarli í góðri vináttu. Berserkir tveir váru með hirð jarls; hét sá eini Halli, annarr Leiknir, hann var þeira yngri; hafði jarlinn þá til stórvirkja, því þeir váru menn miklir fyrir sér, skapstórir ok sterkari öðrum mönnum; væri þeir eggjaðir eða reiðir, stóð ekki fyrir þeim, ok kom þá at þeim slíkr berserksgangr, at engir menn stóðust; þótti því flestum ódælt við þá at skifta. At vári, þá kaupmenn bjuggust til Íslands, ok Vermundr hafði búit skip sitt, kveðr jarlinn hann at máli eitt sinn, ok biðr hann mæla til þess í sinni eigu, sem honum leikr helzt hugr á. Vermundr svarar, at nökkut sé þat, sem sér þykki helzt gripr í, enn sé uggandi, hvárt jarlinn vili veita sér þat. Jarlinn spyrr, hvat helzt þat sé. Vermundr segir þat vera menn þá tvá ena öflgu, sem eru í hirð hans; þykki sér mesta gersemi í þeim, ef jarlinn vili gefa sér, því sér megi vera mikit traust at þeim, enn hann eigi sökótt víða. Jarlinn svarar, at hann hefði ætlat hann mundi til annars heldr mælast, ok annat væri honum þarfara, því hann þekki svá skaplyndi berserkjanna, at eigi sé bændum hent at halda þá, ef eigi er at þeira skapi gert; muni sér

þykkja á sinn hluta gert, ef illa er at þeim farit, eða veitt nökkur vélræði, ok býðr Vermundi at kjósa annat. Enn Vermundr vill eigi annat þiggja, ok lætr at þessi vandhæfi sé eigi svá mikil, at hann geti þá eigi vel haldit fyrir skapsmuna sakir, svá þeir vel uni. Jarlinn svarar, at þá skuli hann þessu ráða, enn miklu þykki sér varða, at vel sé við þá gert. Heitr Vermundr góðu um þat. Ok þat verðr at lyktum, at berserkirnir fara með Vermundi; gefr þeim vel byri heim um sumarit, ok tekr Vermundr strax at bæta hús sín, ok hafði þá til heimilisstarfa. Brátt fanst þat á skapi berserkjanna, at þeir váru eigi feldir til vinnu, enn váru fúsir til manndrápa ok stórvirkja; sögðu þeir Vermundi, at jarlinn hefði selt sik honum í hendr til trausts móti fjandmönnum hans, enn eigi til vinnu; váru þeir skapstirðir ok gerðust nú ofrefli Vermundar. Iðrast hann nú at hann beiddi þessarrar gjafar af jarlinum, ok hugsar um, hvernig hann geti komið þeim af sér. Þetta spyrst víða, at Vermundr hefir þegit berserkina af jarlinum; þykkir nú óvinum Vermundar hálfu verra á hann at ráða enn áðr.

Vermundr átti dóttur eina fullvaxna; Halli lagði hug á hana, ok var oft á ræðum við hana; þetta rómaðist brátt, ok verðr Vermundr þessa varr, enn lætr sem hann viti eigi.

Um vetrinn á útmánuðum sendir Vermundr mann at Hrauni til víga-Styrs bróður síns, þess erendis, at hann býðr honum at heimboði til sín. Styrr tekr því fálega í fyrstu, enn segir þó hann muni koma; telr þat eigi hafa verit vanda bróður síns

fyrri, ok heldr hér muni nökkut undir búa, því fátt hafði þeira milli verit þangat til; ferr þó heiman með nökkura menn, ok ríðr vestr í Ísafjörð at Laugabóli. Tekr Vermundr á móti honum báðum höndum ok þakkar honum þarkomuna; gistir þar Styrr þrjár nætr í góðu yfirlæti; var þat kallat kynnisför. Þann dag, er Styrr vill burt ríða, sitja þeir bræðr yfir drykkjuborðum; eru nú báðir allglaðir, ok fellr alt vel á með þeim. Þá mælir Vermundr: „Nú skaltu hafa þökk, bróðir, at þú hefir eftir bón minni heimsótt mik, ok þar þat hefir eigi fyrr verit, vilda ek at þú nytir þess í nökkuru. Hér er gjöf sú, er mér sýnist þér vel í hag koma; þat eru berserkir tveir, er hér hefi ek með mér; veit ek, at þú átt marga mótgöngumenn ok víða árása ván“. Styrr mælti: „Þetta er mikil gjöf, ok af því ek veit þat eigi í minni eigu, er þessu sé jafnvægt, þá kann ek þér eigi betri laun, enn ek gefi þér þessa berserki aftr, svá þú njótir þeira sjálfr“. Vermundr þykkist við, ok segir hann geri eigi rétt at virða illa, er hann býðr honum til sæmdar svo þarfa gjöf. Styrr svarar: „Segðu hitt, bróðir, at þú iðrast, at þú hafir við berserkjunum tekit, því nú finnr þú þik eigi megnugan at halda þá fyrir þeira skapsmuna sakir“. Vermundr segir þá, at svá er, ok lætr upp alt et sanna, ok biðr hann at leysa sik við þetta vandræði. Styrr kveðst deigr við þeim at taka, því jarlinn sé til eftirmælis, ef þá saki nökkut; muni hann þó þar at ráða, ef þeir vili sér fylgja, ok leysa svá vandræði hans. Vermundr verðr þessu glaðr. Nú eru berserkirnir kallaðir þangat, ok spurðir, ef þeir

vili Styr fylgja. Segir Vermundr, at Styrs ok þeira lunderni muni betr saman koma, því hann eigi sökóttara, enn sé skörungr í geði, enn sik þurfa heldr at snúast við búskapar annríki. Berserkirnir segja, at jarlinn hafi sik honum alleina til fylgdar fengit, enn vel ok höfðinglega lítist sér á Styr; þó muni þeir hér á hætta, þar hann lofi at gera eftir sínu skapi, ok brúka sik til mannhefnda meir enn búsýslu. Verðr þat af, at berserkirnir skulu fara með Styr, ok skilja nú við Vermund allir.

4. Þorbjörn hét maðr, kallaðr Þorbjörn kjálki; hann bjó í Kjálkafirði; á milli Styrs ok hans höfðu lengi deilur verit, ok hafði Styrr aldri náð hefndum á honum eftir sínum vilja; nú þótti honum vel til fallit, at brúka berserkina þar til, svá hann kæmi sér í geðþokka við þá; segir hann þeim þessa fyrirætlan, ok eru þeir þess allfúsir. Þangat koma þeir á nóttu ok berja at dyrum; enn af því fólk alt var í svefni, var eigi skjótt til dyra gengit; skipar Styrr þá at brjóta upp dyrnar, ok þat gera berserkirnir. Þorbjörn hvíldi í skála; hann vaknar við þenna hávaða, ok spyrr, hverr þar fari með slíkum óspektum, at brjóta hús á fólki um nætr. Styrr segist þar vera, ok nú hafi hann þá menn með sér, er þori at sjá honum í augu, ok nú vili hann launa honum margar skapraunir, ok hafi þat alt oflengi undan dregizt, ok sé honum at verða við. Þorbjörn kveðst hvárki mundu flýja né friðar beiðast; segist senn kominn af fótum fram; þeir megi gera hvat þeir geti; hann vili taka við eftir föngum. Þorbjörn lá í lokrekkju; hleypr hann nú upp í sænginni ok tekr sverð, er þar hekk, ok ver

sik. Styrr eggjar nú berserkina stórum, ok segir þat eigi skammlaust, at einn maðr standi svá lengi fyrir þeim. Ok við þessi frýjunarorð verða berserkirnir óðir ok brjóta lokrekkjuna at Þorbirni, enn ámæla Styr, at hann frýi sér hugar, enn vogi hvergi sjálfr nærri at koma. Styrr gengr þá fram í ákafa ok sækir at Þorbirni ok leggr hann í kviðinn, svá hann fellr. Geðjast nú berserkjunum vel at hans framgöngu, ok segjast gjarnan vilja fylgja svá djörfum foringja. Ríða nú þaðan ok lýsa víginu; getr um náttstaði þeira í sögunni; váru þeir fjórir, ok einn í Ljáskógum; koma nú heim at Hrauni, ok geðjast nú hvárumtveggjum vel at öðrum, ok þykkir þeim Styrr góðr ok röskr höfðingi; stóð nú eigi minni ótti af honum enn áðr, ok þótti óvinum Styrs hann nú allóárennilegr. Líðr nú af vetrinn.

Styrr átti dóttur gjafvaxta, er Ásdís hét. Leiknir, sá yngri berserkrinn, lagði þat í vanda sinn, at hann sat löngum á tali við hana ok at tafli; tók þá mönnum til at verða margrætt um þetta, ok kom þat fyrir Styr, enn hann kvað þat engu varða, ok lét sem hann ekki vissi, þó hann þat vel sæi. Nökkurum tíma síðar talast þeir við, berserkirnir ok Styrr; spyrr hann, hversu þeim getist at sínu haldi. Þeir láta vel yfir, ok segja sér þykki hann vera höfðingi þeim til hæfis. Falla þá svá orð í þeira ræðu, at Styrr spyrr, hvárt þeir vili eigi leita sér nökkurrar staðfestu ok kvænast. Leiknir svarar, at eigi sé þat sér fjarri. Styrr spyrr, hvar honum renni hugr til. Leiknir svarar, þat muni helzt í hans valdi. Styrr svarar, at þó hér sé

nökkur ójöfnuðr á, þá felli sér hann vel í geð, ok mætti það enn nú reynast betr. Styrr spyrr ok Halla, hvárt honum standi hugr til nökkurrar konu. Halli segir þat vera. Styrr spyrr: „Hvar?" Halli segir, Vermundr eigi þar svörum at ráða, ok mundi þat með hans atfylgi takast mega. Styrr tekr engu fjarri, ok fella nú þetta tal um sinn. Litlu síðar vekr Leiknir sama mál. Styrr mælti: „Til skapsmuna ertu mjök við mitt lyndi, enn þess skaltu gæta, at þú hefir eigi fé móti at leggja". Leiknir svarar: „Þó ek sé maðr félaus, þá kann vera ek geti unnit þau verk, sem þrek er í, þér til vilja, sem aðrir menn eru eigi í færum um, ok með því móti leyst mik frá fjártillagi, enn verit þér jafnan hér eftir til liðs með Halla bróður mínum; átt þú mótstöðumenn marga, ok er þér því þörf traustra manna, enn þú fá mér bólfestu nökkura". Styrr kvað þat satt vera, því sér væri stórt traust at þeira gervileika, ok vildi hann gera þar nökkura tilraun á áðr. Þykkir nú berserkjunum eigi óvænlega áhorfast.

Um várit ríðr Styrr út at Helgafelli til Snorra; vinátta var þá góð þeira á millum; gekk Snorri á veg með honum ok ræddust þeir við allan daginn; enn engi maðr vissi, hvat þeir töluðu, eða hvaða erendi Styrr átti við Snorra. Eru berserkirnir mjök eftirleitnir um konumálin, ok einna mest Leiknir. Styrr segir hann verði at sýna nökkurt þrekvirki áðr. Leiknir læzt þess albúinn, ok spyrr, hvat þat sé. Styrr mælti: „Hér er hraun hjá bæ mínum ilt yfirferðar; hefi ek oft hugsat, at ek vilda láta gera veg þar um ok ryðja þat, enn mik hefir skort

mannstyrk; nú vilda ek þú gerðir þat". Leiknir segir, þat þykki sér eigi mikit fyrir, ef hann njóti liðs Halla bróður síns. Styrr sagði, hann mætti þat við hann eiga. Taka nú berserkirnir at ryðja hraunit at kveldi dags, ok at þeiri sýslan eru þeir um nóttina; vega þeir stór björg upp, þar þess þurfti, ok færa út fyrir brautina, enn sumstaðar koma þeir stórum steinum í gryfjurnar, enn gera slétt yfir, sem enn má sjá; var þá á þeim enn mesti berserksgangr. Um morgininn höfðu þeir því lokit, ok er þat eitt et mesta stórvirki, er menn vita, ok mun sá vegr æ haldast með þeim ummerkjum, sem á eru, meðan landit stendr. Skulu þeir nú gera eitt gerði ok hafa því lokit at dagmálum. Á meðan býr Styrr þeim bað, sem þeir skulu í fara, þá þeir hafa aflokit gerðinu; enn at morgni skal Leiknir hafa brullaup. Baðit var svá til búit, at þar var feldr stór hlemmr ofan í gólfit með einum glugg á, sem vatninu var inn um helt; húsit var grafit í jörð, ok váru dyr fyrir því með sterkum stokkum ok húsit alt af nýjum viðum ok et rammbyggilegasta; tröppur váru fyrir húsinu upp at ganga. Um morgininn, þá þeir eru at gerðissmíðinni, lætr Styrr Ásdísi búa sik sem allra bezt, enn bannar henni at vara berserkina við, hvat hann hafi í ráði; ok áðr enn þeir hafa lokit gerðinu, gengr hon burt frá húsunum á svig við berserkina, þar þeir eru at sínu starfi. Leiknir kallar til hennar ok spyrr, hvert hon skuli. Hon svarar engu. Þá kvað Leiknir vísu þessa:

(1) Hvert hafið Gerðr um gerva
gangfögr liðar hanga,

ljúg vettr at mér, leygjar
línbundin för þína?
þvít í vetr en vitra
vangs sákat þik ganga
hirðidís frá húsi
húns skrautlegar búna.

Nú hafa þeir aflokit þessu starfi. Segir nú Styrr, at hann hafi búit þeim bað, er þeir skuli í fara; hafi þeir nú þat þrekvirki unnit, er sér vel hugnist, ok uppi muni verða um alla æví. Halli er í fyrstu eigi ráðinn at ganga í bað, ok spyrr, ef eigi skuli fleiri ganga í baðstofu með þeim. Styrr svarar, þat muni eigi hent öðrum, at ganga í bað ásamt slíkum afarmönnum sem þeir eru; enn Leiknir vill gera þat at vilja Styrs. Nú setjast þeir í baðstofu, ok er hlemmrinn lagðr yfir ok borit grjót á; dyrunum er ok lokat ok borit grjót fyrir sem rammlegast, enn á tröppurnar er breidd blaut uxahúð; baðstofan er gerð ákaflega heit. Enn þá þeir hafa setit í baðinu litla stund, lætr Styrr bera sem óðast brennheitt vatn ok steypa inn um glugginn. Finna nú berserkirnir, at eigi er alt heilt við þá; hamast þeir nú í baðinu ok brjótast á hlemminn; springr Leiknir inni, enn Halli kemst út; ok er hann kemr á tröppurnar, verðr honum fótaskortr ok fellr á húðinni; enn Styrr er þar fyrir með reidda öxi ok höggr á háls honum, svá Halli lét þar lífit. At þessu verki unnu lætr Styrr leiða heim þjóra tvá tvævetra og höggr þá, því þat var trúa í þá daga, at ef svá væri gert, yrði eigi af eftirmálum. Spurðist þetta víða, ok ræddu menn misjafnt of víg þessi. Skömmu síðar gifti

Styrr dóttur sína Snorra goða, ok varð hann við þær tengdir traustari móti óvinum sínum.

5. Nú vaxa svá metorð ok yfirgangr Styrs, at flestum stóð mikill ótti af; þótt hann vægi menn, bætti hann engu, ok flestir urðu svá at láta vera sem hann vildi, því engi fekst réttr yfir honum; stóðu ok margir ríkir menn at honum, vinir og mágar, svá at fáir þorðu at veita honum nökkurar tilgerðir. Maðr hét Einarr; á hann taldi Styrr nökkurar sakir, ok lét dómendr dæma sér stórar fébætr. Þessi maðr átti Akreyjar á Breiðafirði; sló Styrr á þær eigu sinni, enn engi mælti á móti; flúði maðrinn af búi sínu ok duldist um sumarit hingat og þangat í Breiðafjarðareyjum; um vetrinn fór hann út á Mýrar, ok skaut Þórhalli á Jörfa skjóli yfir hann, ok annarr bóndi þar nálægt á Járngerðarstöðum; heldu þeir hann til skiftis um vetrinn; enn um várit eftir vildi hann flytja sik suðr til Borgarfjarðar, ok hafði einn eða tvá húskarla með sér ok fáeina klyfjahesta. Styrr helt spurnum fyrir þessu, ok reið heiman við nökkura menn, ok varð víss, hvar hann hafði verit um nóttina; reið hann eftir honum upp frá bæjum, ok sá á einum litlum hálsi til manna undan sér; enn þá þeir urðu varir við eftirreiðina, fóru þeir af almennings vegi; enn af því þeir fóru með klyfjahesta, enn hinir riðu lausu ok ört á eftir, bar brátt saman með þeim; lét maðrinn húskarlana undan fara ok meinti Styrr mundi heldr eftir þeim ríða; enn Styrr þekti hann. Þar var mýrlendi er þeir hittust, svá eigi varð greiðriðit. Styrr spyrr, hvat valdi þessu fyrirtæki hans, at flytja sik ór bygðum,

eða því hann hafi fyrir sér dulizt. Hinn svarar, at flestum sé kunnugr ofsi hans ok yfirgangr, ok hafi hann skilit margan við líf, sem hann hafi lagt minni þykkju á. Styrr segir hann beri sök á baki sér með þessu fyrirtæki, ok hafi hann nógar sakir til að drepa hann, ok þess erendis sé hann kominn. Maðrinn hleypr af hestinum, ok vill taka til fóta ok renna undan; enn þat varð torsótt, því mýrin var blaut, ok fell hann í henni, enda váru hinir fleiri, er eftir sóttu; verðr þat skilnaðr þeira, at Styrr vegr hann þar, dysjar, ok lýsir víginu síðan. Þá kvað Styrr vísu, í hverri hann segist nú hafa vegit þrjátigi ok þrjá menn, sem hann hefði eigi fébótum bætt, ok svá varð um þetta víg.

5. Nú telr Styrr fullar sakir á þá báða, Þórhalla ok hinn, er haldit hafa áðr greindan mann; áttu margir hlut þar at til friðstillingar; verðr hinn bóndinn fyrir fjárútlátum; enn af því Styrr þótti Þórhalli hafa átt hér meiri hlut í, þá krefr hann af honum meiri bóta; gerist sá sami á máli þeira, at Þórhalli skal standa honum fyrir kosti, þá Styrr vill hjá honum gista, hvárt sem hann ferr frá eða til, eða hvat marga menn sem hann með sér hefir. Heitr Þórhalli þessu, því honum leizt þungt at etja kappi við Styr. Líða nú nökkur misseri, at svá stendr, enn Styrr þóttist hafa þeim í veitt, at hann lét þá lífi halda.

7. Þat bar til nýlundu eitt haust, at miðr heimtist af fjöllum enn vant var, þó vandlega væri leitat; kendu menn þessar illar fjárheimtur útileguþjófum, nema ef einhverir væri í bygð, er þessu ylli, enn þat varð þó eigi uppvíst. Styrr var þar mestr

sveitarhöfðingi, ok setti þau lög með fremstu bændum, at hverr maðr skyldi eitt auðkenni brúka á fé sínu, ok sýna nágrönnum sínum. Sumarit eftir berr svá við eitt sinn, atván er Styrs til Jörfa. Þar var einn alinn hrútr, sem á sumrum gekk í töðum ok túnum, ómarkaðr, því hann var alltíð heima við bæ, ok gekk eigi með öðru fé; hann var glettinn við vinnukonur ok spilti oft mjólk; lögðu þær til hann væri slátraðr at fagna Styr með, því at hann var vel feitr; þat þótti hendi næst, ok á þat felst húsfreyja, sem Þorgerðr hét; var nú svá gert. Styrr kemr ok gistir þar um nótt; er honum gerðr góðr beini, sem vant var. At morgni, áðr Styrr vill burt, ganga þeir til dagverðar; er nú slátrit af hrútnum borit fram, ok fylgdi þar höfuðit með. Ok þá þeir sitja at borðum, tekr einn Styrs manna höfuðit upp, ok segir þetta sé geisifeitr sauðr. Styrr lítr til ok skoðar höfuðit ok mælir: „Þetta er furðu mikit höfuð, eða sýnist öðrum sem mér, at ekkert er auðkenni á eyrum?“ Þeir segja svá vera. Styrr mælti: „Veiztu eigi, Þórhalli, at vér sveitarhöfðingjar höfum í lög sett, at hverr maðr hafi eitt mark á fé sínu, enn þetta er ómerktr sauðr?“ Þórhalli kveðst þat vel vita, enn segir, at sauðr þessi hafi gengit heima í töðum síðan hann var lamb, ok hafi menn því eigi hirt at marka hann. Styrr mælti, at samt hefði honum borit at sýna hann nágrönnum sínum, svá þeir beri viti hér um. Þórhalli segir, at hvárki þeim né öðrum sé þat dult, því sauðrinn hafi helgat sik hans eign, þar hann hafi heima við bæinn gengit fyrir allra augum óátalit. Styrr segir, at

þat hæfi þó eigi bændum, at kasta orðum sveitarhöfðingja undir fætr sér svo gálauslega, ok hafi hann oftsinnis eigi látit minni sakir óhegndar. Þorgerðr kemr at í þessu, ok segir, at þat sé ójöfnuðr stór, at Styrr kenni bónda sínum þjófnað, ok launi þeim þannig góðan greiða, sem menn hans hafi margoft illa þegit; verðr hon óðamálug mjök. Enn Styrr svarar fáu, enn safnar reiði, ok segir, hann muni eigi líða bændum lagabrot órefst, ok svá kunni hér at verða. Skiljast þeir síðan, ok líkar hvárumtveggjum allilla.

Nú hugsar Þórhalli um þetta mál, ok þykkir þungs at ván, þar sem Styrr er; mágar ok frændr hans váru í Borgarfirði; ferr hann suðr um haustit seint, ok spyrr þá ráða, Kleppjárn, Illuga svarta ok Þorstein Gíslason, mág sinn. Þeir ráða honum til at færa sik burt ór heraðinu, ok sæta eigi lengr álögum Styrs, því eigi megi vita, nema hann bíði líftjón af hans völdum, ok bjóða honum þangat suðr til sín, svá at hann sé óhultari fyrir Styr, ok skuli hann flytja sik at vári. Þetta boð þekkist Þórhalli ok þykkir allgott ráð; ferr heim til sín vestr ok lætr eigi á þessu bera, ok líðr nú svá af vetrinn. Várit var kalt ok vindasamt, ok víða hart milli fólks; var því ilt til hesta, ok kómu grös seint upp. Lætr Þórhalli ekkert á sínu áformi brydda, ok bíðr fram til alþingis, þar til Styrr er riðinn heiman, ok vill þá flytja alt sitt suðr; enn Styrr fær þó njósnir hér um. Nú spyrr Þórhalli, at Styrr er heiman farinn; ok hér um eftir tvá daga tekr hann sik upp, ok flytr nú fyrst búsgögn sín; hefir hann meðferðis niu klyfjaða

hesta ok einn húskarl með, sem Ingjaldr hét; ætlar hann í næstu ferð at flytja sik alfarit með konu ok börnum. Styrr hefir fengit grun af fyrirætlun Þórhalla; snýr af vegi sínum ok sezt í veg fyrir hann sunnan í heiðarbrekkunum, þar hann veit at leið Þórhalla liggr um; Styrr reið við fimta mann. Nú kemr Þórhalli með húskarli sínum vestan af fjallinu ofan í brekkurnar; húskarlinn var betr skygn enn Þórhalli, ok segist sjá þar menn í einni brekku, ok segist ugga, hvárt alt muni trútt, ok mætti vel ske at hér væri Styrr. Þórhalli segist vera fyrir því óhræddr. Þá þeir koma nökkuru nær; segist Ingjaldr þekkja, at þetta er Styrr, ok muni hann nú hafa eitthvað ilt í sinni, þar hann hagi svá ferðum sínum, ok segir þat sé bezta ráð, at þeir snúi aftr, því þó þeir hefði hesta lúnari, þá megi enn vel takast at ríða undan þeim vestr af fjallinu, ok þá verði þeim nóg til manna styrks. Þórhalli vill þat eigi, ok segist aldri skuli svá hræddr, at hann renni undan mönnum, þó fleiri sé, ok bindi svá með hræðslu sakir at sjálfum sér; viti hann eigi heldr. at hann hafi gert þær sakir við Styr, at þess sé verðar, at hann leiti eftir bana sínum. Ingjaldr vill samt til baka ríða, því hann hafi skjótari hest, ok afla sér manna, ef þeira kunni at þurfa, sem sér sýnist, ok viðskifti þeira yrði eigi svá skjót. Þórhalli segir hann megi því ráða, því ef Styrr hafi víg í hug, muni hann eftir sér sækja heldr enn honum. Ríðr nú Ingjaldr til baka þat hraðasta hann getr, enn Þórhalli rekr áfram hestana sína leið, ok lætr sem hann verði eigi þeira varr. Þegar þeir sjá Þórhalla, skunda

þeir á hesta sína ok ríða í veg fyrir hann; mætast þeir Styrr ok heilsar Þórhalli honum vingjarnlega. Styrr spyrr, hvat valdi þessum tiltektum hans, at sér lítist hann vili flytja sik ór heraðinu. Þórhalli segist því sjálfr ráða, þó hann leiti sér betri bólfestu, enn kveðst eigi kunna skil á, því hann mæti Styr hér. Styrr segist svá hafa til ætlat, at þeir fyndust hér, ok at þat yrði fundr þeira enn seinasti. Þórhalli segist eigi vita sik hafa þat til saka gert, at hann þurfi at banna sér leið sína, og eigi vænti hann þess, at hann siti eftir lífi sínu. Styrr mælti, at svá mintist hann seinasta viðtals á Jörfa, at eigi þyldi hann honum lagabrot eða nökkura skapraun við sik, ok sé nú eigi annars kostr enn verja sik. Þórhalli segist eigi undan flýja mundu. Sækja nú menn Styrs at honum í ákafa, enn Styrr gefr sik eigi at; verst Þórhalli vasklega ok veitir þeim mörg sár, enn verðr ákaflega móðr, því maðrinn var við aldr; gengr svá nökkura stund, at þeir sækja, enn vinna hann þó eigi, ok verða allir móðir. Þá kalla þeir at Styr, at hann komi ok siti eigi hjá, enn seli sik í hættu. Hleypr nú Styrr at, ok skiftast þeir eigi mörgum höggum, áðr Styrr höggr með öxi aftan í höfuð Þórhalla ok fellir hann þar; ríðr þaðan burt sem skjótast, enn lætr reka alla hestana heim at Hrauni, ok ferr leið sína til þings, ok gerir ekki orð á þessu. Fréttist þetta nökkuru síðar um sumarit í Borgarfjörð, ok þótti vinum ok mágum Þórhalla sér nærri höggvit, ok fara stór orð frá þeim um haustit. Enn þá er Styrr heyrir þat, kvað hann vísu, í hverri innihaldit var orðtækit: Eigi verðr þat alt at

regni, er rökkr í lofti, ok svá mundi fara um hótanir Borgfirðinga.

8. Í þann tíma gerðust þau góð tíðendi á landi hér, at forn trúa var niðr lögð, enn réttir siðir upp teknir; létu þá margir ríkir bændr byggja kirkju á bæ sínum; þeira einn var Styrr, ok lét hann kirkju reisa at Hrauni. Sú var trúa á tímum þeim, at sá er kirkju lét gera ætti ráð á svá mörgum mönnum at kjósa til himnaríkis, sem margir gætu staðit innan kirkju hans. Þórhalli lét tvau börn eftir sik; hét annat Gestr, enn annat Áslaug; þau váru bæði ung, þá er faðir þeira var veginn; varð því eigi af eftirmálum; ok líða nú svá tímar fram. Gestr var smár vexti ok seinþroska, ok þótti því mönnum lítil þreks ván at honum. Kom nú sá bóndi at Jörfa, sem Þorleikr hét, ok helt hann samt uppi gistingu við Styr; óx þar Gestr upp með honum. Eftir nökkur misseri berr svá við, at bændr tveir í Borgarfirði fyrir sunnan Hvítá verða missáttir af hestagöngu; hét annarr Halldórr, er bjó á Ferjubakka; hinn hét Höskuldr, er bjó á næsta bæ. Hestar Halldórs gengu oft í högum Höskuldar, og eitt sinn, er þeir höfðu gert þar nökkurn usla, varð Höskuldr afarreiðr, ok hljóp heim á bæ Halldórs ok illyrtist við hann; var við sjálft búit þeir mundu berjast, enn Höskuldr drepa hestana, því þeir gengi sér til óhelgis. Styrr var mikill vinr Halldórs; hann skaut þessu máli undir hans gerð, ok því samþyktist hinn. Sendir Halldórr boð vestr Styr vin sínum um haustit, at semja þessa deilu þeira á millum. Styrr segist koma vilja, enn verða þó at bíða þess, at vatnavextir

minki ok ísa leggi. Ferr hann nú at heiman um vetrnætr; fylgir honum Þorsteinn son hans, sem þá var fullorðinn at aldri, ok nökkurir menn fleiri; gistir hann á Jörfa, sem hann var fyrri vanr, þá hann ferr suðr um; tekr Þorleikr vel við honum, ok yfir borðum mælti hann til Styrs: „Þat virðist mönnum þú hafir fyrir litlar sakir vegit Þórhalla; stóð hann þér jafnan fyrir kosti, ok vissu allir, at sú sök, er þú feldir á hann, var af einfeldni hans, enn engri tilverknan; nú eru hér börn hans ung ok munaðarlaus eftir; væri því höfðingsskapr at hugga þau í nökkuru“. Styrr segist vilja sjá sveininn; er hann nú leiddr fyrir Styr, ok lízt honum sveinninn smár í augum sér ok óvænlegr til hefnda. Styrr mælti: „Eigi hefi ek bætt víg mín hingat til dags, ok verðr þat nú et fyrsta sinn sem ek þat geri; í sumar sögðu griðkonur mínar þar vera hrútlamb eitt, grátt at lit, ullarrýjat, er eigi vildi þrífast; nú sýnist mér þat rétt á komit, at sveinn þessi hafi lambit í föðurgjöldin, enn eigi mun hann frekara af mér fá“. Þorleikr mælti: „Þetta er hvárki góðmannlega né höfðinglega mælt, ok hefða ek annarra orða vænt af þér; er sveininum lítil huggun í þessum svörum“. Styrr biðr hann at þegja, ok segir honum muni hentast at skifta sér eigi meir af þessu; muni svá hljóta at standa sem hann mælt hefir. Þorleiki þykkir ráðlegast at fella þessa ræðu. Ríðr nú Styrr þaðan suðr á leið; enn er ván hann muni þar gista, þá hann ferr heimleiðis. Kemr Styrr á Ferjubakka til Halldórs vinar síns, ok semr með þeim Höskuldi hestadeiluna bótalaust; lætr Höskuldr svá standa;

enn Halldórr gefr Styr at skilnaði góðan hest gráan, er þeir Höskuldr höfðu mest um deilt, ok skiljast þeir með vináttu; ferr Styrr leið sína vestr.

9. Gestr sitr nú hugsi um sitt mál; var hann lítill at vexti ok frár á fæti; geymdi hann fjár fóstra síns; dag þann, er ván var Styrs at sunnan, sat hann at fé ok skefti öxi sína; varð þá sá atburðr, at blóðdropar nökkurir fellu á skaftit; hann kvað þá vísu; kemr heim síðan ok hittir systur sína úti ok segir frá; hon segir sér þykki líkast, at einhverjum tíðendum gegni, ok vildi hon þat kæmi niðr í maklegum stað. Hann kvað enn vísu. Þá þau eru þetta at mæla, berr þar menn at garði; eru þat Styrr ok fylgdarmenn hans; höfðu þeir vöknat í Hítará; enn Styrr hafði skúaðan hest, ok var því eigi vátr; frost var um daginn; var þeim beini gerðr, dregnar af þeim brækr ok skóklæði ok kyndr eldr upp. Styrr sat við eldinn. Þar hafði verit höfð soðning daginn sama, ok stóðu hitukatlar utar á gólfinu, sem soð var í. Áslaug systir Gests rekr þar í brækrnar ok berr út á vegg. Eldahúsit var svá lagat, at handraðar váru innan veggja, svá at ganga mátti á milli þeira ok veggjanna á baki mönnum; tvær dyr váru á húsinu; lágu aðrar dyr út, ok váru þat laundyr. Förunautar Styrs segja, at sparaðr sé eldiviðrinn; hleypr Gestr út ok sópar saman því eldiviðarsorpi, er hann finnr; berr inn fult fang sitt ok kastar öllu á eldinn, og jafnskjótt öðru fangi; lystr þá upp miklum reyk í húsin; hleypr Gestr þá í handraðana kring á bak til við Styr, ok höggr með öxi af öllu afli í höfuð honum bak við eyrat hægra

megin, svá í heila stóð, og mælti: „Þar launaða ek þér lam-bit grá" — hleypr út laundyrnar ok skellir í lás; enn Styrr hnígr fram á eldinn. Þorsteinn hleypr undir hann, ok þá hann sér, at hann er höggvinn til bana ok örendr, hleypr hann út ok þeir allir ásamt eftir Gesti. Gestr rennr undan alt at Hítará; áin var rend, ok rann í streng á milli; enn með því Gestr var frár, þá stökkr hann yfir ána. Förunautar Styrs komast sumir á miðja leið ok snúa heim aftr; þykkir þeim ilt at etja berum fótum við klakann; enn Þorsteinn rennr alt at ánni; stendr Gestr öðrum megin ok varnar honum yfir at komast; sér Þorsteinn at fjándmaðr sinn stendr hinum megin ok vofir yfir höfði sér; er þar vogun til at ráða; hitt er ok hætta, at hlaupa á ána, ok snýr við þat aftr. Enn bóndi læsti Styr í húsi, þar til Snorri kæmi ok sæi sár hans, eftir því sem lög sögðu, ok fengu þeir hann eigi; váru þá send boð Snorra sem skjótast; hann kom, nefndi vátta at sárum Styrs, ok bjó um líkit; ferr síðan þaðan, ok kemr at kveldi til bónda þess er Snorri hét, ok bjó í Hrossholti; sagðist hafa með lík at fara ok beiddist greiða; honum var veittr hann eftir föngum; líkit hafði dregizt nökkut ofan í Haffjarðará ok vöknat til höfuðsins; var því kyntr eldr upp at þurka þat. Snorri bað fólk at hafa kyrt um sik um nóttina. Bóndi átti dætr tvær; hét önnur Guðríðr; hon var sextán, enn hin fjórtán vetra; þær hvíldu báðar í einni rekkju. Þá fólk alt var í svefni ok góðr tími af nóttu, tók þeiri eldri svá mjök at óróast, at hon brauzt á hæl ok hnakka; hin spyrr hvat veldr; hon segir, at hon

hafi heyrt mikit sagt af víga-Styr, enn aldri sét hann meðan hann var á lífi; nú sé sér á engu meiri fýsn enn at sjá hann. Hin svarar, at hon skuli eigi mæla soddan heimsku, at vilja sjá hann nú dauðan, er mörgum stóð mikill ótti af í lífinu, ok biðr hana hætta þessu tali. Litlu síðar vekr hon sama mál, ok tekr nú meir at ókyrrast enn fyrri; segist aldrei fá betra færi at sjá hann enn nú; hin yngri vill hamla sem fyrr, enn sú eldri ræðr meir; fara nú báðar á fætr; ræðr sú eldri ferðinni, enn hin ferr eftir. Styrr var rifaðr í húð, enn líkit hafði dregizt ofan í ána um daginn, ok var því sprett frá höfðinu; eldrinn var útbrunninn ok glæðr eftir; var ljóst et efra um húsit, enn dimt et neðra. Þær ganga hljóðlega inn í eldahúsit ok stilla nú hægt þangat sem Styrr liggr ok skygnast nú sem bezt at honum, ok var sú eldri nærgöngulari; sýnist þeim þá Styrr rísa við í húðinni ok kveða vísu. Snorri varð varr við, at einhverr var á fótum; kippir fljótlega skóm á fætr sér ok gengr út til eldahússins, at forvitnast um, hvat þær hafist at; enn þegar hon heyrir vísuna, bregðr henni svá við, at hon æpir hástöfum ok hleypr í fang Snorra; koma menn á fætr ok halda henni; er hon þá svá ær, at fjórir hafa fult í fangi með hana; linti hon aldri af ópi ok umbrotum alla nóttina, þar til undir dag, þá deyr hon. Snorri segir við bónda, at nú sé verr launaðr greiðinn enn hann vildi, ok kveðr þat eigi sína skuld, þó sér hafi eigi hlýtt verit. Bóndi svarar, at hann hafi enga skuld í, þótt svá illa hafi til tekizt, heldr séu þat ósköp dóttur sinnar. Snorri býst burt et hraðasta ok ferr

áleiðis með líkit; tekr þá at gera mikla snjódrífu á móti þeim með frosti; ok er á daginn líðr, tekr líkit at fara illa á hestinum ok snúast öfugt; gerist þat þá svá þungt, at þeir koma því eigi lengra enn at eyðihúsum nökkurum á melholti einu, ok þar bera þeir grjót at því ok dysja; fara þar eftir leið sína, ok er eigi annars getit enn þat gengi greitt. Um várit þá upp leysir snjó ferr Snorri eftir líkinu, ok er þá alt tíðendalaust í þeiri ferð; er þat jarðat at kirkjunni undir Hrauni, er Styrr hafði sjálfr gera látit; enn nökkurum tímum þar eftir, þá kirkjan brann, váru bein hans upp tekin ok flutt at Helgafelli.

**10.** Nú fréttist víða víg Styrs, ok þykkir mörgum mikils um vert, at Gestr, svá ungr maðr, er aldri hafði fyrr víg vegit, skyldi hafa vogat soddan stórræði við slíkan ofsamann, er Styrr var í lífinu, ok mörgum stóð ógn af, ok þótti þetta mjök hafa farit at málavöxtum. Nú er þat at segja frá Gesti, at þeir Þorsteinn skilja þar við ána; rennr Gestr suðr á leið til Borgarfjarðar ok kemr at Mel; sá hét Halldórr, er þar bjó, enn kona hans var föðursystir Gests. Halldórr spyrr, því svá víki við ferðum hans. Gestr greinir alt af vígi Styrs ok biðr hann liðsinnis. Halldórr bregzt stórlega reiðr við, ok skipar honum at dragast burt frá sínum augum et skjótasta, ok eigi sé honum at vænta liðs hjá sér, er svá mikit óhappaverk hafi unnit, at drepa Styr, slíkan höfðingja; enn kona hans leggr beztu orð til við bónda sinn. Gestr verðr fár við, ok meinar hann muni þenkja sem hann talar, enn þat var þó reyndar eigi; er Gesti feng-

inn hestr á laun, ok þykkir honum nú betrast hagr sinn, at hann er kominn á hestbak; ríðr nú þaðan á leið til Borgarfjarðar slíkt er hann má, ok hefir eigi marga náttstaði áðr hann kemr suðr yfir ána; kemr nú síð um kveld at bæ Halldórs ok drepr á dyr; þar kom húskarl út; Gestr biðr hann at kalla Þórdísi konu Halldórs á tal við sik; hon var systrunga Gests; hon gengr út, ok kennir eigi Gest í fyrstu; Gestr segir henni, hvat hann á um at vera ok í hvaða vandræðum hann sé staddr; hon segir honum skuli til reiðu sín hjálp, enn hon sé uggandi, hversu bóndi sinn verði við, því hann hafi verit vinr Styrs, enn vili þó freista, hvers hon fái við hann orkat; lætr Gest vera í útibúri um nóttina, svá enginn veit af, nema hon ok húskarlinn. Þórdís stendr snemma upp um morgininn áðr enn Halldórr; lætr hon allblítt at honum; hann mælir, at eitthvað muni undir þessu blíðlæti búa, ok muni hon vilja biðja sik einhvers; hon segir, at svá er, ok ef hann láti þessa bón eftir sér, vili hon í öllu geðþægja honum sem hon getr; segir, at frændi sinn Gestr sé þar kominn ok leiti hans liðsemdar, ok segir hann hafi vegit Styr í hefnd eftir föður sinn. Halldórr verðr óðamála, ok segir, at ef hann fái fest hendr á Gesti, skuli hann eigi lífs frá sér komast, er slíkt ódáðaverk hafi gert, at drepa vin sinn ok mesta höfðingja. Þar mátti ganga í kringum innan veggja. alt húsit, ok hengu tjöld fyrir sænginni; Gestr stendr á bak við tjaldit at höfði honum ok heyrir alla þeira viðræðu, ok kveðr þá vísu, þeirar meiningar, at hann væri búinn til at leika við hann sem Styr, ok rjóða

báðar kiðr hans í blóði; hestr hans stóð söðlaðr úti fyrir; hleypr hann strax á bak ok ríðr at Gilsbakka til Illuga svarta; heilsar honum ok segir hverr maðr hann sé. Illugi spyrr, hvat títt sé í ferðum hans. Gestr kvað vísu. Þá spurði Illugi hann, hversu mikinn áverka hann hefði veitt Styr; þá kvað Gestr:

(2) Var-at of sár — enn sáran
sák víga-Styr hníga —
böndum þörf at binda
— beit hjálmastöð þveita —
þás af brúnar beinum
báglunds goða mági
unda sœg í augu
allrauðan sák falla.

Biðr hann Illuga ásjár; tekr hann því eigi fjarri, enn telr at sér sé svá mikil fjölskylda á hendi, at hann treystist varla at halda hann með slíkum mannfjölda, sem sér sýnist við þurfa, ok biðr hann fyrst at fara til Bæjar ok finna Þorstein Gíslason. Ferr nú Gestr þaðan ok til Þorsteins; kemr þar á áliðnum degi ok drepr á dyrr; húskarl einn kemr til dyra; þann biðr Gestr at kalla Þorstein út. Þorsteinn kemr út ok spyrr Gest at heiti ok tíðendum. Gestr kvað vísu þess innihalds, at hann hafi vegit Styr, ok biðr Gestr hann nú ásjár. Þorsteinn kveðr sér stóran vanda á þessu, þar svá margir ok miklir eftirmælendr sé, ok ilt eitt muni hann hljóta af slíkum óhappamanni, ok er heldr enn eigi styggorðr. Gestr kveðr vísu, ok enn aðra. Þorsteinn segir sér sé enginn þokki á vísum hans. Gestr kvað enn. Þorsteinn biðr hann hætta því,

ok segir hann skuli þó vera hjá sér náttlangt. Um morgininn sendir hann Gest til Reykja, ok biðr Kleppjárn taka við honum. Kleppjárn telr Þorsteini þat skyldara, ok hafi hann aldri heitit at taka við nökkurum vandræðamönnum af honum. Verðr Gestr þar þá nótt; ferr þaðan til Þorsteins aftr, ok tekr hann þá vel við honum. Var hann ýmist með Illuga, Kleppjárni eða Þorsteini um vetrinn, þó lengstum með Þorsteini, ok höfðu þeir öruggan vara á sér allan þann vetr; var hjá Þorsteini sjaldan færa enn sex tigir karla um vetrinn. Líðr nú at várdögum.

Maðr hét Teitr, at illu einu kendr, ok var kallaðr fjalla-Teitr, því hann lá á fjöllum úti, ok lifði hann því líkara sem hann væri illdýri enn hann væri maðr. Kleppjárn var þar sveitarhöfðingi; hann hafði nýbreytni þá, at hann gerði mannsöfnuð at ná Teiti ok hafði hann í böndum; vissi enginn, hvar til þat skyldi, því hann hafði áðr aldri látit hafa hendr á honum, þótt hann væri þrátt um beðinn.

Nú er at segja frá Snorra; hann býr málit á hendr Borgfirðingum, enn þeir hafa búit til liðs fyrir fram, ef hann kæmi. Ferr Snorri heiman með flokk manna, enn gerir áðr orð vinum sínum, at koma til liðs við sik; ok þá þeir eru saman komnir, ríða þeir allir suðr í Borgarfjörð. Borgfirðingar höfðu njósn af ferðum hans ok hafa liðsafnað fyrir öllum vöðum út til sjávar, at verja þeim ána. Snorri kemr at ánni vestan fram við Haugsenda; hefir hann átta hundruð manna, enn Borgfirðingar tólf hundruð. Gestr kvað vísu um morgininn, áðr

hann ferr heiman. Snorri ríðr at ánni, ok biðr þá fram selja vegandann. Þeir svara, at nú hafi þeir svá við búizt, at honum muni eigi kostr, at draga Gest ór greipum sér. Með Snorra eru taldir upp hverir helztir váru ofrkappsmenn, er mest á fýstu at berjast, svá ok af Borgfirðingum, at við sjálft lá, at þeir mundu berjast yfir um ána; áttu þá margir góðir menn hlut í, at eigi skyldi svá mikill mannfjöldi berjast; riðu hvárirtveggju fram í ána. Enn Snorri reið fram í eina eyri, sem í var miðri ánni, ok kvað þat lög, at tala þar máli sínu, sem maðr kæmist lengst at hættulauss, ok stefndi Gesti um víg Styrs; hrjóta þá margar vísur ór flokki Borgfirðinga til Snorra, einna mest frá Gesti. Snorri kveðst eigi vilja gegna hákyrðum hans, ok sé eigi at undra, þó hann tali djarft ór flokki; sér hann þar áorkast ekkert í þetta sinn; snýr hann frá við svá búit, ok ferr vestr leið sína.

Nú líðr at alþingi. Stýrimaðr einn var þenna vetr í Reyðarfirði í Austfjörðum; nafn hans var Helgi; ætlaði hann til Noregs um sumarit; sá var góðr vin Kleppjárns. Þeir Borgfirðingar taka þau ráð, at senda honum Gest til utanferðar. Þá váru höfðingjaskifti orðin í Noregi, ok Eiríkr jarl Hákonarson kominn í stað Óláfs Tryggvasonar; í hans hirð var Þorsteinn son Síðu-Halls; hann var vinr Kleppjárns. Kleppjárn sendir honum orð sín at taka við Gesti, ok lætr þar með fylgja hring til menja, ef hann vill eigi trúa orðum Gests; leggr Þorsteinn ok Kleppjárn honum fé til farningar, enn Þórdís varð eigi örþrifráða; gefr hon honum gullhring ok þrjár merkr silfrs; skal

fjalla-Teitr fylgja honum austr, því honum váru allar leiðir kunnar; fara þeir austr fjöll um alþingistíma fyrir ofan allar sveitir; verðr því engi maðr þeira varr. Kemr Gestr þá til Helga stýrimanns ok tjáir honum sitt erendi ok orð Kleppjárns; tekr hann við honum vel, ok á Teitr með at fara; býðr Helgi Gesti mestan varnað á, at láta nökkurn ar skipverjum sínum verða varan við, hverr maðr hann sé, því þar sé nökkurir vinir Styrs á skipinu. Lofar Gestr fögru um þat, ok svá gengr nökkura daga; enn þat efndist þó eigi betr enn svá, at einn dag, er Gestr sat á bulka, kvað hann vísu, hvar af skilja mátti, at hann var vegandi Styrs; enn þá skipsmenn vissu þat, hlupu þeir upp ok ætluðu at honum, svá at Helgi varð at gefa þeim fé til að leggja ekki til hans ilt; var síðan alt kyrt í ferðum þeira; leggja þeir í haf ok gefr vel byri, ok koma til Noregs. Jarlinn var þá staddr í Þrándheimi og Þorsteinn þar með honum. Lætr Helgi Gest aldri við sik skilja; ferr et snarasta á fund Þorsteins ok færir honum Gest með orðum Kleppjárns. Þorsteinn tekr því seinlega, fyrr enn hann sér jartegnirnar; segist þó eigi voga, at láta hann þar lengi vera vegna vina Styrs. Skilst nú Helgi við Gest ok afsalar sér, enn Teitr ferr með Helga, ok er hann ór sögunni. Gestr er um vetrinn með Þorsteini; enn um várit sendir Þorsteinn hann til einnar ríkrar ekkju, er bjó norðr í Fjörðum, at menn yrðu hans síðr varir. Eigi hreyfir Snorri þessu máli á alþingi. Nú vita menn óglögt, hvat ór Gesti er orðit fyrst í bráð; var því eigi samsumars utan farit.

11. Um vetrinn kemr þat upp, at Gestr muni af landi farinn; eykst sá orðrómr svá mjök, at menn hafa þat fyrir satt. Þorsteini Styrssyni þykkir sér skyldast at gera hefndina; ferr hann um sumarit til Noregs ok hefir vel fé með sér, ok gerir sér menn vinholla með því um vetrinn; fær hann þá upp spurt, at Gestr er með ekkjunni. Um várit ferr hann norðr þangat, ok eru þeir saman seytján á skipi; svá var til farit, at ekkjan bjó at fjarðarbotni. Einn dag, er Gestr var róinn á sæ at togfiski, koma þeir Þorsteinn seint um kveld í fjörð þann, er ekkjan bjó í, ok váru alls ókunnir leiðinni; róa þeir skipinu á sker, svá at hvolfir undir þeim, enn komast þó allir á kjöl. Gestr var við annan mann á bát, ok sér þetta; róa þar at, sem mennirnir eru á floti; spyrr Gestr, ef þeir vili björg hafa; þeir játa því fegnir. Gestr segist því ráða vilja, hvat marga eða hverja hann taki í hvert sinn á bát sinn at flytja til lands; tekr Gestr eigi fleiri enn tvá um sinn, ok ætlar svá til, at Þorstein tekr hann seinast; sitr hann í öðrum stafni, enn Gestr í hinum, ok hafði yfir sér loðkápu; þekkir þá hvárr annan. Þorsteinn mælti, at nú hafi þeir svá fundizt, at hann hefði kosit at öðru vís hefði at borit. Gestr mælti: „Í öndverðu þekta ek þik, ok því vilda ek ráða, hvat mörgum yðar ek bjargaði í hvert sinn; vána ek þú munir eigi launa mér því lífgjöfina at sækja eftir lífi mínu“. Geta þeir nú eigi fram komit hefndinni um kveldit, ok þurfa greiða eftir þenna hrakning; veitir ekkjan þeim hann, ok eru þeir allir ásamt þá nótt; enn þá hon veit þeira erendi, átelr

hon þá stórum, at þeir leiti eftir lífi manns síns fyrir litlar sakir, ok launi þannig illu gott; vogar þó eigi at láta Gest vera þar um nóttina, ok sendir hann einum ríkum bónda, sem Eiríkr hét, upp á Raumaríki, hersir at nafnbótum; þangat ferr Gestr. Enn þeir Þorsteinn ok hans félagar standa upp um morgininn ok leita Gests, enn finna hvergi; segir ekkjan, at eigi muni þeim auðit at hitta hann þat sinn. Fara þeir við svá búit heim aftr, ok þykkir ferð sín orðin allframkvæmdarlítil. Nökkurum tíma síðar fréttir Þorsteinn, hvar Gestr er niðr kominn; ferr nú þangat ok kemr þar einn morgin snemmendis; barr þá svá við, at Gestr var genginn til vatns at þvá sér; stóð sinn hvárum megin. Gesti brá eigi vara fyrir Þorsteini; enn Þorsteinn höggr með öxi, sem hann huldi undir skikkju sinni, til Gests ok stefnir á hann miðjan; bar höggit út af síðunni; skeindist Gestr lítit, ok var þat svöðusár. Bóndi vill þegar taka Þorstein ok láta drepa. Gestr biðr hann gera þat eigi; segir, at Þorsteinn þykkist eiga hefnda at leita, — „ok mun mér þetta fyrir engu standa álengdar"; — ok fyrir bænir Gests verðr þat, at Þorsteinn er lauss látinn, ok þykkir honum nú þessi ferð hálfu ófrægilegri enn en fyrri; verðr þó svá búnu at una, ok ferr heim. Gestr sér, at hann getr eigi við haldizt í Noregi fyrir umsátrum Þorsteins, ok ferr at vári komanda suðr í Miklagarð, ok gengr þar á mála með Væringjum; ætlar sik þar heldr óhultari verða. Þorsteini kemr njósn af þessu, ok ferr sama sumar út til Miklagarðs. Enn þat er siðr Væringja ok Norðmanna, at vera at leikum

á daga, ok gangast at fangbrögðum; Þorsteinn gefr sik í flokk þeira; enn Gestr þekkir hann nú eigi, bregðr ok eigi vara fyrir honum. Gengr Þorsteinn til fangs við hann, ok í því bregðr hann saxi undan skikkju sinni, ok mundar til höfuðs á Gesti, enn svá tókst til, at á öxlina kom, ok var þat ógeigvænlegt sár; sannast hér þat fornkveðna, at ‚eigi má ófeigum bella', ok skeindist Gestr lítit. Væringjar hlaupa upp þegar, ok er eigi annars kostr enn Þorsteinn sé þar strax drepinn, því þat váru lög hjá þeim, ef annarr veitti öðrum banatilræði, þá þeir váru at leikfangi, skyldi sá fyrirgera lífinu. Gestr fellir bæn at Væringjum, og gefr þeim hálft fé sitt Þorsteini til lausnar; segir þeim allan málavöxt ok biðr Þorsteini griða; eiga þar ok nökkurir menn hlut at, at honum sé líf gefit, ok gerðu þat þeir menn, er tæðu máli Þorsteins at vilja Gests, er vissu ættarferð Þorsteins. Nú er Þorsteinn lauss gefinn; biðr Gestr hann nú at láta af at sitja um líf sitt oftar, þar hann megi sjá, at honum verðr eigi auðit at koma sér af dögum, ok fari þat mjök at málavöxtum, því hann hafi eigi sakalaust vegit Styr. Þorsteinn heitr því, enn biðr Gest aldri at vitja á Norðrlönd aftr; ok því heitr Gestr ok efndi. Er nú Þorsteinn orðinn félauss eftir alt þetta, ok gefr Gestr honum fé til ferðarinnar ok skiljast nú sáttir. Ferr Þorsteinn nú til Noregs aftr, ok er þar næsta vetr eftir; ferr um sumarit til Íslands, ok þykkir frændum hans ferðin næsta gæfulítil orðit hafa. Enn Gestr kemr aldri á Norðrlönd; þótti þar dugandi drengr, er hann

var, ok er eigi getit, hvárt nökkut manna sé frá honum komit. Þorsteinn sezt at búi undir Hrauni eftir föður sinn ok bjó þar alla ævi upp þaðan. Nú eru þrír vetr liðnir síðan Þorsteinn fór utan í föðurhefndirnar, ok eru þeir Gestr ór sögunni.

Nú þykkir Snorra halla máli at sér, þar Þorsteinn bar eigi auðnu til at koma fram hefndunum; hugsar nú um, hversu hann skuli með hægasta móti ok minstri mannhættu vinna á Borgfirðingum, frændum Gests, er honum höfðu undan skotit; taka þeir nú til at verða nökkuru óvarari um sik enn áðr, síðan svá mjök frá liðr falli Styrs. Svá hafði til borit, at þrjú skip höfðu komit af hafi um sumarit á Eyrum; var eitt þeira lekt ok öldungis ófærandi á sjó; þat seldu kaupmenn Þorsteini Gíslasyni, ok þessa varð Snorri víss; þá kaupstefna er sem óðust, sendir hann frá Sælingsdalstungu tvá menn á Eyrar suðr, at njósna um heimaveru Þorsteins ok Borgfirðinga; annarr þeira var Kolskeggr á Lambastöðum, ok biðr þá gera sem minst vart við sik eða sitt erendi, né leggja þar ilt til nökkurs manns, enn taka sem grandgæfilegast eftir öllu því, sem þeir heyra talat at þessum mönnum lútandi. Þeir gera svá; eru þar tvær nætr ok gera lítil kaup; ríða et skjótasta heim vestr at Sælingsdalstungu, ok segja Snorra, at Þorsteinn Gíslason hafi keypt et ófæra skipit, ok ætli at draga þat í sundr á miðvikudag, enn sveitarmenn skuli flytja viðinn heim á mánadaginn næsta þar eftir, innan þriggja vikna, ok sé Þorsteinn eigi margmennr heima um þessa daga. Snorri sendi orð vinum sínum ok mágum út í Eyrarsveit, at þeir skulu

hittast þann dag, er sex vikur eru til vetrar, enn Snorri sendir at tvímánuði sumars, ok skuli þeir hittast í Lækjarskógi í Dölum.

12. Snorri tekr dagverð at miðjum morgni, ok standa hestar þeira söðlaðir; hann átti þrjá sonu; hét einn Halldórr, annarr Guðlaugr, var hann þeira elztr, ok Þórðr sá yngsti; var hann þá níu vetra, ok skal hann með fara. Guðlaugr var jafnan heima, ok lét Snorri hann sjálfráðan, hvat hann starfa vildi; var hann eigi heldr mikit laginn til vinnu; hann var siðprúðr ok bænrækinn ok helt vel trú sína; átti ok ekki ilt við fólk; var hann því eigi lyndislíkr hinum bræðrum sínum, enn þeir váru glensmiklir ok köstuðu fyrir þetta spotti at honum. Snorri gengr til kirkju, er hann hafði þar gera látit; skein þá sól ór austri; ok er hann gengr inn, mætir hann Guðlaugi; ætlar hann þá út at ganga, ok hefir á bænum verit eftir venju sinni. Snorri mælir, hvárt hann vili eigi fara með sér at hefna móðurföður síns. Guðlaugr svarar, at hann ætli svá muni vel mannat, at eigi þurfi síns liðs við, ok hafi hann eigi skift sér af vígaferlum hingat til; megi faðir sinn ráða því, enn helzt vili hann þó heima sitja. Snorri mælti: „Ek hefi eigi kallat at þér um verk þín hingat til, og skaltu þeim sjálfr ráða upp frá þessu, ok er mér vel um gefit þú hvergi farir, ok rækir þína siðu“. Svá hefir Snorri frá sagt, at hann hafi aldri slíka manns ásjónu sét sem Guðlaugs sonar síns, er hann mætti honum í kirkjunni; hafi hann þá verit rauðr sem blóð at sjá í andliti, ok hafi sér svá sem nökkur ógn af staðit. Guðlaugr fór nökkurum vetrum síðar til

Englands; gaf faðir hans honum fé með sér; gekk hann þar í munkaklaustr, færði siðugan lifnað ok þótti hinn bezti klerkr alt til dauðadags. Snorri ríðr nú heiman ok fylgdarmenn hans; hittust hann ok hinir þar í Dölum, sem ráð var fyrir gert; ríða síðan allir saman suðr Bröttubrekku; var þetta á laugardegi; hallar þá mjök at kveldi, er þeir koma suðr af fjallinu; ríða þeir þá fyrir ofan bæi. Þá mælti Snorri: „Eigi þykkir mér at, þó at nú kæmi þoka“. Ríða síðan suðr Hvítársíðu; þá var þoka yfir heraðinu ok vindr af hafi ok úr við; þeir láta nú taka niðr hesta sína ok æja; ríða þar eftir nökkura stund; tekr þá til at elda aftr ok heiða upp þokuna, ok sá tíðendi yfir heraðit. Eigi var fleira manna heima á bæ Þorsteins enn synir hans, piltr einn ok kona sú, er embættir fé. Þar eftir ríða þeir yfir ána, ok þá koma þeir svá nærri, at sjá mætti gripi við bæ Þorsteins; spyrr Snorri, hvárt þeir sjái fleiri enn þrjá hesta þar heima við túnit, svá sem sér sýnist; þeir segjast eigi fleiri sjá. Þá mælti Snorri, at eigi mundu þeir mannmargir heima vera. Ríða nú at bænum, ok þá er sól nýrunnin upp, ok sjá þeir slóðina eftir sér, er þeir gert höfðu um nóttina yfir ána. Þeir Snorri stíga af hestum sínum á bak við húsin; segir hann einum, er með honum var, at hann skuli fara upp á skálavegginn hægra megin, því þar hefir hann spurt at Þorsteinn liggr undir, ok segir honum at reyta þekjuna ok slíta grasit seint, ok taka fast og jafnt í, líka sem hestr biti. Maðrinn gerir svá. Þorsteinn vaknar ok kallar til smalapiltsins, ok segir hann muni ofskamt hafa

rekit hestana frá í gærkveldi, ok skuli hann fara at reka þá. Hann anzar at eins ok sofnar aftr. Enn heyrir Þorsteinn, at eitthvat nagar þekjuna; kallar aftr til piltsins, enn hann sofnar aftr. Ferr þá Þorsteinn á fætr út at forvitnast um þetta, ok er í línbrókum einum; ok þá hann kemr út ór dyrunum, litast hann um ok verðr við ekkert varr, ok vill nú skygnast víðar at í kringum húsin. Í því bili hlaupa þeir Snorri at honum; er þar ekki at sökum spurt ok engu orði kemr hann fyrir sik; leggja þeir at honum fjórir í einu; kemr eitt lagit í kviðinn, ok fellr hann strax; draga þeir hann nú upp at veggnum, ok bíða þar úti hljóðlega. Lengist nú Þorvarði, at faðir hans kemr eigi inn, ok gengr út; kemr hann engri vörn fyrir sik, ok ferr á sömu leið. Annarr son Þorsteins var ok heima; hét hann Sveinn, ok var níu vetra gamall; lengist honum föður síns í bæinn, ok heyrir eitthvat hark úti; veit ok eigi hvat um er; kemr hann út í dyrnar, ok er honum svefn í augum. Snorri mælti við son sinn, Þórð kausa: „Sér köttrinn músina? Ungr skal at ungum vega". Þórðr fóstri hans mælti: „Þat skal aldri ske, at svá ungr sveinn sé veginn, ok skulu vit undir eins falla báðir". Snorri segir hann skuli ráða, þó sér sé grunr, at sá sveinn muni einhvern staðar höggva í ætt sína. Bera þeir nú líkin saman í eina kös þar í túninu; skiljast við svá búit ok hraða sér í burtu; var þetta á litilli stundu gert; lýsa víginu á næsta bæ; ríða nú upp með ánni og yfir í Hvítársíðu ok upp frá bæjum; stíga þar af hestum sínum ok taka atfang, ok leggjast niðr ok

hvíla sik ok hesta sína. Fylgdarmenn Snorra telja þetta óvitrlegt, at leggjast niðr í grashögum skamt frá bæjum; enn Snorri segir eigi muni til saka; liggja þeir þar fram yfir miðdegi ok finna smalamann einn. Snorri biðr hann bera kveðju Borgfirðingum frá Snorra goða, ok segja þeir hafi nú gert sér greiðara fyrir enn næst. Ríða síðan vestr fjöll ok hverr heim til sín, ok þykkir förin vel hafa gengit.

Nú er at segja hvat gerist á bæ Þorsteins. Kona hans kemr heim ór seli sama drottinsdags morgin, lítilli stundu eftir þat þeir Snorri eru burt riðnir, ok ætlar at færa þeim feðgum hreinar skyrtur; tvær dætr hennar ungar eru með henni; ríða þær nú at túngarðinum ok stíga þar af baki, ok biðr hon þær at bíða sín þar. Hon gengr heim at bænum, ok sér þar vegs ummerki; ok þá hon hefir litit á hverir þar liggja vegnir, gengr hon burt ok stígr strax á hest, og getr eigi um fyrir þeim, hvat hon hafi heima sét. Þær spyrja, hvat valdi at hon komi svá skjótt aftr. Hon kveðr erendit eigi hafa krafit lengri tafar; ríðr nú sem skjótast til næsta bæjar, sem heitir Kelda, ok hittir þar klerk einn, frænda sinn, sem Eldjarn hét, ok segir honum tíðendin; bregðr hann við strax ok tekr menn með sér at sjá líkin; sendir boð á næstu bæi, ok flýgr nú þegar þessi viðburðr um Borgarfjörð, ok er at vörmu spori farit at leita Snorra, ok þeysast vestr um Hvítársíðu, þann veg er líkast þótti at hann riðit hefði, ok hafa þeir eigi af honum. Fell þeim nú allilla, at Snorri gekk svá ór greipum þeim, ok þá enn fremr, er þeir fréttu hann hefði legit þar í

búfjárhögum um daginn, ok virðist þeim nú Snorri helzt til slægr orðit hafa; settu þeir þá í lög sín, at hverr maðr skyldi vera skyldr at leita strax um landeign sína at veganda, ef víg væri vakit innan heraðs. Líðr nú vetrinn eftirkomandi ok fram at alþingi, ok búa þeir eftirmálin Borgfirðingar, ok váru eigi þeir aldauða, er fylgdu at þeim málum. Eru nú þessi mál uppi höfð á alþingi, ok heldr Snorri svari vegna manna sinna, ok er hann ljúfr at svara fébótum; gengr sá dómr á málit, at víg Styrs ok Þorsteins skuli fallast í faðma, enn synir Þorsteins bættir þrem hundruðum silfrs, ok helt Snorri uppi fébótum fyrir menn sína; skulu fjórir þeira fara af landi burt, og vera fyrir utan þrjá vetr. Greiðir Snorri bætrnar á sama þingi, enn hinir fara samsumars utan, er til váru dæmdir. Lyktar nú þannig þessum málum at sinni.

13. Guðmundr hét maðr; hann bjó í Ásbjarnarnesi á Vatnsnesi; Guðmundr hafði verit enn mesti garpr ok röskvasti drengr, enn var kominn í elli þá er þessi saga gerðist; hann átti þrjá sonu; Hallr hét sá elzti, Barði annarr, þriði Steingrímr. Hallr var í kaupferðum jafnan, spakr at viti ok enn bezti drengr. Svá bar við, þá hér var komit sögunni, at hann var staddr í Noregi sem oftar, næsta sumar eftir fall Þorsteins. Í Björgvin váru fyrir þeir Hárekssynir, ok spyrja þar til Kolskeggs, sem fyrr er getit at fylgdi Snorra at drápi Þorsteins; þá Hárekssynir urðu hans varir í bænum, leituðu þeir hans, at þeir gæti hefnt á honum fyrir víg Þorsteins; hann var ok mágr Snorra. Kolskeggr leitar undan; enn þeir ná fjárhluta hans,

enn honum eigi; þetta var um várit; er hann nú félaus og farþurfi; falar allstaðar far, enn fær hvergi; hittir Hall ok biðr liðs; kvartar um hrakning sinn ok bágendi. Hann gefr honum skip sitt ok nökkurn kaupeyri, svá hann kemst undan, ok ferr til Englands. Hallr leitar sér nú fars til Íslands ok fær hvergi; ferr hann út til Þrándheims, ok finnr þar mann, er Þorgils hét; þeir höfðu átt félag saman fyrri, enn höfðu þá skilit; Hallr biðr hann fars; hinn tekr því treglega. Hallr mælti, at hann vænti bezt til hans hjálpar, því þeir hefðu mælt þat fyrrum, þá þeir váru í félagi saman, at hvárigir skyldi hendr við öðrum bægja, ef annarr þyrfti hins liðs í nauðsyn. Þorgils lætr þá til leiðast, at hann fái farit, þó eigi með öðrum kosti enn hann kaupi skipit hálft af sér, ok þetta gerir Hallr. Hárekssynir spyrja, at Hallr hefir undan skotit Kolskeggi ok sé skipráðinn hjá Þorgilsi; sjá þeir, at þeir hafa mist mannsins, ok snúast at Halli. Verða þeir Hallr síðbúnir; svá skjótt sem byr rann á, leggja þeir út undir ey þá í Þrándheimi, er Fólksn heitir, ok liggja þar nökkurar nætr fyrir byr. Bóndi einn lítill bjó í eyjunni; hann var vitlítill ok vesalmenni; hann átti þar allgóðan skóg. Skipverjar þeira Þorgils fóru þangat ok hjuggu sér efnivið; enn bónda líkaði illa ok knurraði um. Þeir Hárekssynir fá njósn af, at þeir Hallr liggja undir eyjunni; taka sér nú lítinn bát ok róa þangat átta saman frá skipi sínu um nótt upp at eynni annars vegar; tala við bónda ok spyrja, hversu spakir kaupmenn séu, eða hvárt stýrimaðr sé á skipi jafnan. Hann segir þeim alt

af létta, at þeir sé óspakir ok geri sér miklar skemdir á skógi sínum, enn Hallr banni þeim; því sé sér bezt til hans þokkat. Þeir láta sem þeir eigi leyndarmál við Hall at tala; slá til kaups við bónda ok gefa honum hálfa mörk silfrs, ef hann geti komit Halli á sinn fund, svá at eigi sé aðrir við staddir. Bónda grunar, at hér muni prettir undir búa, enn þykkir þó fagrt féit; tekr við ok lofar þessu; ferr þar eftir til Halls ok hrósar góðmensku hans, er hann banni at spilla skógi sínum; vili hann nú launa honum með því, at gefa honum lof til at höggva sem honum líkar þar beztr er skógrinn, ok skuli hann koma með sér. Hallr gegnir þessu fálega í fyrstunni; leiðist þó til við fagrmæli bónda ok fylgdist með honum í rjóðr eitt þar beztr var skógrinn. Eigi höfðu þeir þar lengi staðit, áðr bóndi gengr frá Halli, skilr hann þar einan eftir ok læzt nökkut hafa erendi. Enn þá bóndi er burtu, hlaupa þeir Hárekssynir allir saman ór launsátrinu at Halla ok vega þar strax at honum, svá þar skifti engum orðum, ok engri vörn kemr hann fyrir sik; vega þeir hann þar, hylja hræ hans ok róa þar eftir í skyndingu burt. Skipverjum Halls þykkir seinka aftrkvámu hans; spyrja bónda, hvar hann hafi skilist við hann; enn bóndi lætr sem hann hafi gengit frá sér í skóginum; trúa þeir honum illa, taka hann ok kúga til sagna, svá at hann verðr at láta et sanna uppi; vísar hann þeim hvar hann gekk seinast frá honum; finna þeir Hall þar dauðan ok dysja hann, enn festa bónda þar jafnskjótt upp. Hárekssynir þykkjast nú nökkuru hafa á veg komit um hefndirnar;

fara sem skjótast suðr með Noregi ok alt til Danmerkr, ok at áliðnu sumri brjóta þeir skip sitt í spán við Jótlands síðu, svá enginn af komst.

14. Þorgils sér, at torsótt muni at leita vegandanna; tekr fjárhlut Halls allan ok hirðir, ok lætr í haf þá byr gefr; fá þeir um sumarit mótviðri stór ok eiga harða ok langa útivist; um vetrnætr taka þeir höfn í Austfjörðum í Vápnafirði, ok vistar Þorgils háseta sína þar í kringum sik um vetrinn, ok leggr ríkt undir við þá at leyna dauða Halls; hann var maðr spakr ok hægferðugr. Um sumarit ferr hann til þings ok hefir með sér fé Halls; hafði þá enginn spurt þessi tíðendi. Guðmundr faðir Halls var á þingi. Þegar líðr at þinglokum, gengr Þorgils einn dag til lögbergis ok hefr þar upp alla sögu um víg Halls, enn hásetar hans sanna með honum; hefir hann þar fé hans ok vill afhenda. Þessi fregn fær Guðmundi svá mikils harms, at hann gengr þegar til búðar sinnar ok legst, enn Barði er fyrir svörum; spyrr hann Þorgils, hví hann hafi leynt þessu svá lengi. Þorgils kvað sér sýnast þetta mál til nógra vandræða horfa, þó eigi hefði hann þess fyrr getit, þar sem slíkir menn ættu hlut at; þar með hefði hann viljat bíða, þar til bærist sönn afspurn um þessi tíðendi af öðrum mönnum. Barði kvað hann gert hafa vitrlega, — „ok hefir þú haft vel ok drengilega ór þessum málum“ — býðr honum at eiga fé Halls, sem hann meðferðis hafi; enn Þorgils neitar þverlega ok vill ekkert af hafa; segir, at svá kunni falla, at þeir þurfi sjálfir fjár síns um þat þetta mál sé til lykta. Barði vill hann haldi

þá hálfu, ok þat verðr af. Þá Guðmundr kemr heim af þingi, spyrr Þuríðr kona hans, hvat tíðenda sé af þingi; hann andæpti mæðilega ok kvað vísu um fráfall sonar þeira; hon anzar með annarri; legst þessi harmr svá mjök á Guðmund, at hann lifir eigi lengr enn mánuð. Um haustit berr svá við einhverju sinni, at Barði sezt í sæti þat, sem Hallr var vanr í at sitja, þá hann var heima, ok sat hann þá þeira bræðra efstur. Móðir hans kemr inn, ok þá hon sér þat, rekr hon honum gildan kinnhest ok skipar honum at skreiðast burt ór sætinu sem bráðast, ok vera eigi svá djarfan, at setjast í sæti Halls, meðan hans sé óhefnt. Barði segir svá skuli vera. Um haustit frétta menn nú allstaðar at þessi tíðendi um víg Halls; einnig um fráfall Hárekssona; þykkir nú mörgum vandast við þat málit. Þorgils seldi skipit hásetum sínum ok létti kaupferðum; tók sér bú í Borgarfirði, ok settu Gíslungar nökkut við úfa honum; hefir hann þat til tals við þá, ok kveðr þeir eigi sik einskis at kunna; verðr at því lítit mark at svá stöddu.

Nú er þar til máls at taka, at Barði hugsar um eftirmælit. Þórarinn hét maðr, spakr at viti ok framsýnn, er bjó á Lækjamóti í Víðidal; hann var fóstri Barða. Nú líðr fram at alþingi sumarit eftir. Um leið ok Barði ríðr á þing, finnr hann Þórarinn fóstra sinn at máli, ok spyrr nú hversu reisa skuli málit. Þórarinn mælti: „Þér eigið um mikinn vanda at mæla, ok þarf hér þolinmæði við, því at jafnan eru margir at frændsemi“; ræðr honum at biðja Hárek bóta fyrir sonu sína á

næsta alþingi, ok þó hann fái engar bætr, megi hann eigi láta sér leiðast, ef hann vili sínum ráðum hlíta, ok muni allir þetta vel virða. Barði hefr upp þessa bótabeiðslu á þingi. Hárekr var engi orðamaðr; hann hafði þá brugðit búi ok afsalat fé sitt bróður sínum Kleppjárni; svarar hann því, at hann hafi engi fjárforræði, ok geti því engar bætr goldit; vísar hann því máli til frænda sinna, ok fær Barði ekki frekara svar at því sinni, ok ferr við svá búit heim. Annat sumar leitar Barði enn ráða til Þórarins; svarar hann, at á sömu leið skuli at fara sem et fyrra sumarit; kveðr hér þurfi þolinmæði við at hafa, ok muni et þriðja sumarit verða vissara, hvar þeir skuli atgang eiga, ef eftir hugboði sínu ferr; enn nú sé margir jafnkomnir at frændsemi. Barði gerir svá; hefr upp enn þetta mál áðr þingi slítr, ok talar á þessa lund: „Mönnum mun kunnigt, at vér eigum ofmikil vandræði at vera, þar nú er sannspurt, at Hallr bróðir minn er lífi minnr; beiddum vér bóta af Háreki, föður vegandanna, hér í fyrra sumar, ok var oss engi órslit veitt, ok mun því flestum virðast, at vér berum skarðan hlut fyrir yðr; nú ítrekum vér sömu beiðni, ef þér vitið, hverju nú skal heldr svara“. Háreks var ekki við kostr, ok stóð honum elli; enn hverr hinna, sem á þingi váru, stungu höfðum hverr at öðrum, ok ferr alt á sömu leið sem fyrra sumarit; enn allr þingheimrinn lofaði hversu spaklega var at málinu farit. Gísli hét maðr, son Þorsteins; hann var í kaupferðum löngum, ofláti mikill ok óvarr í orðum; þetta haust

kemr hann út, ferr heim í Borgarfjörð til frænda sinna ok fréttir af þessum málum. Þriðja sumar, áðr Barði ferr á þing, ríðr hann heim at Lækjamóti, ok spyrr Þórarin, hversu nú skuli at fara. Þórarinn mælti, at nú yrði hann enn at biðja bóta sem fyrr; skyldi hann eigi oftar ráða honum til þess; sagði hann nú vera þann mann kominn, sem hann hefði eftir beðit; þat var Gísli - „spyrst mér svá frá Gísla, at hann er bráðskeyttr til máls at taka, frígjarn ok of kapp; segir mér svá hugr um, at hann muni einhverju því svara, at auðgengara verði at málinu eftir enn verit hefir“. Barði kvað sér þykkja mikit fyrir at biðja þá enn bóta, enn kvað þat mundu þó verða vera, því hans ráð mundu sér til bezta koma. Narfi hét maðr, frændi Gíslunga; hann var mesti illhreysingr ok ofstopamaðr, rammr at afli, lyginn ok ójafnaðarfullr at öllu; við alla menn lynti honum illa, enn þó verst við frændr sína; barði hann á mönnum, ef hann fekk eigi þat hann vildi, ok tók af þeim, er hann mátti; var hann í ýmsum stöðum um land ok eirði hvergi. Þórarinn bað Barða fyrir kost ok mun at fá þann mann norðr með sér, ef hann væri á þingi, ok kvað til nökkurs koma mundi. Barði kemr á þing; þar er Gísli ok fleiri frændr hans Borgfirðingar. Barði gengr til lögbergis einn dag á miðju þingi ok mælir: „Svá er við vaxit, at ek hefi hér tvisvar beðit bóta fyrir víg Halls bróður míns; beiddi mik þar nauðsyn til, ok var í hvárttveggja sinn gefinn lítill gaumr at máli mínu; nú sýnist mér þar nökkurrar órgreiðslu ván, er þú ert, Gísli, svá ek þurfi eigi

lengr at velkjast í þessum vafa; munu ok flestir þat mæla, at vér eigi förum með mikilli frekju at málinu, ok er yðr því skyldara góðu at svara". Engir anza fyrr enn Gísli; hann mælir ok styðst á spjótskaft fram: „Vér munum verða nökkuru at svara, alls þú rekr þitt erendi, ok þú hefir berlega á mik kveðit, þó ek þykkist nökkut þverkominn við málit. Í fyrra sumar á Englandi var ek í þeim stað, er heitir at Þúfusteini; þar sat ek á torgi ok hafði nökkuru silfri at verja; lá þar hjá mér sjóðr einn, sem í váru sjau merkr silfrs; riðu þar um torgit nökkurir óskynsamir menn, ok varð einum þat fyrir, at hann kyntist til við mik ok stakk spjóti sínu við sjóð mínum ok rendi upp á, ok reið með það burt; hafða ek ekki þar af; vísa ek þér þar til bróðurgjalda; þykkir mér þat at glíku sem þetta mál, því þat silfr tel ek vera á vandarveifi, ok munu vér þar eigi önnur fé til leggja". Eiðr mælti Skeggjason: „‚Segja skal þursi, ef hann sitr nökkviðr við eld', ok er illa ok óvitrlega undir tekit, at svá stórir menn sem nú eigu hlut at". Gísli svarar: „Hér sannast þat, sem mælt er: ‚Výlir fjarri, enn verr sjaldan'; ok er þat þín at ván, at halda svá svari frænda þinna, sem nú má heyra" — ok hleypr í brigzlyrði við Eið. Nú mælti Eiðr: „Eigi hirðum vér at skattyrðast við þik". Gera menn nú mikinn róm at máli Barða, ok þykkir þunglega svarat með slíku spaklæti sem þessa er beiðzt.

15. Helga hét ekkja ung; hon bjó vestr í Dölum; hennar bað maðr sá, er Grímr hét. norðan ór

Eyjafirði; konan var í ætt við Kleppjárn. Maðrinn var á alþingi, ok var honum konan föstnuð; skyldi brullaupit standa hálfum mánuði fyrir vetr um haustit. Barði kom eitt sinn at búð Kleppjárns, ok mæltu þeir þar mundmálum; þar sá Barði Narfa, ok kom Barði sér brátt í tal við hann ok býðr honum heim til sín, ok þat þáði Narfi. Þá Barði kemr af þingi, talar hann við Þórarin ok segir honum af málum sínum, ok sér þykki þunglega á horfast. Þórarinn mælti: „Nú er svá komit sem ek vildi; er þat nú í þreytt, at svá sýnist vitrum mönnum sem okkr, ok er nú óvandara enn fyrri at sjá, hvar at skal ganga um hefndina. Barði bað hann fyrir sjá. Sá maðr var þat sumar í þingför með Barða, sem Þórðr hét, bóndi á Másstöðum í Vatnsdal; hann átti tvá hesta alhvíta, nema á eyrunum, þar váru þeir svartir; þóttu honum hestarnir slíkt metfé, at hann vildi þá eigi missa fyrir aðra hesta. Þat hafði Þórði orðit til farreks, at hestar hans báðir váru í brottu. Narfi verðr eftir á Lækjamóti, tekr Þórarinn á móti honum ágætavel, svá Narfa þykkir leika í lyndi. Þórólfr hét maðr, er bjó á Sleggjulæk í Borgarfirði; hann var nú mjök hniginn á enn efra aldr, enn hafði verit enn gildasti garpr í æsku sinni; konu átti hann sér; váru þau alltíð ósamþykk, svá at sitt vildi hvárt; var hon óðmálig mjök ok meðallagi vitr; hann átti vápn góð í hirzlum sínum, er hann hafði eigi á haldit síðan hann létti vígaferlum. Nökkuru síðar kemr Þórarinn á tal við Narfa, ok spyrr, hversu honum sé vingat við frændr sína. Hann svarar, at

lítill sé vinskapr þeira á millum. „Muntu vilja slá kaupi við mik?“ segir Þórarinn; „mér er sagt, at Þórólfr frændi þinn eigi sverð gott, ok getir þú sótt mér þat, vil ek gefa þér stóðhross væn“. Narfi vill þat gjarnan. Þórarinn selr honum í hendr stóran kníf, er hann skal gefa konu Þórólfs til at vera með sér í fylgi — „er mér sagt, at vápnin ęru sigrauðig“, segir Þórarinn; „mun þik eigi bresta at ljúga, hvat þér sýnist haganlegast, hvar fyrir þú biðir vápnanna“. Narfi bað hann at vera þar um óhræddan, ok gengr fúss at kaupinu; hleypr síðan suðr um heiði ok kemr um kveld ofan í Hvítársíðu til eins frænda síns, er bjó á Veggjum; er þar um nóttina ok biðr hann at ljá sér vápn, ok segir at einn austmaðr norðr í Öxnadal hafi skorat á sik til einvígis út af konu einni, er báðir vildu hafa, ok sé stefnudagrinn at hálfs mánaðar fresti, ok fái hann hvergi vápn; segir hann þat líklegasta til um náttstaði sína. Hinn svarar, at þetta muni alt lygi, ok fái hann engi vápn hjá sér. Líkar Narfa þat allilla, ok hleypr yfir til Þórólfs, sem sverðit hafði, ok segir honum, hvat hann á um at vera, ok til náttstaða sinna, sem á fyrri bænum; var vel við honum tekit at eins; biðr hann Þórólf at ljá sér vápn, ok kveðr sér aldri meiri nauðsyn á vera enn nú. Þórólfr kvað sér annat nær enn skifta sér af, þó hann geri sér illendi við menn, ok megi hann sjálfr annast sín kvennamál, ok eigi muni hann sleppa við hann sverðinu. Ferr Narfi þá til konu hans ok tjáir henni mál sitt, ok gefr henni knífinn. Hon tekr við ok þykkir þing í vera;

hleypr sem skjótast til karls síns, ok er næsta óðmálug; kveðr þat skömm mikla, at vilja eigi duga nauðstöddum frænda sínum — „eða hvat skal fretkarli þínum svá gott vápn, þarstu er kominn af fótum fram?“ — ok kveðr þat liggja ryðgat á kistubotni, ok muni nú lítit gagn í vera. Hann svarar sem fyrri, at honum sé eigi þat um Narfa gefit, at hann sleppi vápnum sínum við hann, ok telr þat mangi munu gert hafa, at klækjast á við hann; ferr hon þá ok brýtr upp hirzluna, sem sverðit lá í, ok selr í hendr Narfa; enn hann strýkr þegar norðr ok fær Þórarni. Þórarinn kveðr hann vel hafa rekit erendit, ok biðr hann taka hrossin ok fara norðr fyrst um stund, at firrast fund frænda sinna. Narfa þykkir gjöfin góð; ferr með hrossin burtu, ok er hann ór sögunni. Þeir Gíslunger þrír bræðr höfðu einn teig við Hvítá at slá, ok gengu at því verki allir samt, ok skyldi teigrinn alltíð búinn á teknum tíma eftir þing. Sá hlutr var til nýlundu þar norðr um heruð, Vatnsdal ok Víðidal, at af tókust öll mannamót á þeim misserum. Skip hafði komit um sumarit í Blönduós; hafði stýrimaðr, sem Einarr hét, þar hest í hafti. Maðr hét Halldórr, lítill bóndi, er bjó í Kleifum við Blöndubakka. Hestr stýrimanns hvarf um haustit; klagar hann þat fyrir Höskuldi goða á Höskuldsstöðum; hann var góðr maðr ok réttdæmr. Þar getr ok um mann nökkurn, son Þórdísar spákonu at Spákonufelli, heldr enn um hana sjálfa — — — — — —

— — — — — — — — — — — — — — —

— — — — — — — — — — — — — — —

— — — — — — — — — — —

— — — — — — — — — — —

sex daga. Nú saknar Halldór hestanna, ok leitar ok fiðr nú ok þykkir vera illa haldnir, ok ferr nú til fundar við Þórarin; verðr nú við hann skapfátt, ok veitir honum áverka svá næsta mikinn, at honum var þat gildr þykkr, ok eigi banvænlegr; enn þaðan af kemr þat fyrir þá Höskuld ok Eylíf, ok beiða þeir bóta fyrir þingmann sinn. Hann lætr ekki brátt við því, ok ekki sættust þeir á þat, ok stendr nú svá búit um hríð.

16. Barði hafði verksmíð mikinn, ok þeir bræðr, sumar þat, ok fóru vel verk fram um sumarit, er nú var betr tilskipat enn fyrr. Nú er þar komit sumri, at sjau vikur lifa sumars; þá ferr Barði at hitta Þórarin, fóstra sinn, til Lækjamóts; þeir hjöluðust oft löngum viðr, ok vissu menn óglögt, hvat þeir mæltu. „Nú mun vera mannamót“, segir Þórarinn, „á milli Hóps ok Húnavatns, þar sem heitir Þingeyrar, enn ek hefir því ráðit er engin váru hér til; nú skaltu þangat

fara, ok reyna vini þína, fyrir því, at nú vættir mik, at menn sé forkunnar margir, er lengi hefir dvalizt; mun nú þar vera fjölment; vættir mik, at þar komi Halldórr, fóstbróðir þinn; bið hann föruneytis ok brautargengis, ef þér er nökkurr hugr á at fara ór heraði á braut ok hefna bróður þíns. Bær heitir á Bakka; hann er fyrir utan Húnavatn; þar bjó kona sú, er Þórdís hét, ok var kölluð gefn, ok var ekkja. At ráðum var með henni maðr, sá er Oddr hét; hann var gildr maðr fyrir sér; ekki var hann einskostar fégöfugr eða ættstórr; þó var hann frægr maðr; hann skaltu biðja fylgdar með þér; hann ræðr svörum. Þar er kallat í sveit þeiri á Kólgumýrum, ok eru þar bæir margir, ok heitir einn bær á Meðalheimi; þar bjó sá maðr, er Þorgisl hét; hann var systrungr Gefnar-Odds at frændsemi, ok var hraustr maðr, ok skáld gott, ok átti góða kosti fjár, ok gildr maðr fyrir sér; kveð þú hann til farar með þér. Bær heitir at Búrfelli, miðlum Svínavatns ok Blöndu; þat er á Hálsum út; þar bjó sá maðr, er Eiríkr hét, ok var kallaðr Eiríkr víðsjá; hann var skáld, ok eigi lítill fyrir sér; hann skaltu kveðja til föruneytis með þér. Í Langadal heitir bær á Auðólfsstöðum; þar bjó sá maðr, er Auðólfr hét; hann var góðr drengr, ok mikill fyrir sér; bróðir hans er Þorvaldr ok er eigi hans við förina getit; hann bjó þar sem heitir í Sléttadal; þat er upp frá Svínavatni; þeir eru tveir bæir,

er svá heita; hann var sterkastr maðr at afli fyrir norðan land; ekki skaltu hann kveðja til þessar ferðar, ok kemr til þess skapferði hans. Bær heitir at Svínavatni, ok bjó þar sá maðr, er Sumarliði hét, ok kallaðr gjallandi, auðigr at fé ok góðum virðingum; með honum var heima dótturson hans, ok hét Þorljótr gjallandafóstri, hraustr maðr; bið hann til föruneytis með þér. Eyjólfr hét maðr, er bjó at Ásmundargnúpi, þat er milli Vatns ok Víðidals; hann skaltu hitta, ok bið hann fara með þér; hann er vinr várr. Nú vættir mik", segir hann, „at lítt verði í ráðit ef þetta flytr þú fram á mannamótinu, ok leitar þar við þá um þetta mál, ok segir svá, at þeir skulu eigi skyldir til farar með þér, ef eigi kemr þú þann næsta laugardag til hvers þeira, er fim vikur eru til vetrar, ok þann skaltu eigi hafa með þér, er þá er eigi búinn, því at sá er engi öruggr. Því skaltu þessa menn heldr velja til farar með þér, enn aðra sveitarmenn, at þessir eru nauðleytamenn hverr annars, ok eigu allgóða kosti, ok svá frændr þeira eigi síðr, ok er þat þvílíkt, sem þeir eru sjálfir, ok þessir eru röskvastir af öllum þeim, er hér eru í Víðidal ok öllum várum sveitum, ok þeir munu yðr bezt viljaðir, er várir vinir eru mestir. Nú er óglíkt hvárt er, at hafa með sér góða drengi ok hrausta, eða einhleypinga óreynda, þá er sér eiga einskis góðs kosti, ef nökkut hendir til vandræða. Nú eru ok ráðnir til

farar með þér heimamenn þínir ok nábúar, er bæði eru frændr þínir ok tengdamenn: Eyjólfr mágr þinn frá Borg; hann er hraustr maðr ok góðr drengr. Bær heitir í Vestrhópi á Þernumýri; þar búa bræðr tveir; heitir annarr Þóroddr, Þorgils annarr, ok váru Hermundarsynir, ok bræðrungar Barða at frændsemi, ok áttu góða kosti fjár, ok miklir kappsmenn ok góðir áræðis; þeir eru ráðnir til farar með þér. Nú eru þeir ráðnir bræðr til farar þrír. Enn eru néfndir bræðr tveir, er þar váru heima með honum. ok hét annarr Óláfr, enn annarr Dagr; þeir váru systrungar Barða, ok höfðu þar uppvaxit með Guðmundi; þeir eru ráðnir til farar með þér. Enn eru nefndir tveir menn; hét annarr Gríss, ok var kallaðr koll-Gríss; hann var þar uppfæddr í Ásbjarnarnesi; hann maðr var hagr og verkstjóri þeira, ok hafði þeim lengi verit velviljaðr; annarr hét Þórðr, ok var kallaðr melrakki; hann var fóstri þeira Þuríðar ok Guðmundar; höfðu þau hann tekit lítit barn af válaði og fætt upp; hann var alroskinn ok vel at sér gerr, ok þat segja menn, at fyrir hann var einskis örvænt, orðs né verks, ok unnu þau honum mikit, ok virðu hann meira enn hann var verðr; hann er ráðinn til heimanfarar með þér". Nú eru nefndir þeir menn, er fara skyldu með Barða. Nú er þeir hafa slíkt talat, skiljast þeir.

17. Drottinsdaginn kemr Barði til Lækjamóts, ok

ríðr þaðan til mannamóts; ok er hann kemr þar, þá er komit fjölmenni mikit, ok er þar skemtan góð; var mönnum nú forkuðr á skemtan, er lengi höfðu niðrlögð verit mannamót. Nú var lítt í ráðit, þótt mönnum væri tíðrætt á þeim fundi. Takast at orðum þeir Halldórr fóstbræðr, ok Barði; spyrr Barði, hvárt hann vildi fara með honum nökkut um haustit ór heraði. Halldórr segir, at „eigi man þat þykkja tekit minnar handar mikilmannlega til orðs, at ek þykkjumst eigi búinn at fara; nú er ferð mín albúin á braut, enn ek hefi ætlat, at fara tvívegis; nú hefi ek ætlat, ef svá ferr sem ek vil, at koma þér at liði er meira væri, ef þú þyrftir í nökkura nauðsyn heðan frá, fyrir því at margir eru betr tilfallnir fararinnar, at því er ek hygg at þú vilir fara. Barði lætr sér skiljast at svá er sem hann sagði, ok kveðst honum mundi eigi verri vinr enn áðr. „Enn ek mun biðja þik nökkurs hlutar“, segir Halldórr; „þat var hér í sumar, at mik skildi á við mann þann, er heitir Þórarinn, ok varð hann fyrir áverka af mínu tilræði; hann er lítilsverðr fyrir sínar sakir, enn þeir menn beiða bóta fyrir er hann er í þingi með, ok eru þeir mikils verðir; nú hæfir mér eigi at varna þeim bóta, þeim Eilífi ok Höskuldi; vil ek at þú sættist á fyrir mína hönd, enn ek get eigi at mér; þó hefi ek áðr synjat at bjóða þeim yfirbætr. Barði gengr

þegar at hitta þá Höskuld og Eilíf, ok tekr máli þegar fyrir Halldór, ok leggja þeir fund með sér, at sættast á mál, er fjórar vikur væri til vetrar, at Klifum at búi Þórarins. Nú kemr Barði á mál við Gefnar-Odd, at hann fari með honum til Borgarfjarðar suðr. Oddr svarar brátt því máli: „Ok þótt þú hefðir kvatt vetri fyrr eða tveimr, þá mundi ek þó búinn þessarar ferðar". Þá hitti Barði Þorgils systrung Odds, ok talar hit sama mál. Hann svarar: „Þat munu menn mæla, at eigi hafir þú þessa fyrr kvatt, enn ván var, ok mun ek fara, ef þú vill". Hittir hann Arngrím, fóstra Auðólfs, ok spyrr, ef hann muni vera í för með honum. Hann svarar: „Búinn em ek, þegar er þú ert búinn". Slíkt hit sama mælti hann við alla þá, er fyrr váru nefndir, ok tóku allir vel hans máli. Nú mælti Barði: „Þér hafið haft drengilega af þessu við mik; nú mun ek koma laugardag til yðar, er fim vikur eru til vetrar, ok ef ek kem eigi svá, þá eruð þér einskis skyldir með mér at fara". Ríða nú heim af mannamóti. Hittast þeir nú fóstrarnir, Þórarinn ok Barði, ok segir Barði honum, hvat þeir Halldórr ræddust við. Þórarinn lætr vel yfir því, ok kvað eigi at síðr þessa för mundu fram komast, at eigi færi hann — „ok má hann enn vel koma þér at haldi og því hefi ek fyrir svá skömmu gert vart við þessa för, at ek vilda

at sem sízt komi frétt áðr í herað þeira Borgfirðinga“.

18. Nú líðr svá fram at föstudeginum í hinni séttu viku; ok at eykt dags þá kómu heim húskarlar Barða, ok höfðu þá lokit mjök svá heyverkum. Barði var úti ok þeir bræðr, er þeir kvámu heim verkmennirnir; heilsuðu þeir þeim vel; höfðu þeir með sér verksfæri sín, ok dregr Þórðr melrakki eftir sér ljáorf sitt. Barði mælti: „Dregr melrakkinn eftir sér halann sinn nú“. „Svá er“, segir hann Þórðr, „at ek dreg eftir mér halann minn, ok berr ek lítt upp eða ekki, enn þess varir mik, at þú dragir þinn hala mjök lengi áðr þú hefnir Halls, bróður þíns“. Enn Barði hefndi honum engu orði. Ganga menn til borða. Þeir bræðr matast skjótt, ok stíga undan borðinu þegar, og gengr Barði fyrir Þórð melrakka, ok mælti við hann, leggr fyrir hann verk, hvat hann skal gera um aftaninn ok um daginn eftir, laugardaginn. Fjórir tigir sátna váru ófærðir saman í Ásbjarnarnesi, ok þat mælti Barði, at þat skal hann saman færa, ok lúka því um aftaninn; — „enn þú skalt fara á morgin at sækja fornstugelding várn, er heitir Fleygir, því at geldingar eru gengnir ór afrétt ok heim í haga“; — því vísaði hann honum til þess, at hann var verra at henda enn aðra sauði ok var hann skjótari — „nú skaltu ok á morgin sækja í Ambárdal yxni fim vetra gamalt, er vér eigum,

ok drepa af, ok færa slátrit alt til Borgar suðr laugardaginn; verkit er mikit, enn ef eigi er unnit, þá muntu reyna hvárr halann sinn berr brattara þaðan frá.“ Þórðr svarar, ok kveðst oft hafa heyrt hót hans digr, ok blotnar hann eigi við. Nú ríðr Barði um aftaninn til Lækjamóts ok þeir bræðr, ok hjala þeir Barði ok Þórarinn um aftaninn.

19. Nú er at segja frá sýslu Þórðar, hversu honum endist; saman ók hann heyit, er staðit hafði miðr vel; enn þá er hann kemr heim, þá býst smalamaðr at reka fé sitt út á Björg, ok ríðr Þórðr hesti þeim, er hann hafði ekit á um aftaninn, ok finnr hann geldingaflokk, sem honum hafði verit ávísat, ok fær eigi sótt, fyrr enn út at Hópsósi; nú gerir hann til geldinginn, ok ríðr heim með slátrit; nú hefir hann sprengdan hestinn; nú tekr hann annan hest, ok hleypir yfir dalinn sem leið liggr fram; ekki hirðir hann hvárt hann ferr á dögum eða nóttum. Nú kemr hann árdegis þar ok fær yxnit, ok drepr af ok gerir til; bindr upp á hestinn ok ferr síðan leiðar sinnar, ok kemr heim, leggr af hestinum; tekr slátr geldingsins; ok er hann kemr aftr, þá var í brautu einn limr uxans. Þórðr mælti eigi gott. Maðr gengr í gegn at á braut kveðst tekit hafa, ok bað hann eigi dirfa sik um at ræða, nema hann vildi hafa högg. Tekr hann annat slátrit, ok ferr til

Borgar suðr, sem honum var boðit. Nú tekr Álöf systir Barða ok fóstra hennar við slátrinu; sú hét ok Álöf; hon var vitr kona ok fóstra Barða ok þeira Guðmundarsona; hon var kölluð kjannök, ok váru svá skilit nöfn með þeim. Álöf, fóstra Barða, var vitr mjök ok kunni mart gerla at sjá, ok þeim velviljuð Guðmundarsonum; hon var fróð ok forn í skapi.

**20.** Nú er frá því at segja, hvat þeir hjöluðust við fóstrar, Þórarinn ok Barði, áðr hann væri í braut búinn; þeir hjöluðu mart. Þat var laugarmorgininn snemma; skyldi hann þá fara at finna föruneyti sitt, er með honum skyldi fara; ok þá er hann er búinn til brautferðar eru þar leiddir fram hestar tveir hvítir, ok svört eyru á hvárumtveggja; þá hesta átti Þórðr frá Breiðavaði; þeir höfðu horfit um sumarit á þingi. Nú mælti Þórarinn: „Hér eru hestar Þórðar; skaltu fara ok færa honum, ok þiggja engin laun af honum fyrir, ok eigi er þess vert, því at ek réð, er þeir hurfu, ok hafa í minni varðveizlu verit; ok var torsætt at þeira hefði neytt verit, enn því lét ek hesta þessa taka, at mér þótti þetta merkilegra, at spyrja eftir hestum þessum enn dusilhrossum, ok hefi ek oft senda menn til Borgarfjarðar suðr í sumar, at spyrja eftir þeim; þótti mér þat vera merkilegt erendi, ok vættir mik, at eigi verði í þat ráðit; ok nú hefi ek sendan mann af nýju suðr, ok mun sá sunnan koma

á morgin, ok segja tíðendi sunnan ór heraðinu". Þá var kaupstefna á Hvítárvöllum, ok váru skip komin af hafi litlu fyrr enn þat var.

21. Nú ríðr Barði þaðan ok kemr á Bakka, þar sem Þórdís bjó, ok stóð þar hestr söðlaðr, ok skjöldr stóð þar hjá; ok riðu þeir heim mikinn dyn í túnit eftir hörðum velli. Þar var úti karlmaðr ok kona, ok þó hon höfuð hans, ok váru þau Þórdís þar ok Oddr, ok var at vanlyktum nökkut, er hon þó höfuð hans ok hafði hon eigi þvegit lauðr ór höfði honum. Ok þegar er hann sá Barða, sprettr hann upp ok fagnar honum hlæjandi. Barði tók vel kveðju hans, ok biðr konu lúka verki sínu ok vaska honum betr; hann lét svá gera; nú býst hann ok ferr með Barða. Nú koma þeir út yfir Blöndu til Breiðavaðs, ok færa Þórði hesta sína. Þat er at segja, at í þann tíma var Þorgils Arason riðinn norðr til Eyjafjarðar á þeiri vikunni, er um var liðin, er hann skyldi kvángast at Þverá, ok var hans norðan ván á annarri viku. Þórðr tekr vel við hestum sínum, ok býðr góða hesta gelda at launum. Hann kveðst eigi vilja laun fyrir þetta, ok svá kvað hann þann bjóða, er hestana hafði heimta; — „skal þín vinr", segir hann, „í þörf neyta". Ríðr Barði í Langadal, ok á vǫlluna mjök svá at bæ Auðólfs, ok sá þeir at maðr reið ór túninu ofan, ok kenna þeir Arngrím förunaut sinn, er vera skyldi, ok ríðr

hann nú með þeim. Ríða nú vestr yfir Blöndu til Eiríks viðsjá, ok koma þar er fé var embætt at morginmáli, milli miðdegis ok dagmála, ok hitta smalamann ok spurðu, hvárt Eiríkr væri heima. Hann sagði, at hann var á hesti í sólar upprás; — „ok nú vitum vér eigi, hvert hann mun riðit hafa". „Hvat þykki þér líklegast, hvert hann mun riðit hafa?" — ok kemr í hug, at hann mun skotizt hafa undan, ok vilja eigi fara. Enn eigi bar svá raun vitni, at hann hefði undan skotizt. Sá þeir þá tvá menn ríða ofan með Svínavatni, — þaðan var víðsýnt af bænum, — ok kendu, at þat var Eiríkr viðsjá ok Þorljótr gjallandafóstri; þar hittast þeir við á þá, er Laxá heitir, er fellr ór Svínavatni; fagna hvárir öðrum vel. Ríða til þess er þeir koma til Þorgils á Meðalheim; þeir kvöddust vel ok ríða síðan leiðar sinnar, ok kómu nú mjök at Gljúfrá. Þá mælti Barði, at menn skyldi ríða til bæjar at Ásmundargnúpi ok hitta Eyjólf Oddsson, — „maðr ríðr", segir hann, „ok eigi seint frá bænum út ok ofan með ánni; vættir mik", segir hann, „at þar sé Eyjólfr; get ek hann munu vera við vaðit, er vér komum þar, ok ríðum fram". Svá gerðu þeir. Nú sjá þeir mann við vaðit; kenna þar Eyjólf; hittast nú ok kvöddust vel; fara nú leiðar sinnar ok kómu þar sem heitir á Ask í Víðidal. Þá riðu í mót Barða ok förunautum hans þrír menn í litklæðum, ok hitt-

ust þeir brátt, er hvárir riðu í mót öðrum, ok váru þar tveir systursynir Barða í þeiri för, ok hét annarr Lambkárr, enn annarr Húnn, ok þá er enn þriði vatnsdælskr í för með þeim; þeir höfðu kvámit út vestr í Víðidal allir, enn Guðbrandr faðir þeira, ok Guðrún móðir þeira bjoggu út í Víðidal, þar sem síðan heitir á Guðbrandsstöðum. Nú verðr þar fagnafundr mikill með þeim frændum, er Barði hittir systursonu sína; segja hvárir öðrum tíðendi. Barði segir för sína, hvert hann ætlaði; þeir váru þá átján vetra gamlir, ok höfðu einn vetr utan verit; þeir váru hinir mestu ágætismenn at vænleik, ok at afli ok at íðróttum. ok þó væri þeir vel at sér gervir, þótt þeir væri fulltíði at aldri. Nú réðu þeir ráðum sínum, ok kveðst þeim á því hugr. at ráðast í för með þeim, enn förunautr þeira ferr í Víðidal. Barði ríðr nú þar til er hann kemr til Lækjamóts, ok segir nú fóstra sínum svá búit, — „nú skaltu ríða heim í Ásbjarnarnes, enn ek mun á morgin ríða til fundar við þik, ok með mér Þorbergr son minn; mun ek þá ríða á leið með yðr“.

22. Nú ferr Barði heim ok föruneyti hans, ok er heima nótt þá. Um morgininn býr koll-Gríss þeim dögurð; enn þat var siðr, at lagðr var matr á borð fyrir menn, enn þá váru engir diskar; þat varð til nýnæmis, at af hurfu þrjár deildirnar fyrir þrem mönnum; gekk hann ok sagði til

þess Barða. „Hef þú fram borð“, sagði hann, „ok ræð ekki um þat fyrir öðrum 'mönnum“. Enn Þuríðr mælti, at þeim sonum hennar skyldi ekki deila dögurð, ok kveðst hon deila mundu. Svá gerir hann, at hann hefir borð fram, borð fyrir mann, ok deilir mat á. Þuríðr gengr þá innar, ok leggr sitt stykki fyrir hvern þeira bræðra, ok var þat þá yxnisbógrinn ok brytjaðr í þrent. Tekr hann Steingrímr til orða ok mælti: „Þó er nú brytjat stórmannlega, móðir, ok ekki áttu vanda til at gefa mönnum svá kappsamlega mat, ok er á þessu mikit vanstilli, ok ertu nær óvitandi vits“. Hon svarar: „Ekki er þetta furða nein, ok máttu þetta eigi undrast, fyrir því at stærra var Hallr bróðir yðarr brytjaðr, ok heyrða ek yðr ekki þess geta, at þat væri nein furða“. Hon lætr fylgja slátrinu sinn stein fyrir hvern þeira. Þeir spurðu, hvat þat skyldi merkja. Hon svarar: „Mest hafi þér þat, bræðr, er eigi er vænna til enn steina þessa, er þér hafið eigi þorat at hefna Halls bróður yðars, þvílíks manns sem hann var, ok eru þér orðnir langt frá yðrum ættmönnum, er mikils eru verðir, ok eigi mundu þeir þvílíka skömm eða hneisu setit hafa, sem þér hafið þolat um hríð, ok mart ámæli fyrir haft“. Gekk hon utar ok innar eftir gólfinu eiskrandi, ok kvað vísu:

(1) Brátt munu Barða *frétta*
beiðendr þrimu seiða.
Ullr munt ættarspillir
undlinns taliðr þinnar,
nema lýbrantar látir
ljóss veldandi falda
— lýðr nemi ljóð, sem kváðum —
lauðhyrs boða rauðu.

Nú hrinda þeir fram borðum ok öllu því er á var, ok ganga til hesta sinna ok búast hvatlega. Þat var drottinsdaginn, er fim vikur váru til vetrar. Nú stíga þeir á bak hestum sínum ok ríða á braut ór túni. Nú sjá þeir bræðr þat til Þuríðar móður sinnar, at hon er komin á bak hesti þeim, er þau kölluðu Eykjarð, ok hon hafði heimt húskarl sinn til förunevtis við sik; hann er eigi nefndr, enn svá er sagt, at hann mun grunnúðigr vera. Nú mælti Barði: „Þetta horfir til óefnda, er hon er á ferð komin, ok mætti vér þess vel án vera, ok verðr nú at leita ráðs, ok létta á ofanförina hennar". Hann heimtir til sín þá Óláf ok Dag, heimamenn sína, — „nú skulu þit", segir Barði, „ríða á mót henni, ok mælið við hana sæmilega ok fagrt, enn gerið sem ek býð; segið, at þat sé vel, at hon sé komin í för vára; biðið hann vel fylgja henni, húskarlinn, ok styðið hana á baki, ok ríðið svá unz þér komið fram at Faxalæk; hann fellr ór Vestrhópsvatni ok ofan í Víðidalsá; skeiðgata liggr at læknum norðan, ok svá frá hon-

um, ok þá skulu þit spretta gjörðunum hennar; skal Dagr þat gera, ok láta sem hann gyrði hestinn, er þit komið at læknum, ok reiðið hana af baki, svá hon falli í lækinn ofan, ok svá þau bæði, enn hafið með ykkr hestinn". Nú riðu þeir í mót henni, ok kvöddu hana vel; — „ok urðu þit heldr til þess at ríða í mót mér, enn synir mínir", segir hon, „ok sæma mik". „Þeir buðu okkr þetta erendi", segja þeir. Hon segir: „Því em ek í ferðina komin, at mik vættir, at síðr muni fyrirfarast nökkur stórræði, fyrir því at eigi skal skorta til áeggjan, fyrir því at þess þarf við". Þeir láta þat mjök munu bæta, at hon fari. Ríða nú, þar til þau koma fram at Faxalæk. Þá mælti Dagr: „Þessi maðr er vanvitull, er þér fylgir, Þuríðr; hann hefir eigi svá vel gyrt hest þinn, at þér muni duga; er þat skömm mikil, at fá slíkt til fylgju við dugandi konur". „Gyrtu betr þá hestinn enn áðr er", segir hon, „ok fylg mér síðan". Hann tekr nú ok sprettir gjörðum af hesti kerlingar; rekr þau bæði af baki í Faxalæk, sem þeim var boðit; þar var Þuríði við engu meini hætt, ok gruflar hon af læknum. Þeir ríða nú í brott ok höfðu hestinn sér með. Hon ferr heim um kveldit, ok húskarl hennar, ok eigi erendi fegin.

23. Barði ríðr nú ok flokkr hans leiðar sinnar, þar til er þeir áttu skamt til Borgar; þá ríða menn at móti þeim nökkurir, ok var þar Þórarinn, fóstri

Barða, ok Þorbergr son hans. Þeir ræðast við þegar ok takast at orðum fóstrarnir: „Þó hefir þú þar, fóstri", segir Barði, „sverð mikit um kné þér". „Hefir þú eigi sét mik hafa þetta vápn fyrr, hygginn ok glöggþekkinn", segir Þórarinn; „svá er ok; eigi hefi ek fyrr haft. Nú skulu vit skifta vápnum; skal ek þat hafa, er þú heldr á" — ok svá gerðu þeir. Þá spurði Barði, hvaðan honum kom; hann sagði honum með öllum atburðum, hvé fór með þeim lyng-Torfa, ok hvé hann hafði lokkat hann til at sækja vápnin; — „enn Þorbergr son minn hefir annat vápnit, ok á þat Þorbjörn, enn Þorgautr á þetta, er þú hefir; þat þótti mér maklegast, at vápn þeira lægði ofmetnað þeira ok dramb; því réð ek þessi ráð, ok svá hit sama hefndir þú þessar svívirðingar þinnar, er þeir gerðu til þín ok yðarra frænda; nú vilda ek at þú værir mér ráðhollr, svá mikla stund sem vér leggjum á yðra sæmd". Nú ríða þeir í tún at Borg til Eyjólfs mágs þeira bræðra; þar váru tveir hestar búnir fyrir dyrum, er Barði kom í garð, ok váru á öðrum vistir þeira bræðra, er ætlaðar váru þeim til nestis, ok jarteindu þat en nýju slátrin, er Barði lét þangat færa; þær vistir hafði búit Álöf systir þeira ok Kjannök fóstra hans. Þá stígr Eyjólfr á bak, ok var albúinn at ríða í tún frá dyrum. Þá kemr út kona, ok kallar á Barða, ok mælti at hann skyldi aftr ríða þangat til dyranna, ok kveðst

eiga mál við hann; þat var Ólöf systir hans; hann bað þá ríða fyrri, enn hann kveðst ekki mundu dveljast. Kemr hann at dyrum, spyrr hvat hon vill; hon biðr hann stíga af baki ok hitta fóstru sína; hann gerir svá; gengr inn. Kerlingin æmtir við innar í húsinu, enn hon var í rekkju sinni. „Hverr ferr þar nú?" segir hon. Hann svarar: „Barði er hér nú. Hvat viltu mér, fóstra?" „Gakk þú hingat", segir hon; „vel ertu kominn nú; sofit hefi ek nú", segir hon; „enn vakat hefi ek í nótt, at búa vistir yðrar, ok systir þín. Far þú hingat", segir hon, ok vil ek þreifa um þik". Barði gerði svá sem hon mælti, því at hann unni henni mikit. Hon tekr til í hvirflinum uppi, ok þreifar um hann öllum megin alt á tær niðr. Barði mælti: „Hvé kennist þér til, ok hvé ætlar þú vera? þó þreifar þú nú svá vandlega". Hon svarar: „Vel þykki mér", sagði hon; „hvergi þykki mér við hníta, svá at ek finna stórum". Barði var mikill maðr ok sterkr at afli; digr var háls hans, ok spennir hon höndum sínum um háls honum, ok tekr ór serk sér steinasörvi mikit, er hon átti, ok dregr á háls honum ok dregr yfir skyrtuna; hann hafði tygilkníf á hálsinum; ok lét hon hann þar vera, ok bað hann vel fara. Hann ríðr nú á braut eftir förunautum sínum. Hon kallar eftir honum: „Lát vera nú svá búit, sem ek hefi umbúit, ok vættir mik at þá mun hlýða".

24. Nú er hann kemr til liðs síns, þá ríða þeir leiðar sinnar. Þórarinn ferr langt á leið með þeim, ok hefir umráð um ferð þeira; honum þykkir mikit undir, at þeim færist vel; — „gistingarstað hefi ek yðr fengit“ segir hann, „í Gnúpsdali, er þér skuluð hafa. Njáll heitir búandi, er þér skuluð í nótt gista; svá er sagt, at hann sé ekki mikill þegn við aðra menn af fé sínu; þó hefir hann ærit; þess vætti ek, at við yðr taki hann at orðsendingu minni. Enn nú er sá maðr hér kominn, er í nótt reið sunnan ór Borgarfirði, er ek senda suðr í þessi viku, at vita tíðendin í herað, ok kann sá mér gerla satt at segja, ok hefir hann þat sagt, at Hermundr Illugason mun vera í kaupstefnu öndurða þessa viku ok margir aðrir heraðsmenn. Þat munu þér ok spurt hafa, at þeir bræðr, synir Þorgauts, hafa sýslu fyrir höndum í sumar, at slá teig þann, er heitir Gullteigr; nú líðr fram verkit, svá at lokit mun miðvikudag í þessi viku, ok munu þeir heima véra. Spurt hefi ek þat, at þeim er títt at ræða Gíslungum, þegar nökkut hark verðr ok háreysti, þá mæla þeir: ‚Mun eigi Barði koma?‘ Gera at því mikit spott ok háð við yðr til svívirðingar. Nú gerist hér ok þat sagt með miklum sannendum, at þat hafa þeir heraðsmenn samráðit, ef nökkur tíðendi verða í heraðinu, þau er af manna völdum eru, þá skulu allir skyldir til eftir þeim at ríða, síðan

er þeir Snorri goði höfðu sofit skamt frá bygðum eftir víg sín ok stórvirki, ok skal sá útlagðr, er eigi verðr til þess búinn, þrem mörkum hverr sá, er þingfararkaupi á at gegna frá Hafnarfjöllum ok til Norðrár, sem þeira þingmenn eru flestir Síðumanna ok Flókdæla. Nú ríði þér annan dag viku frá Njáls, ok farið tómlega; hafið náttstaði á heiðinni"; — þá fekk hon þat nafn, at hon var Tvídægra kölluð — „ok skuluð koma til vígis þess hvárstveggja, er á heiðinni er, þá er þér farit suðr, ok séð hvárt svá er, sem ek segi yðr. Flói heitir á heiðinni, ok eru þar vatnföll stór; þat er í norðanverðum flóanum vatn þat er nes liggr í, ok eigi breiðara at ofanverðu enn níu menn megu standa jafnfram, ok deilir norðr vatnföllum til heraða várra ór því vatni; þangat vísa ek yðr til. Enn annat vígi er í sunnanverðum flóanum, er ek vilda síðr at þér hefðið, ok yðr gegnir verr, ef þér þurfuð til at taka; þar gengr enn nes fram í vatn; þar megu standa átján menn jafnfram, ok deilir suðr vatnföll til heraða þeira ór því vatni. Enn þér munuð koma suðr þriðjadag þann til selja, er allir menn eru farnir ór seljum eftir endilöngum Kjarradal, ok þar eigu allir Síðumenn selfarar, ok hér til hafa þeir þar dvalizt. Nú vættir mik, at þar komið þér nær eykt dags; þá skulu ríða tveir menn af liðu yðru ofan í herað þar, ok eftir fjalli, ok svá til Brúa, ok koma eigi

til bygða fyrr enn fyrir sunnan ána. Þá skulu þit koma á bæ þann, er heitir á Hallvarðsstöðum, ok spyrja bónda tíðenda, ok frétta eftir hestum þeim, er horfit hafa norðan ór sveitum; þit skuluð spyrja ór kaupstefnu. Þá munu þit sjá á Gullteig, er þit farit ofan með ánni, hvárt þar sé menn at slætti, sem nú er eftir hermt. Þá skulu þit ríða upp svá til vaðs, ok láta búanda ykkr til vaðs vísa; ríða svá til heiðarinnar ok upp á heiðina; þá munu þit sjá á Gullteig, er þit farit með ánni. Enn miðviku morgin skaltu fara ofan á brúna, þar er þér sét tíðendi um heraðit, ok skaltu þá skifta liði þínu í þrjá staði, alls þér eruð átján saman; eftir skal vera enn nítjándi ok gæta hesta yðvarra, ok skal þat vera koll-Gríss, ok láta þá vera búna, er þér þurfuð til at taka. Sex skulu menn vera á brúnni uppi, ok mun ek ákveðit gera, hverir þar skuli vera, eða hví þannig er til skipat. Þeir frændr skulu þar vera, þeir Þorgils af Meðalheimi ok Arngrímr, ok Eiríkr viðsjá, ok Þorljótr gjallandafóstri, (ok) Eyjólfr frá Ásmundargnúpi; því skulu þeir þar sitja, at þeir munu þér vera menn stríðastir ok torsveigstir, er þér komið í heraðit, enn yðr hæfir eigi svá, at eigi hafi þér stilling við ok við. Enn miðleiðis skulu sitja aðrir sex: bræðr Þóroddr ok Þorgils af Þernumýri, bræðrungar Barða, ok sá maðr enn þriði, er

kom í stað Halldórs; þeir skulu ok þar vera systursynir þínir, Húnn ok Lambkárr; Eyjólfr mágr þinn enn sétti; þeir munu þér hóti ráðhollari, ok eigi með jafnmiklum geysingi; fyrir því skulu þeir sitja, at þá sjá þeir mannfarar um heraðit. Enn þér sex skuluð ofan fara, þú ok Steinn bróðir þinn, Steingrímr, Óláfr, ok Dagr, ok Þórðr; þeir munu þér ráðhollastir, ok er þeim þó full-liða, er á teiginum eru fyrir. Nú skulu þér þegar á braut fara, er þér hafið þeim skaða gert, fyrir því at eigi mun yðr eftirförin ljúgast ok minni mun stund á lögð um eftirförina, ef eigi eru sénir meir enn sex menn, ok mun þá eigi mjök fjölment eftir sótt, ef svá er með farit. Nú skulu þér undan ríða sem hvatast, þar til er þér komið til ens nyrðra vígis á heiðinni, fyrir því at þá berr norðr alla kviðburði, ok er yðr þat mest fullting, at svá yrði, enn þó grunar mik, at eigi komir þú því við fyrir þeira ofstæki, er þér fylgja; enn nú munum vér skiljast at sinni, ok finnumst heilir“.

25. Nú kemr Barði at kveldi til Njáls með flokk sinn, ok stendr Njáll úti ok býðr þeim gisting öllum ölværlega. Þeir þiggja þat; láta lausa hesta sína; setjast á báða bekki. Njáll er úti um kveldit ok kona hans, ok búa vistir gesta sinna, enn sveinn þeira er inni ungr ok skemtir þeim. Barði spyrr sveininn,

ef hann hafi brýni nökkut. „Ek veit“, segir hann, „harðstein, er faðir minn á, ok þori ek eigi at taka“. „Ek mun kaupa at þér“, segir Barði, „ok fá þér til tygilkníf“. „Já“, segir hann sveinninn, „hví mun ek eigi til ráða þá?“ Leitar harðsteinsins ok fiðr ok selr Barða. Barði tekr við harðsteininum, ok tekr tygilkníf af hálsi sér, ok þokast þá nökkut steinasörvit, er hon hafði látit á háls honum kerlingin, ok þess verðr getit síðar. Nú brýna þeir vápn sín. Nú þykkist sveinninn hafa vel hnykt, er þeir hafa þat sem þeir þyrftu. Nú eru þeir þar um nótt, ok hafa góðan beina. Nú ríða þeir leið sína annan dag viku í góðu veðri, ok fóru ekki hart. Spyrr Barði Eirík viðsjá, hvernig hann ætlaði at farast myndi. Hann svarar:

(4) **Blóðs höfum hlynr of heiði**
**hræborðs farit norðan**
**vér hyggjum nag nœra**
**nítján saman ritar.**
**Þó getum hins at Heita**
**hlunntams munim sunnan**
**árr — hyggr skald til skœru —**
**skæs nökkuru færi.**

Nú eru þeir þar um nóttina á heiðinni, ok ríða miðvikudag í Kjarradal, ok var þat nær eykt dags. Ok er þeir höfðu át um stund, þá ríða tveir menn ofan í herað, sem til hafði skipat Þórarinn, ok hittu enga menn á bæjum, ok fóru fjallveg alt, ok kómu til Brúar, ok nú á Hall-

5*

varðsstaði, ok sá tíðendi gerva á Gullteig, ok sá þat, at þar váru karlar á teignum, ok slógu allir í skyrtum, ok sýndist, at jafnt mundi eftir dagslátta sem sagt var; finna nú búanda, ok hjöluðu við hann ok spurðu tíðenda. Hvárigir kunnu öðrum þar tíðendi at segja, ok spurðu þeir at hestum þeim, er þeir váru á leit komnir, ok mjök oft höfðu verit farar til gervar; hann kvaðst aldrigi vita hvar þeir váru, ok bað þá svá klifa ey ok ey. Þeir spurðu, hvat tíðenda væri í kaupstefnunni, eða hvé fjölment þar væri. Hann kvaðst óglögt hafa spurt, hvat þar er títt; kveðst ok engu máli þykkja skifta. Þeir báðu hann vísa sér leið upp með ánni til vaðs; svá gerir hann; skiljast þeir; fóru þeir til fundar við förunauta sína, ok segja þeim svá búit; sofa af nótt þá.

26. Nú er nökkut at segja frá þeim heraðsmönnum, er hér koma við þetta mál. Þorbjörn Brúnason stóð upp snemma á Veggjum, ok biðr húskarl sinn upp standa með sér, — „ok skal fara upp til smiðju í dag til Þorgauts, ok skal smíða þar“. Þat var snemma, þegar í sólar upprás. Hann kvaddi þeim dögurðar, ok var þat eigi ákveðit hvat fengit var annars, enn húsfreyja setti fyrir þá trygil á borðit. Þorbjörn váttar, at honum sé eigi vel fengit, ok rekr meðal herða henni trygilinn. Hon snýst við ok verðr há við, ok mælti við hann hrapallegt, ok svá hvárt við annat,—„ok berr þú þat fram“, segir hann, „er

eigi er í nema blóð eitt, ok undr er þú sér eigi missmíði á því". Hon svarar honum þá stillilega: „Ekki bar ek þat fram, er eigi mættir þú vel neyta, ok ætla ek eigi því verr, at þau undr beri fyrir þik, at þú sér brátt í helju, ok víst mun þetta þín furða vera". Hann kvað vísu:

**(5) Eigi man sús eigum**
**auðrœr at mik dauðan**
**— fold vill mens í moldu**
**minn aldr — bláu falda.**
**Ann — enn ekki vinna**
**auðs má brík at slíku;**
**þat's óskaplegt — eplis**
**ölseljan mér Heljar.**

Hon hleypr þá á braut, ok tekr osthleif ok kastar fyrir hann; hon sezt í pallinn öðrum megin ok grætr. Þorbjörn kvað vísu:

**(6) Óþakkir kann ekkju**
**Áta mars, þót gráti**
**fákrennandi fannar**
**tagrstrykvins mik kykvan;**
**þvít eims liðar Aumu**
**ofnauð, es skal dauðan**
**hlýra höfgum skúrum**
**heiðingja vin leiða.**

„Enn þó bregðr nú kynlegu við; undan þykki mér nú gaflhlaðit vera hvárutveggja undan húsinu, ok á sýnist mér falla ströng eftir húsinu ok norðan af heiðinni, enn mold ein sýnist mér, ok svá kennist mér eigi síðr ostrinn, er

ek et". Ok stíga þeir undan borðinu ok ganga til hesta sinna ok stíga á bak ok ríða ór garði. Þá tekr hann til orða Þorbjörn: „Dreymt hefir mik nú í nótt", segir hann. Húskarl spyrr: „Hvat dreymdi þik?" segir hann. „Þar þóttumst ek vera staddr, er eigi þótti öllum einnug, ok þóttumst ek hafa sverðit þat, er ek hefi vanr verit at hafa í hendi mér, enn nú er eigi heima, ok brotnaði í sundr, þegar ek hjó fram; enn ek þóttumst kveða vísur tvær í svefninum, ok man ek þær báðar:

(7) Þat varð mér — hinn mæra
minn vandak brag — randa
hjalmfenris brast holma
hvítvöndr í tvau, rítar,
þars á mætu móti,
mótruðr jöru snóta,
heimþingaðar hanga
hnitu reyr saman dreyra.

(8) Væri betr, ek bæra
benvand í gný randa
hleypikjóls, ok heilan
haus, ókostalausan,
þanns dalreyðar dauða
dýrreitar skal veita
hirði-Baldr, ok heldumk
hann, ófáum manni.

Nú nam sá vísur báðar, er honum fylgdi, er þeir riðu. Nú svipast hann um Þorbjörn. „Já segir hann, „heima liggja nú smíðarefnin, eða ellegar hafa niðr fallit; far þú aftr ok leita; fiðr þú

á leiðinni, þá far þú til smiðju, enn ek mun ríða fyrir; nú ef eigi fiðr þú á leiðinni, þá far þú til verks þíns". Nú skiljast þeir; fiðr húskarl eigi smíðarefni. Þorbjörn ríðr nú til Þorgauts frænda síns til smiðju, ok hittir hann fyrir dagmál dags; kveðjast þeir ok spurðust at tíðendum. Hvárgi kunni öðrum þar tíðendi at segja. Nú er frá því sagt, at þeir synir Þorgauts rísa upp allir, ok fara at slá á Gullteig, ok ræddu um þat, at nú mundi vel vita, ok mundi sleginn verða Gullteigr hinn sama dag; ganga til teigs, ok lögðu af sér klæði sín ok vápn. Gekk Gísli um teiginn nökkut svá, ok sá á, er þeir ætluðu at slá, ok nemr staðar ok kvað vísu:

(9) Hér vildu mik höldar
húmfress í stað þessum
fálu fúra véla
fjölrœks marir sœkja.
Hitt segir Ullr at allir
oddgaldrs munit skaldi
hríðar Hlakkar glóða
herðendr trúir verða.

Hann segir draum sinn, at honum þótti sem þeir væri þar staddir á Gullteig, ok kæmi at þeim vargar margir, ok ættist þar við, ok var mikit um, — „ok ek þóttumst vakna við þat, er ek hljóp undan heim til bæjarins". Tóku þeir til verks síns, ok slógu um stund.

3. Nú hefir Barði skipat liði sínu í setu,

sem fóstri hans kendi honum ok áðr er sagt, ok nú segir hann þeim öllum, hver fyrirætlan hans er í áhuga. Þá undu þeir við hóti betr, ok ætluðu at þá mundi fram koma þat, er fyrir var ætlat, ok létu sér líka þessa tilskipan at kalla, ok kváðust þó ætla, at litlar mundu atgerðir verða. Þá var skógr mikill í Hvítársíðu, sem þá var hér víða á landi, enn þeir sátu fyrir ofan skóginn sex, ok sá gerva tíðendi á Gullteig. Barði var í skóginum, ok snertu eina frá þeim, þar er þeir slógu, ok þeir sex saman. Nú hyggr Barði at, hve margir menn væri at slættinum; nú þykkist hann eigi vita víst, hvárt kona er enn þriði maðrinn, er hvít er til höfuðsins at sjá,— „eða mun þar vera Gísli?“ Ganga nú ofan undan skóginum hverr eftir öðrum, ok þótti þeim svá fyrst Þorgautssonum, sem einn maðr gengi þar, ok tekr hann til orða Þormóðr, er síðast sló á teiginum: „Menn fara þarna“, kvað hann. „Enn mér sýnist“, segir Gísli, „at maðr gangi einn“. Enn þeir gengu hart ok runnu eigi. „Eigi er þat“, kveðr Ketill brúsi; „menn eru þar ok eigi allfáir“, — ok námu staðar nökkut ok sá á. Ketill mælti: „Mun eigi Barði þar vera, ok eigi er honum ólíkt, ok kann ek eigi mann at kenna, ef eigi er hann, ok svá var hann búinn í sumar á þingi“. Þeir bræðr sá á, Ketill ok Þormóðr, enn Gísli sló ok tók til orða: „Svá látið þér segir hann, „sem Barði muni

koma undan hverri hríslu í alt sumar, ok hefir hann eigi enn komit". Þeir Barði höfðu skipat til mönnum áðr, at tveir skyldu annast einn hvern þeira; þeir Barði ok Steinn skyldu annast Ketil brúsa; hann var rammr at afli. Þeir Dagr ok Ó-láfr skyldu ganga í mót Gísla; þeir Steingrímr ok Þórðr skyldu ganga í mót Þormóði; nú snúa þeir at þeim. Nú mælti Ketill: „Eigi mun við ljúgast, at hann Barði er kominn", — ok vildu þrífa til vápna sinna, ok engi þeira fekk náð sínum vápnum. Nú er þeir sjá hvar komit er, þá vilja þeir hlaupa heim til túngarðsins, Ketill ok Gísli, ok Barði eftir ok fjórir hans förunautar, enn Þormóðr snýr niðr til árinnar, ok þeir eftir honum, Þórðr ok Steingrímr, ok elta hann á ána ok grýta hann frá landi; hann kemst yfir ána ok er hann vel færr. Nú koma þeir heim at garðinum bræðr; verðr Ketill skjótari ok stiklar yfir inn. Ok þá er Gísli hleypr á garðinn, þá fellr torfa ór garðinum, ok skriðnar hann. Þá kemr at Barði; hann varð þeira skjótastr, ok höggr til hans með sverðinu Þorgautsnaut, ok höggr mjök svá af andlitit. Nú þegar snýr hann mót förunautum sínum, ok segir þeim, at áverki hefði orðit nökkur. Þeir kváðu lítit tilráð orðit mundu ok ósnöfrmannlegt. Hann lét þó svá búit þá mundu verða at vera, — „ok skulum nú aftr hverfa". Hann verðr at ráða, ok er þat þó mjök í móti vilja

þeira. Ketill kippir honum Gísla inn af garðinum ok kastar honum á bak sér; ekki sjá þeir at honum yrði mikill þungi at honum; hann hleypr heim til bæjarins. Þeir Þorgautr váru í smiðju ok Þorbjörn, ok bíðr, ef húskarl hans komi með smíðarefni. Hann mælti Þorgautr: „Þó er hark mikit; er eigi Barði kominn?“ Ketill kom inn í smiðjuna í því bili ok segir: „Þat fann Gísli son þinn, at hann er kominn“ — kastaði honum dauðum fyrir fætr honum. Barði snýr nú í mót förunautum sínum, ok kvaðst þat ætla, at kominn mundi maðr fyrir mann. Þeir kváðu þá eigi jafnmenni vera, ok kváðu lítit atgert, þótt einn maðr væri drepinn, ok fara svá langt til. Nú er þeir hittust allir förunautar, mæltu þeir, er efri váru í setunni, at víst eigi hefði þeir farit, ef svá skyldi á braut leysast, at eigi skyldi meiri hefnd eftir þvílíkan harm, sem þeim hafði gerr verit; kváðu eigi jafnmenni þá Gísla ok Hall, ok lögðu nú ámæli til við Barða; kváðust ætla, ef þeir yrði viðstaddir, at meira myndi at gert; fara nú til hesta sinna, ok kváðust vilja hafa dögurð. Barði bað ekki hirða um dögurð; þeir kváðust eigi vilja fasta, — „ok kunnum vér eigi ætla, hvé þér mundi undan, ef þú hefðir nökkut þat gert, er frami væri at“. Barði kvaðst ekki hirða. hvat þeir ræddu. Nú matast þeir.

28. Nú talast þeir við heima, Þorgautr ok Þorbjörn ok Ketill; ræðir Þorgautr, at mikit er at orðit, — „ok mér er nær höggvit, enn þó sýnist mér sem eigi muni minna við hlíta, ok vil ek at hvergi sé eftir riðit“. Þeir segja báðir, at þat skyldi aldri verða. Þær heyrðu konur hvat mælt var, ok sendi Ketill þær út á Fróðastaði ok Síðumúla at segja tíðendin, ok þá mætti hverr öðrum segja þaðan frá, svá at orð kæmist í Þverárhlíð ok um Norðrárdal, at eftir þeim sé riðit, er verit hafa unnit. ok firri sik svá sektum ok fjárlátum. Þeir fara ok taka hesta sína, ok ríða til Hávafells til Árna Þorgautssonar. Hann átti þar mágum at fagna; var þar kominn Þórarinn Þverhlíðingr, faðir Ástríðar konu hans. Þaðan riðu þeir fim saman. Þat er nú at segja frá Þormóði: hann ferr upp fyrir sunnan ána, þar til er hann kemr í Ás. Þá var fábygt fyrir sunnan ána. Þar var mannfátt heima, ok váru menn farnir á Völlu, enn húskarlar á verki. Eiðr sat at tafli ok synir hans tveir; annarr þeira hét Illugi, enn annarr Eysteinn. Þormóðr segir þau tíðendi, sem orðin váru. Þá var brú á ánni uppi hjá Bjarnafossi ok lengi síðan. Eiðr fýsti ekki fararinnar, enn synir hans grípa til vápna sinna ok ferðast; fara þeir bræðr til Þorgils á Höggvandastöðum. Þá var ok heim kominn Eyjólfr son hans; hafði þá ok út komit um sumarit. Þormóðr ferr upp

á Hallkelsstaði, ok kemr þar ok segir tíðendin. Tindr var heima einn karla, enn komnir menn til smiðju. Sú kona bjó þar et næsta, er Þorfinna hét; hon var kölluð skáldkona; hon bjó á Þorvarðsstöðum; hon átti sér son, er Eyjólfr hét, ok bróður, er hét Tanni, er kallaðr var enn handrammi, ok ekki var hann sem menskir menn at afli, ok svá hvárrtveggi þeira, ok Eyjólfr ok systrson hans, váru fullhugar at áræði. Þeir váru komnir til smiðju til Tinds. Enn því var eigi komit á Gilsbakka, at Hermundr var til skips riðinn ok húskarlar hans. Þeir Tindr verða fjórir, Þormóðr enn fimti; enn þat var síð dags. Synir Eiðs koma til Þorgils höggvanda; þeir bregða við skjótt ok fara þaðan sex saman. Þar var Eyjólfr son hans í för ok fjórir menn aðrir.

29. Nú er frá því at segja, hvat þeir Barði sjá tíðenda. Hann ríðr fyrst þeira, ok nökkuru harðast, svá at hlið var á millum þeira, enn þeir riðu heldr tómlega eftir, ok kváðu hann furðu hræddan vera. Nú sjá þeir mannaför eftir sér, ok sjá flokk eigi miklugi minna enn þeir höfðu sjálfir, ok glöddust þeir förunautar Barða, ok hyggja gott til, at nú mundi verða nökkut sögulegt í um ferðina. Þá mælti Barði: „Förum undan enn of hríð, ok eigi minni ván at þat kostgæfi eftirförina“. Þá kvað Eiríkr viðsjá vísu :

(10) **Flykkiast frægir rekkar,**
**fúss es hverr til snerru,**
**þjóð tekr hart á heiði**
**herkunn dragast sunnan.**
**Fara biðr hvergi herja**
**harðráðr fyrir Barði**
**geira hreggs frá glyggvi**
**gunnórunga sunnan.**

„Eigi segir þú nú satt“, segir Barði; „þat mælta ek, at hverr fari sem má, þar til er vér komum til vígis þess, er fóstri minn mælti at vér skyldum neyta í nyrðra flóanum“; — enn því gat Barði eigi á leið komit, ok kváðust þeir þá fulleltir, er þeir kómu til syðra vígis í flóanum; sér Barði þat, at nú mun svá verða at vera, ok sneri nú í móti þeim; kvaðst hann munu eigi svá miklu fúsari undan at ríða heldr enn þeir, ok skulu þeir þess samkvæðis gjalda; — „þó má nú eigi letja yðr, at eigi skulum vér fyrr renna í kveld enn yðr þykkir mál, ok þér skuluð þat mæla fyrr enn ek, at bíða eigi, eða hvárugir ella“. Nú þykkir þeim allvænt um. Hross sín létu þeir í nesit fram frá sér; settu þeir þar koll-Grís at gæta; hann var ekki styrjaldarmaðr ok af æskuskeiði var hann. Þá kvað Eiríkr vísu:

(11) **Fast höldu vér foldu,**
**fram þoki hverr til snerru,**
**látum randa val reyndan**
**ryðjendr í ben snyðja.**
**Kannk, þót sagt sé sunnan**

sverðél taki at herða
— rjóðum hart á heiði
hjalmskíð — ór stað bíða.

Á þeim degi var ok farit eftir Hermundi á vöku, ok var hann heim á för, ok hittu sendimenn hann á leið upp frá Þingsnesi; hann lét ok fyrir lið allan farangr sinn, ok biðr hvern mann til farar með sér, er komast mætti, ok biðr sér liðs, ok ríðr eftir þeim.

30. Nú hittast þeir sunnanmennirnir ok Barði; stíga þeir af baki. Hafa þeir Barði fylkt liði sínu um þvert nesit. „Gangi nú engi fram ór þessum sporum", segir Barði, „því at mik grunar, at fleiri manna mun ván". Þat stóðst á, nesit þvert ok fylking þeira átján manna ok var einum megin at þeim gengt — „ok er meiri ván, at þér náið at reyna vápn", segir Barði, „ok væri betra at hafa it nyrðra vígit, ok eigi mundi þat til ámælis lagt, þótt svá gerðum vér, enn betra til eftirmáls, ok ekki skulum vér enn ótta hér við gjalda". Þeir stóðu með brugðnum vápnum; á aðra hönd Barða stóð Þorbergr, ok á aðra hlið Gefnar-Oddr; þá bræðr Barða út í frá. Nú ráða þeir eigi svá skjótt á sunnanmenn, sem þeir hugðu, ok meira lið var fyrir enn þeir vættu. Þar var höfðingi Þorgautr, Þorbjörn ok Ketill. Þá mælti Þorgautr: „Ráðlegra er að bíða meira liðs; hafa þeir haft ráð mikit, er þeir kómu

fáir í herað". Nú ganga þeir eigi at, ok er þat sá norðanmenn, þá ætla þeir sitt ráð. Mælir Þorbergr: „Hvárt er Brúsi í liðinu? Hann segir, at hann var — „hvárt kennir þú sverð þetta, er ek held hér á". Hann kvaðst eigi vita þess vánir — „eða hverr ertu?" „Ek heiti Þorbergr, enn þetta sverð seldi mér lyng-Torfi, frændi þinn, ok hér af skaltu mart högg þola í dag, at því er ek vilda, eða hví sæki þér nú eigi at Þér hafið þrásamlega eftir sótt í dag, at því er mér sýnist, riðit ok runnit". Hann svarar: „Vera kann at þat sé þar vápn, er ek á, enn áðr vér skiljumst í dag, þá muntu lítt oss frýja þurfa". Þá mælti Þorbergr: „Ef þú ert drengr fullr, hvat skaltu þá bíða meira ofreflis?" Þá tekr Barði til orða: „Hvat er tíðenda at segja ór heraðinu?" „Þau tíðendi eru, er þér munu góð þykkja, víg Gísla bróður míns". Hann segir: „Ekki löstum vér þat, ok eigi þóttumst ek allgrunsamlega unnit hafa, eða hversu er, þykkist þú Ketill, eða þit feðgar, einskis eiga at hefna oss? Mik minnir, at þat var fyrir skömmu, er þú komt heim. Ketill, færandi hendi föður þínum með bakbyrði. Nú ef þú mant eigi, þá mun hér vera váttrinn, þetta sama sverð; er enn eigi heilinn þornaðr á" — ok skekr at honum sverðit —; „þykkist þú, Ketill, einskis eiga at hefna, ok sé hérna, at eigi er heilinn þornaðr á" — ok

skekr þá enn at honum sverðit. Þetta fá þeir eigi staðizt, ok hlaupa nú at þeim. Þorbjörn hleypr at Barða ok höggr á hálsinn ok brast við furðu hátt, ok kom í stein þann í sörvinu, er þokazt hafði, þá er hann tók knífinn ok gaf syni Njáls, ok steinninn brast í sundr ok dreyrði tveim megin bandsins, enn þat beit eigi. Þá mælti Þorbjörn: „Troll, er þik bíta eigi járn". Nú lystr þeim saman, ok eftir högg þetta hit mikla stýrir hann þegar í mót Þóroddi, ok eigast þeir við. Ketill gengr í mót Barða, Þorgautr ok Þorbergr. Þar skortir eigi högg stór ek áeggjun. Sunnanmenn höfðu lið minna ok ótraustara. Nú er fyrst at segja viðskifti þeira Barða ok Ketils. Ketill var manna sterkastr ok ofrhugi; eigast við lengi; kemr þar at Barði slæmir á síðu honum ok fellr Ketill. Ok nú hleypr Barði at Þorgauti ok veitir honum banasár. ok hnigu þeir þar báðir fyrir því vápni, er þeir áttu sjálfir. Nú er at segja frá Þorbirni ok Þóroddi; þeir gangast at í öðrum stað, ok skortir þar eigi högg stór, er hvárgi sparði við annan, ok váru flest ærit stór; ok eitt högg höggr Þóroddr til Þorbjarnar ok af fótinn í ristarliðnum, ok eigi berst hann at síðr, ok leggr fram sverðinu í kvið Þóroddi, ok fellr hann, ok liggja úti iðrin. Þorbjörn sér nú frændr sína; hirðir nú eigi um líf með örkumlum þessum. Nú snúa þeir fram

synir Guðbrands í móti Þorbirni. Hann mælti: „Leitið ykkr annars færis; ekki hafði þat ungmennis verit fyrr meir at keppast við oss“. Hleypr hann síðan at Barða, ok berst við hann. Þá mælti Barði: „Þú þykki mér troll, er þú berst svá, at af þér er fótrinn; er þetta sannara enn þat er þú mæltir við mik“. „Nei“, segir Þorbjörn, „eigi er þat trollskapr, at maðr þoli sár, ok sé eigi svá blautr, at eigi verist hann meðan hann má; má þat verða til drengskapar ok væri þat svá at virða, enn trylla menn eigi, alls þú ert góðr drengr kallaðr, ok þat skulu þér til eiga at segja, áðr enn ek hníga í gras, at ek nenta at vísu at neyta vápna.“ Þar fell hann fyrir Barða, ok fekk gott orð. Nú skortir eigi sókn, ok sezt þó með því, at sunnanmenn láta undan. Og þat er sagt, at maðr hét Þorljótr, kappi mikill; hann átti heima á Veggjum; sumir segja hann frá Sleggjulæk; hann barðist við Eirík viðsjá, og áðr þeir berðist kvað Eiríkr vísu:

(12) Staðt höfum rjóðr af reiði
randir þuðra branda
— berum-a vægð at vígi,
Veggbergr — saman leggja.
Mjök hefk heyrt at hjarta
hug þínum við brugðit;
nú getum, foldar fjötra
fúrleynir, þat reyna.

Þeir eigust við lengi, ok þat segja menn, at

varlega sé hraustari menn, hvárrtveggi manna mestr ok sterkastr, vápnfærir vel ok ofrhugar. Nú höggr Eiríkr til Þorljóts með sverði, og brestr í sundr sverðit. Hann þrífr blóðrefilinn, ok höggr til hans, ok veitir honum mikit sár, ok hann fellr.

31. Nú er á hvíld nökkur; ok nú er sén reið manna sex; þar var Þorgils höggvandi ok Eyjólfr son hans, ok synir Eiðs; sjá nú vanrétti sinna manna, ok mjök hefir á vegizt þeira hlut, ok una nú illa við. Synir Guðbrands verða varir við, at Eyjólfr er þar; biðja Barða veita sér, at þeir nái hans lífi ok hefna sín. Enn þat hafði verit, er þeir váru austr, at hann hafði hrundit þeim ór loftriði nökkuru ok í saurpytt ofan, og höfðu þeir farit hneisulega, ok hafa af því gert förina at upphafi með Barða, ef þeir næði honum. Nú segir Barði: „Þit eruð vaskir menn ok mikils verðir, ok mikit tjón ef þit látizt; nú skulum vér enn við leita, at yðvarr vili gangi fram, enn biðja vil ek, at þit gangið eigi ór fylkingu“. Þeir fá eigi stilt sik, ok hlaupa í mót honum óvægir á braut, ok berjast. Eyjólfr var hinn mesti kappi ok sundrgerðamaðr, sem faðir hans, fullgerr at afli, reynt sik mjök í framgöngu, ok er atgangr þeira langr ok harðr, ok lýkst með því, at hvárirtveggju eru svá þráir ok kappsamir, ok miklir fyrir sér, at þar liggja þeir allir dauðir at skilnaði.

Synir Eiðs berjast ok fast, ok ganga vel fram ok hermannlega. Steinn ok Steingrímr þar í móti; ok nú berjast þeir allir, ok gera mikit af sér, ok þar falla þeir synir Eiðs, ok var Barði nærstaddr, er þeir létu sitt líf. Þorgils höggvandi hlífist ekki við; þykkir sér mikill skaði gerr í dauða sonar síns. Hann var mestr fyrir sér ok betr vápnfærr enn aðrir menn; höggr á tvær hendr, ok þykkir eigi betra líf enn hel. Þeir eru mest til þess nefndir, at framast hafi verit: Þorgils ok Eiríkr ok Þóroddr. Þorgils hlífir sér ekki, ok eigi var sá maðr í því heraði, er öllum þætti meira brautargengi at enn honum. Þorgils ræðst honum í móti, bróðir Þórodds, ok eigust við lengi, ok eigi skortir harðfengi hvárntveggja; ok eitt högg höggr Þorgils til hans ór brúnunum ofan nefit, ok mælti: „Nú fekk þú gott mark, ok þér hæfilegt; slíkt skyldu þér fleiri hafa“. Þá mælti Þorgils: „Eigi er markit gott, enn meiri ván at þora ek at bera hreystilega. ok lítt þurfi þér enn at hælast“, — ok höggr til hans svá hann fellr, ok er óvígr. Nú verðr á hvíld nökkur ok binda menn sár sín. Nú er sén reið manna fjogorra. Þar var Tindr ok Tanni, Eyjólfr ok Þormóðr; ok er þeir koma at, eggja þeir mjök; váru sjálfir miklir ofrkappsmenn. Tekst nú bardagi hit þriðja sinn. Tanni ræðst í móti Barða; tekst þar víg afburða fræknlegt. Tanni höggr til, ok er enn sem fyrr'

at Barði er torsóttr, ok lýkr með því þeira máli, at Tanni fellr fyrir Barða. Eyjólfr gengr í móti Oddi, ok berjast þeir, ok er þar hvárrtveggi hinn bezti drengr; ok nú höggr Eyjólfr til Odds, ok kemr á kinnina ok í hváptinn, ok verðr þat mikit sár. Þá mælti Eyjólfr: „Vera kann at ekkjunni þykki versna at kyssa þik". Oddr svarar: „Lengi hefir eigi gott verit, enn þó mun mikit um hafa spilzt, ok þó kann vera at eigi segir þú þetta þinni vinkonu", — ok höggr til hans svá at hann fekk mikit sár. Var hér sem fyrr, at Barði var nærstaddr, ok veitir honum skaða. Þormóðr Þorgautsson var ok hraustr maðr, ok gekk vel fram; Eyjólfr frá Borg réðst honum í mót, ok verðr mjök sárr. Ok þótt þessir sé mest nefndir af Norðlendingum, þá gengu þó allir vel ok hraustlega fram, fyrir því at þeir höfðu einvala lið. Ok er þessir váru fallnir, þá létti bardaganum. Nú mælti Þorbergr, at þeir skyldi undan leita, ok váru átta menn sunnan fallnir, enn þrír norðan. Nú spyrr Barði Þórodd, ef hann myndi fara mega með þeim; hann lætr þess eigi ván, ok biðr þá undan ríða. Barði sér sárit. Nú sjá þeir liðit, er sunnan ferr, sem í skóg sæi; spyrr Barði, ef þeir vili bíða; þeir kváðust ríða vilja, ok svá gera þeir; ríða nú sextán saman, ok flestir sárir.

32. Nú er at segja frá Illuga. Hann kemr

á vættvanginn, ok sér þar ný tíðendi, ok þó mikil. Þá kvað Tindr vísu, er Illugi spurði, hvé margir þeir hefði verit:

(13) **Háit hefr ask við aska**
**átján lagar mána**
**viðr böðgerðar virða**
**viðr halfan tög þriðja;**
**enn at eggja sennu**
**almsvells boðar fellu**
**— þá hykk leygstafi lágu —**
**— lauðar — níu — dauða.**

(14) **Eiðs 'ro erfimeiðar**
**allbert í styr fallnir**
**ok tveir í gný geira**
**Guðbrands synir handan.**
**Slík bíðu vér síðan,**
**— sverðs — nema hefndir verði,**
**— traust lið minni it mesta**
**móts — aldrigi bótir.**

. . . . *þangat ferr* hann sem Þóroddr lá, ok sér at hann var lífs, ok höggr hann þegar af honum höfuðit; ok er Illugi veit þetta, þá mælti hann, at hann hefir haft ilt erendi, drepit þann mann er . . . . . eina manna mál, ef þeir hefði hlaupit frá manninum, ef þeir mætti g . . . . . fyrir. Nú ferr Illugi eftir þeim við hundrað manna. Nú lystr á myrkri. Illugi bað sína menn aftr at hverfa; lætr suðr færa þeira manna lík er fallnir vóru. Mart var sárt . . . . . lið þeira; þeir váru mjök sárir Gíslungar, Árni ok Fróði, Þormóðr ok Þórarinn. Nú vil*di* Illugi

*setja menn* til at gæta líkanna ok vita, ef þeir yrði svá veiddir, ef þeir gerði eftir förunautum sínum. Váru þeir nú eftir ok gerðu tjald ok sátu of hríð. . . . . Barði kemr til Njáls; þaðan ríðr hann út til . . . hafa sama búnað sinn. Þeir hittast nú fóstrarnir, ok segir hann Þórarni tíðendin í hljóði ok svá, at þeir munu fara eftir líkunum. Þórarinn segir, at eigi skulu þeir svá *hraða því*; skulu *þeir heyra* . . . ef þeir búa . . . um líkin; ok ferr þetta sem Þórarinn gat, at þeim leiðist á fjöllum úti ok fara heim. Nú ferr Barði í Ásbjarnarnes ok . . . . eftir . . . . um hríð. Nú lifa fjórar vikur sumars; ekki koma upp . . . . fyrir alþýðu ok skeyttu þeir mönnum ekki forvitni. Nú ríðr hann út til sáttarfundar, er *hann var efndr við* áðr hann fór heiman, við þá höfðingjana at Klifum, ok var í för með honum Guðrún kona hans, því at hon skal hitta föður sinn ok vita hvat hann vili til leggja við Barða. Hon kemr á hans fund . . . . rekr erendi sitt ok tók hann því *þung*t. Þeir Barði ríða með sama búnaði ok vissu menn . . . . tíðendi . . . skyldi; biðu lengi á mótstefnunni, ok þótti örvænt, at *Barði mun*di koma; þeir váru fjölmennir . . . . biðr Höskuld . . . . kemr . . . . kynlega við bregða se. . . . Höskuldr segir, at eigi *muni* . . . . . reið . . . . menn gengu, hann gekk í móti þeim ok heilsar . . . . . alla . . . . . þeir taka því vel . . . . *tíðendi* . . . . .

málaferli Barða skaltu einn ráða. Höskuldr svarar: „Men gott . . . . . . lut . . . . þat . . . . hafð . . . . . . eða *hversu* ætlar þú þína meðferð?“ Barði segir: „Set*u* . . . . . . . Ásbjarnarnesi . . . . Barða þykkir *eigi mikit* tillag . . . . . . Þeir Barði ríða . . . . . . . alþýðu. Nú stíga þeir . . . af hestum sínum . . . . . eiða . . . . þeir alt. . . . . . . . . . Barði mælti: Þorð . . . . ekki . . . . hlaupa . . . . . er þú hittir mik . . . . . . skyld . . . . matar oss . . . . . . vil ek gefa þér í mót . . . . mælti: „Þorvaldr gefr xij geldinga . . . . . . . . . Nú . . . . Barði til Víði*dals* . . . . *Þor*bjarnar . . . . . . . . „Björn“, segir hann, „hvat viltu leggja til í slátrin við oss, ef vér aukum nökkut ráða“. Þorbjörn mælti: „Ekki mun ek til leggja, því at ek em einskis um skyldr“. Nú áttu menn hlut í við Björn, ok fekst ekki gott af honum. Barði mælti: „Hvárigir munu þá vel hafa, ok munu þeir gjalda, er á fallit er, enn þann hlut skal gera, er þér er óvirðulegastr“. Nefnir Barði sér til vátta, ok segir skilit við Guðrúnu dóttur hans — „ok finn ek þat til saka“, segir Barði, „at þú ert miklu meiri níðingr, enn duganda manni sami, at eiga þik at mág, ok muntu hvárki ná af mér mund né heimanfylgju“.

33. Nú heyra þeir gný mikinn, at menn ríða margir til árinnar. Var þar kominn Þorgils Arason norðan um land frá brúðlaupi sínu

og Snorri með honum ok riðu saman átta tigir manna. Þá mælti Barði: „Tökum ofan búnað várn ok ríðum í flokkinn, ok aldri meir enn einn í senn, ok munu þeir ekki í ráða, er myrkt er“. Ríðr Barði at Snorra goða, ok hefir grímu á höfði sér, ok hjalar við hann á vaðinu ok segir honum tíðendin. Nú ríða þeir af áinni. Þá mælti Snorri: „Þorgils“, segir hann, „hér viljum vér æja, ok eiga dvöl ok hjalast við, meðan vér skipum oss á gistingar“. Þeir Barði ríða hjá flokkinum ok ráða menn ekki í þat. Þorgils ætlar um kveldit á Breiðabólstað. Ok er þeir höfðu niðr sezt, þá mælti Snorri: „Þat er mér sagt, Þorgils“, segir hann, „at engi maðr mæli jafnvel fyrir griðum sem þú ok önnur lögskil“. „Lítils er um þat vert“, segir Þorgils. „Nei“, segir Snorri, „mikit mun til haft, er einmæli er um“. Þorgils segir: „Eigi er fyrir haft at ek mæli betr fyrir griðum enn aðrir menn, ok má þó lögfult vera“. Snorri mælti: „Þat vil ek, at þú látir mik heyra“. Hann svarar: „Hver þörf er þess? Eru hér nökkurir missáttir“? Hann kveðst aldrigi þat vita, enn aldrigi er því misráðit, ok ger sem ek vil, ok sk*al hafa þat at gam*ni“. Þorgils segir, at svá skal vera. Hann tók þá til máls:

„Þat er upphaf griðamála várra, at guð sé við oss alla sáttr; vér skulum ok vera menn

sáttir vár á millum, ok samværir at ölvi ok at áti, á þingi ok á þjóðstefnu, at kirkna sókn ok í konungs húsi, ok hvarvetna þar er manna fundir verða, þá skulum vér svá sáttir, sem aldri hafi fjándskapr vár á milli verit. Vér skulum deila knif ok kjötstykki, ok alla hluti, vár í milli, sem frændr enn eigi fjándr. Ef sakar gerast heðan af á milli vár, þær skal fé bæta, enn eigi flein rjóða, enn sá várr, er gengr á gervar sættir, eða vegr á veittar trygðir, þá skal hann svá víða vargrækr og rekinn, sem menn víðast varga reka, kristnir menn kirkjur sækja, heiðnir menn hof blóta, eldar upp brenna, jörð grær, mögr móður kallar, skip skríðr, skildir blika, sólskin snæ lægir, Finnr skríðr, fura vex, valr flýgr várlangan bag, standi honum beinn byrr und báða vængi, himinn hverfr, heimr er bygðr, vindr vex, veitir vatn til sjávar, ok karlar korni sá. Hann skal firrast kirkjur ok kristna menn, guðs hús ok gimu, heim hvern nema helvíti. Tekr hvárr várr trygðir við annan fyrir sik ok sinn erfingja, alinn ok óborinn, getinn ok ógetinn, nefndan ok ónefndan, enn hver veitir í mót trygðir ok ævintrygðir, mætar trygðir ok megintrygðir, þær er æ skulu haldast, meðan moldir ok menn lifa:

(15) Nú erumk sáttir
ok sammála,
hvars vér finnumk

á landi ok legi,
skipi eða skíði,
hafi eða á hestbaki,
árar at miðla
ok ausskotu,
þóptu ok þilju,
ef þarfar gerask,

jafnsáttir hverr við annan, sem sonr við föður, eða faðir við son í samförum öllum. Höfum nú lófatak at trygðamálum, ok höldum vel trygðir at vilja Krists ok at vitni allra manna þeira er nú heyra trygðamál; hafi sá guðs hylli er heldr trygðir, enn sá gremi guðs er rýfr réttar trygðir. Höfum heilir sæzt, enn guð sé við alla sáttr".

34. Ok er Þorgils hafði lokit at mæla fyrir griðum, þá mælti Snorri: „Haf þökk fyrir, vinr, stórvel er mælt, ok er þat sýnt, at sá er á bak gengr, er at vísu griðníðingr, ok sé hann við staddr. Nú segir Snorri tíðendin, þau sem orðin váru, ok þat, at þeir Barði váru þar komnir í flokk þeira Þorgils. Þar váru margir vinir sunnanmanna ok náfrændr. Þorgils hafði ok átt fyrr Grímu Hallkelsdóttur, systur Illuga ens svarta. Þá mælti Þorgils: „Vel hefðim vér mátt missa þín, Snorri, nú at sinni". Hann svarar: „Eigi er þat, góði vinr, ærin eru nú orðin vandræði með mönnum, þótt hér nemi staðar". Þorgils vill nú eigi ganga á grið þessi, er hann hefir sjálfr fyrir mælt, ok skiljast menn nú. Ríðr Snorri með tuttugu menn, ok Barði með honum, ok hans

menn, til Lækjamóts, ok tekr Þórarinn vel við þeim, ok eru nú kátir, ok ráða nú ráðum sínum at . . . . . . . . . . . . . . hjöltum laust ek þik, fyrir því at mér þótti ekki annat at þér geranda".

35. Þá stendr upp einn gamall maðr, ok var þar Eiðr Skeggjason, ok mælti: „Ok kunnum vér mikla óþökk, at menn skattyrðist hér, hvárt er þat gera várir menn eða aðrir; til einskis kemr þat góðs, enn oft gerist ilt af því; skyldu menn þat mæla hér, at til sátta væri; ætlum vér, at eigi muni aðrir meir eiga eftir sínum hlut at sjá enn vér, eða öðrum muni stórugi meira harma leitat, enn mér; sýnist oss þó þat ráð, at sættast; munum vér því eigi várkynna öðrum, þó at hér skattyrðist; er þat ok vænst til, at illa gefist sem fyrr, at velja mönnum hneysuleg orð". Hann fekk góðan róm af sínu máli. Er nú leitat hverir vænstir sé um sættir at leita. Snorri er tilnefndr, at mest leitaði um sættir; hann var þá mjök hniginn; Þorgils var annarr maðr, vinr Snorra; þeir áttu systr tvær; ok ræddu svá hvárirtveggju, at slegit mundi í gerð ok í mannjöfnuð, enn menn höfðu sárt haldit frændum sínum. Kunnum vér nú ekki annat at segja, enn til mannjafnaðar váru menn lagðir, er fallnir váru, ok var Snorri tekinn til gerðar af hendi Barða ok Guðmundr Eyjólfsson; Þorgils Arason ok Illugi af hendi sunnanmanna; ræddu nú sín á milli, hvat væn-

legast væri til sætta. Nú sýnist þat, at menn skal leggja til mannjafnaðar, synir Eiðs ok synir Guðbrands, enn Þóroddr Hermundarson ok Þorbjörn, þeir váru jafnir. Borgfirðingum þótti freklega horfa við Hall Guðmundarson, ok hurfu frá, ok rufu sættir, enn þeir vissu á-huga Barða. Enn frá málalokum er at segja, at synir Þorgauts, Ketill ok Gísli, váru jafnir við Hall Guðmundarson, enn alls fórust níu menn sunnan; þá eru fjórir norðan við fim Gíslunga, fyrir því at kynsmunr var mikill, ok létu frændr Barða sér eigi annat líka. Enn þá var rætt við hváratveggju, hvat þá var vænzt. Þá váru fjórir óbættir sunnanmenn: Þorgils ok Eyjólfr, son hans, Tanni enn handrammi ok Eyjólfr systurson hans. Enn Barði sagði, at hann var engi auðmaðr, né þeir bræðr né frændr þeira: „ok eigi munum vér biðja oss fjár til bóta". Snorri svarar: „Eigi mun hér þó hvárki koma fé né mannsektir". Barði svarar, at hann vill eigi því neita, at menn færi utan, ok ætti þó útkvæmt, ok færi því fleiri — „ok er sá einn, er eigi er færr, ok skal fé fyrir hann gjalda, enn þó kann vera, at þér þykkist nökkut saknæmt við hann eiga: Gríss, félagi várr, mun ekki vera sakbitinn. Hesthöfði er býr þar, er nú heitir at Stað í Skagafirði. hann er frændi hans, hann tók með honum". Þat komst á leið, at sættir verða at því, ok kom þat helzt saman með

þeim, at þeir færi utan, ok þykkir þat helzt nökkur nafnbót vera, alls Barði var eigi bítr á fébætr; væntu þeir, at heldr mundi sjatna ófriðrinn, ok þótti sér þat eigi minni sæmd, at þeir væri utan, ok þótti vitrum mönnum þá líklegast til, at sjatna myndi þeira ofsi, svá mikill sem var, at sé eigi fyrst samlendir. Fjórtán menn skyldu utan fara, þeir sem verit höfðu at Heiðarvígum, ok vera utan þrjá vetr, ok eiga útkvæmt hit þriðja sumar, enn ekki skyldi fé til farningar þeim, ok var sæzt á málin fyrir dóma; ok sú var virðing á, at Barði þótti haldit hafa fullari hlut, ok þeir, er honum veittu, í svá óvænt efni sem komit var um hríð.

36. Nú sendir Barði menn heim í herað; þeir höfðu selt land sitt af hendi ok bú, ef þessar yrði málalyktir, er áðr var eigi ráðit þat. Sá maðr hét Þóroddr ok kallaðr kergarðr, ekki vinsæll; hann skyldi hafa þrjá vetr; hann var frændi þeira Guðmundarsona, auðigr at fé. Var nú ráðit at kalla kaup þeira. Nú kemr skip af hafi í Blönduós, er átti Halldórr, fóstbróðir Barða. Nú koma menn heim af þingi. Ok er Halldórr spyrr, at Barði skal utan fara, lætr hann bera farminn af skipinu, ok flyzt upp í Hópit fyrir hús Barða; verðr þar fagnafundr. „Frændi,“ segir Halldórr, „þú hefir vel í höndum við mik, veitt mér oft mikit; stygzt ok ekki við, er ek fór eigi; nú heit ek þér nökk-

uru tillagi; skaltu nú þat heyra: skip þetta vil ek gefa þér með rá ok reiði". Barði þakkar honum, þykkir hann stórmannlega gert hafa; býr hann nú þetta skip, ok er með honum hálfr þriði tögr manna; verða heldr síðbúnir, láta í haf, ok eru ellifu dægr úti; verðr á þá leið, at þeir brjóta skipit norðr við Siglunes, ok týna þeir miklu menn haldast. Guðmundr gamli var riðinn út á Galmaströnd, ok spyrr tíðendin, ok hvatar heim; ok um kveldit mælti Eyjólfr, son hans: „Vera má nú, at Barði sé fyrir handan, er heðan of sér; sögðu margir þat væri eigi ólíklegt". „Hversu myndir þú hátta", segir hann Eyólfr, „ef hann væri aftrreka orðinn". Hann svarar: „Hvat sýnist þér ráð"? Hann mælti: „Bjóða þeim öllum heim til vistar, þat væri þínslegt". Guðmundr svarar: „Mikit er þér í hug, ok eigi veit ek at þat sé óráðlegt". Hann svarar Eyjólfr: „Mæl manna heilastr, ek kann segja þér, at þeir Barði eru aftrreka orðnir, ok brotit (skipit) í spán við Siglunes, enn týnt mestum hlut fjárins; mun þér at þessu verða virðing", — ok tekr fyrir munn honum. Guðmundi þykkir eigi enn betr, ok lætr hann ráða.

37. Eyjólfr gerir ferð sína, ok hefir hálfan þriðja tög hesta í mót þeim, ok hittir þá á Ströndinni. Eyjólfr kveðr þá vel ok biðr þá fara heim með sér, at ráði föður síns; þeir gera

svá; skipa þar annan bekk um vetrinn, ok er Guðmundr reifr við þá, ok veitir þeim stórmannlega ok vel. Þetta spyrst víða. Einarr Járnskeggjason býðr þeim þar ok oft at vera með sér, ok eru þeir nú kátir. Er nú til þess at taka, er Þórarinn réð, at menn váru þeir með Barða er mikils váru verðir, ok mikils áttu kosti; láta nú gera eftir fé sínu vestr, ok ætla enn utan um sumarit.

38. Þat var um vetrinn, at maðr spurði Eiríkr skáld at atburðum, ok hversu mikit mannfall yrði. Hann kvað vísu:

(16) Lágu lundar frægir
lögðis skeiðs á heiði
— lind sprakk í rym randa
rauð — ellifu dauðir.
Hitt vas áðr es auðar
ógnar gims í rimmu
— jókum sókn við sœki
sárþíslar — fekk Gísli.

Enn verðr þess dæmi, at nú var spurt, hvé margir fallnir váru af hvárum. Hann kvað vísu:

(17) Þrír hafa alls af óru
japrstalls liði fallit
— vér ruðum seið í sárum
sigrborðs — viðir norðan;
Enn fúrþollar fellu
Fjölnis seiðs á heiði
— gerðist grimt með firðum
gunnél — níu sunnan.

Þá verðr ok rætt, at mjök hafi á vegizt þeira lið, sunnanmanna; þá kvað hann vísu:

(18) Styrr lét snarr ok Snorri
sverðþing háit verða,
þars geir-Nirðir gerðu
Gíslunga hlut þungan.
Enn varð eigi minna
ættakarð þats hjó Barði
— fell geysla lið Gísla —
gunn-nórunga sunnan.

39. Nú tóku þeir fé sitt félagar Barða, ok bjuggust til utanferðar með góðan fjárhlut. Barði sendir orð, ok þeir bræðr, at þeir vilja hafa land sitt ok selja; þykkjast þurfa lausafé. Hann vill eigi láta laust landit; vill at kaupit sé sem ætlat var; verða nú annathvárt at missa fjárins, eða drepa hann. Nú segir Eyjólfr, at hann mun fá þeim jafnmikit fé sem land er vert, enn hann eiga við hann; kveðst skulu annathvárt á því sumri hafa drepit hann, eða rekit af landinu, ok kastat sinni eign á. Barði kaupir skip, er uppi stóð í Húsavík; fór þá utan, ok leiddi Eyjólfr þá virðulega í braut, ok ferst nú vel, ok kemr af hafi norðr við Þrándheim í kaupangi, lætr nú upp setja skip sitt ok búa um vel. Óláfr konungr hinn helgi réð þá fyrir Noregi; hann var í kaupbænum. Barði gengr fyrir konung ok hans förunautar, kvöddu konung vel sem sæmdi —, ok er á þá leið. herra", segir Barði, „at vér vildum vera vetrgestir þínir". Konungr svarar á þá leið: „Vér höfum frétt til þín, Barði", segir hann „at þú ert ættstórr maðr ok mikill fyrir

sér, ok þér eruð vasklegir menn, ok hitt í nokkur stórræði, ok rekit harma yðvarra, ok verit þó lengi fyrir, ok þó hafið þér nökkut forneskju, ok þesskonar átrúnað, sem oss er óskaptíðr, ok fyrir þá sök, at vér höfum þat svá mjök frá oss skilit, þá viljum vér eigi taka við yðr, enn þó skulum vér vera vinir yðrir, Barði", segir hann, „ok man nökkut mikillegt fyrir yðr liggja; enn þat kann oft verða, er menn hitta í slíka hluti, ok verðr svá mikit rið at, ef nökkut verðr viðblandit forneskju, at menn trúa á þat ofmjök". Þá mælti Barði: „Eigi er sá maðr", segir hann, „at ek vilda heldr minn vin, enn yðr, ok kunnum vér þökk þinna ummæla". Barði hefir þar bæjarsetu um vetrinn, ok virðist öllum vel; enn um várit býr hann skip sitt til Danmerkr, ok er þar vetr annan í góðu yfirlæti, ok nú er eigi getit tíðenda; eftir þetta býr hann skip skip sitt til Íslands, ok kvámu fyrir norðan land út, ok váru mjök svá félausir. Guðmundr var þá andaðr, ok kom Eyjólfr þá í mót þeim, ok bauð til sín, ok síðan fór hverr til sinna heimkynna, er allir váru sýknir. Eyjólfr gefr þeim bræðrum upp föðurleifð sína, ok lýsti enn stórmensku sinni sem fyrr; veitti þeim enginn maðr jafnmikit lið sem hann. Barði ferr til mágs síns, Guðbrands; hann var bæði auðigr ok kynstórr, ok kallaðr nökkut féfastr. Enn bræðr Barða fóru til Borg-

ar ennar syðri til Eyjólfs mágs síns; þá var fóstra þeira dauð. Nú keypti Eyjólfr alt land undir þá bræðr, ok leysir Barða frá með lausafé; setja nú bú saman á föðurleifð sinni, ok urðu ellidauðir, nýtir menn, ok eigi jafnmiklir sem ættmenn þeira, ok váru báðir kvongaðir ok menn frá þeim komnir.

40. Barði ríðr til þings, eftir er hann hafði einn vetr verit hér á landi; þá bað hann sér konu; sú hét Auðr, dóttir Snorra goða, ok er hon föstuð honum, ok skyldi brúðkaup vera í Sælingsdal at Snorra goða, föður hennar; eigi er ákeðit, hve mikit fé henni skyldi heiman fylgja, enn líklegt at vera mundi góðr sómi. Hon var skörungr mikil, ok unni Snorri henni mikit; móðir hennar var Þuríðr, Illuga dóttir hins rauða. Barði ríðr um þingit til Vatnsdals, til mága sinna, og unir vel við ferð sína, ok hefir góða virðing af mönnum; fór eftir því, sem vitrir menn höfðu fyrirsét, at sætt manna helzt, sem á var. Nú býr Snorri veizluna, sem ætlat var, ok kemr þar fjölmenni mikit, ok ferr hon fram skörulega, sem ván var, ok er Barði þar um vetrinn ok bæði þau; enn um várit fara þau í braut með alt sitt, ok skiljast þeir Barði ok Snorri góðir vinir. Hann fór nú norðr til Vatnsdals, ok er þar með Guðbrandi, mági sínum. Ok at vári býr hann ferð sína, kaupir skip, ok ferr utan, ok kona hans með

honum, ok er sagt honum greiddist vel ferðin, ok kemr af hafi norðr við Hálogaland, ok er þar um vetrinn í Þjóttu með Sveini Hárekssyni, ok var vel virðr, ok þóttust menn sjá á honum stórmensku, ok virði hann þau bæði mikils.

41. Svá bar til einn morgin, er þau váru úti í skemmu bæði, at Barði vildi sofa, enn hon vildi vekja hann, ok tekr eitt hægindi lítit ok kastar í andlit honum, svá sem með glensi; hann kastar braut, ok ferr svá nokkurum sinnum; ok eitt sinn kastar hann til hennar, ok lætr fylgja hendina; hon reiðist við, ok hefir fengit í stein ok kastar til hans. Ok um daginn eftir drykkju stendr Barði (upp), ok segir skilit við Auði, ok segir, at hann vill eigi af henni ofríki taka né öðrum mönnum; ekki tjáir orðum við at koma, svá er þetta fast sett. Er nú fjárhlutum skift þeira á milli, ok hann ræðst þaðan braut um várit, ok lætr eigi af ferð sinni, fyrr enn hann kom í Garðaríki, gekk þar á mála ok var með Væringjum, ok þótti öllum Norðmönnum mikils um hann vert, ok höfðu hann í kærleikum með sér ávalt, er kongsríki skal verja; er hann í leiðangri, ok fær gott orð af hreysti sinni, ok hefir um sik mikla sveit manna; þar er Barði þrjá vetr í mikilli sæmd frá konungi ok öllum Væringjum. Ok eitt sinn, er þeir váru á galeiðum við her, ok vörðu enn konungs ríki, þá kom at þeim herr; gera þeir nú bardaga mik-

**inn; fellr mjök lið konungs, er við ofrefli var at brjótast, ok gerðu áðr mörg stórvirki; ok þar fell Barði með góðum orðstír; hafði drengilega neytt sinna vápna til dauða. Auðr var gift öðrum manni, syni Þóris hunds, er Sigurðr hét, ok eru þaðan komnir Bjarkeyingar, hinir ágætustu menn, ok lýkr þar þessarri sögu.**

---

## Viðauki.

(Eftir handriti rituðu af Jóni Þorsteinssyni á Guðnabakka 1822).

— — *Þórarinn fagnar nú vel Barða ok þykkir ferðin hafa orðið allröskmannleg. Þá mælti Þórarinn: „Ekki munu þér nú kyrrir sitja mega, ok grunr er mér, at Borgfirðingar muni eigi svá búit láta standa, ok heldr fara norðr hingat á hendr þér; er sá einn kostr, at hafa vígi nökkut til varnar sér". Ok gera þeir Barði nú ráð sín ok eftir þat skilja þeir; ferr nú Barði heim fyrst. Hamarr stendr nálægt Borg, er heitir Borgarklettr; þar er vígi svá gott, at einn maðr getr hæglega varist uppgöngu, þótt margir sé til atsóknar. Þeir Barði gerðu sér skála uppi á hamrinum, ok sér þess merki enn í dag, því þar stendur tóftin enn að mestu heil; er hún hlaðin af stórum hellusteinum; segja menn hún hefði verit hér um 7 faðmar á lengd, enn 4 á breidd. Þangat lét Barði flytja vápn ok vistir, ok hvat sem hafa*

*þurfti, enn varðmenn setti hann inn í Þóreyjargnúp at gera sik varan við mannareiðir, eða ef ófriðarmenn kynni at koma at sunnan.*

*Nú er at segja frá Illuga svarta, at hann ríðr heim ok safnar mönnum, ok urðu saman níutíu manna ok með þetta lið ríðr hann norðr í Víðidal ok ætlar at taka Barða af lífi ok alla hans fylgjara. Enn sem Barði fær njósn af þessari ferð hans, ganga þeir upp á Borgarklett ok búast þar um; kemr Illugi þar at (með) flokkinn, ok sér at þeir verða ekki sóttir meðan þeir eru í víginu; eggjar hann nú Barða alla vega at ganga úr víginu ok berjast með drengskap. Barði kveðst svá gera mundu, ef þeir vildi berjast með jafnmörgum mönnum, enn láta hina aftr hverfa, er um fram væri, enn Illugi kveðst eigi mundu skifta liði sínu eftir hans (geð)þótta. Barði mælti: „Ef þú vilt njóta liðs þíns, þá mun ek njóta vígis míns“.*

*Þeir Illugi gera nú ráð sín ok verða á þat sáttir, at þeir skuli setjast um virkit ok sitja þar þangat til þeim Barða yrði vista skortr, ok þat gera þeir, at þeir sitja þar langan tíma, hverir sem komnir eru. Svá kom um síðir, at vista þrot varð hjá þeim Barða. Illugi ok hans menn spottuðu þá oft, ok þá þeir settust niðr til snæðings, buðu þeir Barða ok hans mönnum til matar, enn þeir gáfu því engan gaum. Einn morgin kemr bryti Barða til hans ok segir, at nú sé ekkert eftir af vistum þeirra nema eitt mörsiðr, ok spyrr hvárt því skyldi þá skifta með mönnum Barða. Hann svarar: „Annat ráð skulum vér taka; þá þeir setjast niðr at matast, skulum vér kasta þessu út til þeira; má vera þeir haldi vér höfum ærna vist ok hætti umsátinni. Nú líðr þar til sumran-*

*menn setjast at dagverði. Bjóða þeir þá enn af spotti mönnum Barða til snæðings með sér. Barði tekr þá mörsiðrið ok kastar út til þeirra. Þá mæltu þeir Illugi, at eigi mundi þessu út kastat, ef eigi væri gnægtir fyrir. Bað Illugi þá taka hesta þeirra ok ríða þaðan — „vil ek hér eigi bíða frera“. Eftir þat rjúfa þeir umsátina ok ríða suður til sinna heimkynna. Enn af þessu tiltæki Barða er sá orðskviðr kominn, at kalla að sá kasti út mörsiðrinu, sem tekr til síðustu úrræða. Þeir Barði fara eftir þetta til búa sinna, ok er alt kyrt þenna vetr. Um várit stefndi Illugi málum þessum til alþingis, ok váru þeir Barði gerðir utan þrjá vetr. Þrettán váru þeir norðanmenn, er utan fóru ok verit höfðu með Barða at heiðarvígum. Þeir Barði seldu eignir sínar áðr þeir fóru utan, því at þeim varð féfátt mjök at svara bótum þeim er gervar váru þeim á hendr. At liðnum þremr vetrum kómu þeir Barði aftr til Íslands, ok váru þá staðfestulausir. Barði var kvángaðr maðr ok átti Guðrúnu Þorbergsdóttur. Hann fór þá á fund mágs síns og bað hann fá sér staðfestu nokkura. Þorbergr neitaði því. Barði reiddist þá ok mælti: „Meira ertu vesalmenni enn svá, at nökkur dugandi maðr skyldi þér mægðr“. Reið síðan heim ok sagði skilit við Guðrúnu konu sína. Eftir þat reið hann vestr í Dali ok bað Auðar, dóttur Snorra goða, ok var hon honum gefin. Tvá vetr dvaldi Barði hér á landi eftir útkomu sína. Eftir þat bjóst hann til utanfarar. — — —*





## Vísnaskýringar.

1 (Halli berserkr). Gangfögr, línbundin liðar hanga leygjar gerðr,[1] hvert hafið of gerva för þína? ljúg vætr[2] at mér; þvít sákat[3] þik, hin vitra húns vangs hirðidís,[4] ganga í vetr, skrautlegar búna frá húsi.

1. *leygr*, eldr; *hangaleygr*, hangandi eldr; *hangaleygr liðar*, hangandi eldr fingrs, hringr; hrings *Gerðr*, kvenkenning. — 2. *vætr* = ekki. — 3. *sákat* = sá ek eigi. 4. *húnn*, teningr; húns *vangr*, reitr eða svæði tenings, taflborð, *hirðidís* taflborðs, kona.

Að öðru leyti er vísa þessi skýrð í Eyrbyggju (21. vísa þar).

2 (Gestr Þórhallason). Varat[1] þörf at binda böndum of sár, — enn sák[2] víga-Styr hníga sáran; þveita[3] beit hjalma stöð[4] —, þás sák allrauðan unda sœg[5] falla af brúnar beinum mági báglunds goða.[6]

1. *varat* = var eigi. — 2. *sák* = sá ek. — 3. *þveita*, öxi. — 4. *hjalma stöð*, höfuð. — 5. *sœgr*, sær, *unda sær*, blóð. — 6. *báglundr* = báglyndr, illr í geði.

Eigi var þörf að binda böndum um sár — enn eg sá víga-Styr falla sáran; öxi beit á höfuð hans — þá er eg sá blóðið mjög rautt falla niðr af brúnum mágs hins geðilla goða (mágs Snorra goða, Styrs).

**3 (Þuríðr Óláfs dóttir pá).** Brátt munu beiðendr frétta Barða þrimu seiða.[1] Munt taliðr[2] spillir þinnar ættar, Ullr undlinns,[3] nema (þú) lýbrautar ljóss valdandi[4] látir lauðhyrs boða[5] falda rauðu. Lýðr nemi ljóð sem kváðum.

1. *þrima*, bardagi; *seiðr*, galdr; *þrimu seiðr*, bardaga hljómr. — 2. *taliðr*, = talinn. — 3. *linnr*, ormr, *undlinnr*, sverð, *Ullr undlinns*, maðr. — 4. *lýr*, fisktegund, *lýbraut*, sjór; sjávar *ljós*, gull; gulls *valdandi*, mannkenning. — 5. *lauð*, löð; *hyrr*, eldr, laðar eldr, gull; eða *lauð* á að vera *lauðr*, sjór; gulls *boði*, maðr.

Beiðendr (þeir sem beiðast) munu brátt frétta Barða um orrustu. Þú munt talinn spillir ættar þinnar, nema þú látir mennina (óvini vora) falda rauðu.

**4 (Eiríkr víðsjá).** (Vér) höfum farit nítján saman norðan of heiði, hlynr hræborðs.[1] Vér hyggjum nœra blóðs nag.[2] Þó getum hins, árr hlunntams Heita skæs,[3] at munim nökkuru færi sunnan. Skald hyggr til skæru.

1. *rít*, skjöldr; *hræborð*, blóðugt borð eða fjöl. — 2. *blóðs nagur*, hræfugl. — 3. *Heiti*, sækonungr; *skær*, hestr; *hlunntamr*, vanr hlunnum; *Heita skær*, skip.

Vér höfum farið að norðan, bardagamaður, hugðum að berjast. Þó segir oss svo hugr um, að við munum færri sunnan. Eg býst við orrustu.

**5 (Þorbjörn Brúnason).** Eigi mun sú auðrær,[1] es eigum, falda bláu at mik dauðan; fold mens[2] vill minn aldr í moldu. Ölseljan[3] ann mér Heljar eplis;[4] þat es óskaplegt, enn auðs brík[5] má ekki vinna at slíku.

1. *auðrær*, auðstöng(?), kvenkenning. — 2. *mens fold*, kvenkenning. — 3. *ölselja*, kvenkenning. — 4. *epli Heljar*, dauði. — 5. *auðs brík*, kvenkenning.

Ekki mun kona mín falda svörtu eftir mig dauðan; hún vill láta mig vera kominn ofan í jörðina. Hún ann mér dauða; það er ótilhlýðilegt, enn hún ræður því eigi, hvort eg skal deyja eða eigi.

6 (**Þorbjörn Brúnason**). **Fagrstrykvinn Áta mars fannar fákrennandi**[1] **kann ekkju óþakkir, þót gráti mik kykvan; þvít [þat er] ofnauð**[2] **liðar eims Aumu,**[3] **es [hon] skal leiða heiðingja vin**[4] **dauðan höfgum hlýra skúrum.**[5]

1. *fagrstrykvinn*, fagrstrokinn, slétthærðr; í daglegu máli er enn haft „strykinn" um hesta; *Áti*, sækonungr; *Áta marr*, sækonungs hestur, skip; skips *fönn*, sjór; *Áta mars fannar fákr*, skip; skips *rennandi*, maðr. — 2. *ofnauð*, ofmikil nauð, kvöl. — 3. *eimr*, eldr, *liðar* eldr (úlfliðar eldr? sbr. líka *liðar hanga leygjar Gerðr* í 1. vísu), gull. *Auma*, ey í Norðmærafylki í Noregi (Omö). — 4. *heiðingi*, sá sem lifir á heiðum, úlfr; *vinr* úlfs, bardagamaðr. — 5. *höfugr*, þungr; *hlýr*, kinn; hlýra *skúr*, tár; *leiða*, annaðhvort = grafa í leiði eða fylgja.

Rennandi hins fagrstrokna sækonungs hests kann ekkju óþakkir, þótt hún gráti mig lifanda; því að henni er það ofmikil raun, að gráta mig dauðan.

7 (**Þorbjörn Brúnason**). **Þat varð mér — vandak hinn mæra brag minn — hvítvöndr randa, hjalmfenris holma, rítar,**[1] **brast í tvau, mótruðr jöru**[2] **snóta, þars dreyra reyr**[3] **hnitu**[4] **saman á mætu móti hanga heimþingaðar.**[5]

1. *hvítvöndr*, hvít grein, bjartr stafr; *rönd*, skjöldr; *fenrir*, úlfr; *hjalmfenrir*, spillir hjalms, sverð; *hjalmfenris holmi*, skjöldr; *rít*, skjöldr. — 2. *jara*, bardagi; *jöru snót*, bardaga kona; *mótruðr jöru snóta = runnr móts jöru snóta*, bardaga runnr, maðr.— 3. *reyr*, hvk., pípa (á dönsku

**R ö r);** ***dreyra reyr,*** **dreyra pípa eða stöng, sverð. — 4.** ***hníta,*** **rekast, skella. — 5.** ***hangi,*** **dauðr líkami, er hangir í galga;** ***heimþingaðr,*** **heimsækir;** ***hanga heimþingaðr,*** **Óðinn; Óðins** ***mót,*** **bardagi.**

**Það varð mér, að sverð mitt brotnaði í bardaganum, þar sem vopnin skullu saman, bardagamaðr.**

**8 (Þorbjörn Brúnason). Væri betr, dalreyðar dýrreitar hirði-Baldr,[1] at ek bæra ókostalausan benvand[2] í gný hleypikjóls randa[3] — ok heilan haus — þanns skal veita ófáum manni dauða ok (at) hann heldumk.[4]**

**1.** ***reyðr,*** **hvalr;** ***dalreyðr,*** **ormr;** ***dýrreitr*** **orms, gull;** ***hirði-Baldr*** **gulls, mannkenning. — 2.** ***benvandr = benvöndr,*** **sverð. — 3.** ***kjóll,*** **eins konar skip;** ***hleypikjóll,*** **léttiskúta;** ***rönd,*** **skjaldarbaugr, skjaldarrönd; léttiskúta bauga, skjöldr;** ***gnýr*** **skjaldar, bardagi. — 4.** ***heldimk*** **= heldist mér, varðveittist óskaddr mér til handa.**

**Betr að eg gæti borið heilan haus og óskaddað sverð í bardaganum, sem eg gæti unnið á mörgum með, og að eg mætti halda því.**

**9 (Gísli Þorgautsson). Hér vildu fálu marar[1] sœkja mik . . . . Ullr oddgaldrs[2] segir hitt, at allir Hlakkar glóða hríðar herðendr[3] munit[4] verða skaldi trúir.**

**1.** ***fálu marar,*** **trollkonu hestar, úlfar. — 2.** ***Ullr oddgaldrs,*** **mannkenning. — 3.** ***Hlökk,*** **valkyrja;** ***Hlakkar glóð,*** **sverð; sverða** ***hríð,*** **bardagi; bardaga** ***herðendr,*** **menn. — 4.** ***munit*** **= muni eigi.**

**Fyrri hlutr vísunnar er svo aflagaðr, að hann verðr eigi skýrðr;** ***húmfress*** **er skip, og því hlutr af kenningu.**

**Hér vildu úlfar sækja mig, . . . . og eg segi, að allir muni ekki verða mér trúir.**

**10** (Eiríkr viðsjá). Frægir rekkar flykkjask, hverr es fúss til snerru, herkunn þjóð tekr dragask hart sunnan á heiði. Hvergi harðráðr Barði biðr herja[1] fara fyrir frá geira hreggs glyggvi[2] gunnórunga[3] sunnan.

1. *herjar*, menn. — 2. *geira hregg*, bardagi; *glygg*, hvk. = glyggr, gluggi, hér: vindr, *geira hreggs vindr*, bardaga-gnýr. — 3. *gunn-nórungar*, bardaga eflendr, bardagamenn.

Frægir menn fara í flokki saman; allir eru fúsir til að berjast; hinn hrausti flokkr tekr nú að fara hratt (hart) sunnan á heiðina. Barði er alls ekki harðr í tillögum; hann biðr menn að fara undan ófriði sunnanmanna.

**11** (Eiríkr viðsjá). Höldum vér fast foldu, hverr þoki fram til snerru, látum ryðjendr[1] snyðja[2] reyndan randa val[3] í ben. Ek kann bíða ór stað,[4] þót sagt sé, at sverð-él[5] taki herða sunnan. Rjóðum hart hjalmskíð[6] á heiði.

1. *ryðjendr*, rjóðendr. — 2. *snyðja*, annaðhvort: flýta sér, eða þefa, nasa. — 3. *randa valr*, skjalda spillir, sverð. — 4. *bíða ór stað*, bíða í þeim stað, sem eg er í. — 5. *sverðél*, bardagi. — 6. *hjalmskíð*, sverð.

Höldum orrustuvellinum, hverr gangi fram til bardaga, látum sverðin ganga í sárin. Eg mun ekki þoka, þótt sagt sé, að sunnanmenn herði bardagann. Beitum skarplega vopnum á heiðinni.

**12** (Eiríkr viðsjá). Rjóðr þuðra branda,[1] höfum staðt[2] leggja randir saman af reiði; berum-a[3] vægð at vígi, Veggbergr. Ek hefi heyrt hug þínum mjök brugðit við at hjarta,[4] foldar fjötra fúrleynir;[5] nú getum reyna þat.

1. *þuðr* = þunnr; *rjóðr þunnra branda*, mannkenning.

— 2. *staðt* (sagnbót af s t e ð j a), fastráðið. — 3. *berum-a* = berum eigi. — 4. *at hjarta*, at hugrekki. — 5. *fúr*, eldr; *foldar fjöturr*, sjór; sjávareldr, gull; gulls *leynir*, mannkenning.

Vér höfum ráðið að berjast í ákafa; vér skulum ekki vægja hvor öðrum, Veggbúi (Þorljótr af Veggjum). Eg hefi heyrt þér við brugðið fyrir hugrekki; nú getum vér reynt það.

13 (**Tindr Hallkelsson**). Viðr böðgerðar[1] hefr roðit ask[2] við átján aska lagar mána[3] viðr halfan þriðja tög virða;[4] enn níu almsvells boðar[5] fellu; hykk þá leygstafi lauðar[6] lágu dauða.

1. *böð* (böðgerð), bardagi. — 2. *askr*, spjót. — 3. *lagar máni*, gull, *gulls-askr* (viðr), mannkenning. — 4. *virðar*, menn. — 5. *almsvell*, bogahagl, örvar; örva*boðar*, menn. — 6. *lauð* = löð; laðar *leygr* (eldr), gull; *gullstafir*, menn.

Hann (Barði) hefir háð bardaga með átján mönnum við hálfan þriðja tug manna. Enn níu hygg eg vera fallna.

14 (**Tindr Hallkelsson**). Erfimeiðar[1] Eiðs eru allbert fallnir í styr,[2] og tveir Guðbrands synir handan í gný geira.[3] Vér bíðum aldrigi síðan bótir slíks, nema hefndir verði; traust lið minni it mesta sverðs móts.

1. *erfimeiðar*, synir. — 2. *styr*, bardagi. 3. *geiragnýr*, bardagi.

Synir Eiðs eru að vísu fallnir í bardaganum og tveir synir Guðbrands. Vér bíðum þess ekki bót, nema vér komum fram hefndum. Hraust lið skyldi minnast vel þessa bardaga.

15 (Griðamál). Vísan þarf ekki skýringar við; *aus-skota* er ausker eða austrker.

16 (Eiríkr víðsjá). Frægir lundar lögðis skeiðs[1] lágu ellifu dauðir á heiði — rauð lind[2] sprakk í randa rym.[3] — Hitt vas áðr, es Gísli fekk auðar[4] í rimmu ógnar gims.[5] Jókum sókn við sœki sárþíslar.[6]

1. *lögðir*, sverð; *lögðis skeið*, skjöldr; *lundr* skjaldar, mannkenning. — 2. *lind*, skjöldur. — 3. *randa rymr*, skjalda gnýr, bardagi. — 4. *auðr*, karlk., forlög (ø d e á sænsku, er líka til í dönsku). — 5. *gim*, eldr; *ógnar-gims rimma*, bardagi. — 6. *þísl* (á fornensku þ i s l, á þýzku D e i c h s e l, vagnstöng), stöng; *sárþísl*, spjót; *sœkir sárþíslar*, mannkenning.

Hraustir bardagamenn lágu ellefu dauðir á heiði — skildir vóru klofnir í bardaganum. Áðr varð Gísli að sæta forlögum sínum í vopnaviðskiftum. Vér sóttum að honum.

17 (Eiríkr víðsjá). Þrír japrstalls viðir[1] norðan hafa alls fallit af óru liði; vér ruðum sigrborðs seið[2] í sárum; enn níu Fjölnis seiðs fúrþollar[3] sunnan fellu á heiði; grimt gunnél[4] gerðisk með fyrðum.[5]

1. *japr*, ormr, orms *stallr*, gull, gulls *viðr*, mannkenning. — 2. *sigrborð*, skjöldr; *seiðr*, fisktegund, upsi. — 3. *seiðr*, galdr, hljómr; *Fjölnis* (Óðins) hljómr, bardagi; *fúr*, eldr, bardaga eldr, sverð; sverðs *þollar* (viðir), menn. — 4. *gunnél*, bardagi.

Þrír menn að norðan hafa alls fallið af voru liði; vér ruðum sverðin í blóði; enn níu menn að sunnan fellu á heiðinni. Bardaginn var hinn skæðasti.

**18 (Eiríkr viðsjá).** Snarr Styrr ok Snorri lét sverðþing[1] verða háit, þars geir-Nirðir[2] gerðu hlut Gíslunga þungan; enn þat sættskarð gunn-nórunga[3] sunnan, es Barði hjó, varð eigi minna; lið Gísla fell geysla.[4]

1. *sverðþing*, bardagi. — 2. *geir-Nirðir*, menn. — 3. *nórungr*, styrkjandi, eflandi (sbr. n œ r a og n a r a), *gunn-nórungr*, bardagamaðr. — 4. *geysla* = geysilega.

Hraustr Styrr og Snorri háðu bardaga og gerðu þungan hlut Gíslunga (sættmanna Gísla). Enn eigi varð það sættskarð sunnanmanna minna, er Barði hjó. Lið Gísla fell geysilega.

# Nöfn.

**Kennarinn** segir meðal annars í ritgerðinni „Hollur og óhollur lestur“:

„Það, sem íslenzkir unglingar, sjerstaklega þeir, sem löngun hafa til að afla sjer æðri menntunar, ættu í tíma að færa sjer í nyt, eru hinar gullfögru og stórfrægu fornsögur, sem settar eru af menntuðum mönnum á bekk með hinum merkustu bókmenntum heimsins. Aldrei verður það of opt tekið fram, að það, að fara á mis við þá andans nautn og uppbygging, sem þessar fornu bókmenntir þjóðar vorrar veita, er að svipta sjálfan sig auðlegð, sem er ómetanleg“.

(*Kennarinn* I, 5.)

Verð: 1 kr. 40 aur.

Íslendinga sögur.

28.

# Grettis saga.

Búið hefir til prentunar
Valdimar Ásmundarson.

Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1900.

Félagsprentsmiðjan.

# GRETTIS SAGA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

VALD. ÁSMUNDARSON.



**REYKJAVÍK.**

**KOSTNAÐARMAÐUR:** ***SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.***

**1900.**

# FORMÁLI.

Grettis saga Ásmundarsonar hefir áðr verið útgefin þrisvar sinnum, fyrst í „Nokkrir margfrooder söguþættir", Hólum 1756, þar næst gáfu þeir hana út Gísli Magnússon og Gunnlaugr Þórðarson á kostnað norræna fornfræðafélagsins, Khöfn 1852, og loks er hún gefin út í „Altnordische Sagabibliotek" af R. C. Boer (frb. Búr), hollenzkum fræðimanni, Halle 1900.

Handritin af Grettis sögu eru öll fremr ung. Hún hefir verið gefin út bæði af þeim Gísla Magnússyni og Boer eftir hinum sömu handritum. Handrit í Árnasafni 551 fol. hefir verið höfuðhandritið við þær útgáfur, og þar sem í það vantar hefir annað handr. verið notað, 556 A.M. Bæði þessi handrit eru skinnbækr. Auk þessa hafa fleiri hndr. verið höfð til samanburðar. Ekkert af hndr. sögunnar er eldra enn frá 15. öld.

Útgáfu Boers fekk eg ekki í hendr fyrr enn lokið var prentun sögunnar í þessari útgáfu, og gat því að eins notað hana við vísnaskýringarnar. Enn með því að Boer er víða all-djarfr í tilgátum sínum í vísunum, er varlega eftir þeim farandi, þótt sumar lagfæringar hans sé líklegar og til bóta. Sögutextann hefði víst mátt lagfæra á nokkurum stöðum með því að hagnýta orðamun handritanna eins og Boer hefir tilfært hann. Þó eru það að eins smámunir einir.

Það hefir lengi verið ætlan fróðra manna, að Grettis

saga sé nú önnur enn hún hafi verið upphaflega. Þannig segir Guðbrandr Vigfússon, að það sé „varla efamál, að Grettis saga muni í öndverðu ritin seint á 12. öld, enn síðan hefir annar maðr löngu síðar, á öndverðri 14. öld að líkindum, aukið við Spesarþætti og skotið þar að auki ýmsum klausum inn í söguna hér og hvar, mest eftir frásögn Sturlu lögmanns“.

Hið sama má ráða af orðum dr. Jóns Þorkelssonar eldra í eftirmálanum aftan við „Skýringar á vísum í Grettissögu“, Reykjavík 1871, að hann ætli að sagan muni nú breytt frá hinni upphaflegu gerð, því að hann segir, að „í þeirri mynd, sem Grettis saga hefir nú“, muni hún varla eldri enn frá lokum þrettándu aldar eða upphafi hinnar fjórtándu.

Boer kemst að líkri niðrstöðu. Hann álítr, að sagan sé upphaflega rituð um 1250, og er hann samdóma Guðbr. Vigfússyni um það, að sagan sé snemma færð í letr, þó hann vilji ekki gera hana jafngamla og Guðbr. Vigfússon gerir. Síðar álítr hann, að nýr höfundr hafi endrsamið hana, eða breytt henni, eftir dauða Sturlu lögmanns Þórðarsonar (1284), og þó ekki miklu síðar, svo sem um 1290. Síðast hafi enn annar höfundr breytt sögunni um 1300. Hann segir að Grettis saga hafi verið stjúpbarn norrænna sagna af því hverjum forlögum hún hefir orðið að sæta í meðförunum. Hin upphaflega Grettis saga álitr hann að verið hafi eitt hið fegursta og merkilegasta rit frá söguöldinni.

Viðbætr síðari höfundanna álítr hann vera: Söðulkolluvísur, æfintýrið um Loft á Kjalvegi, æfintýrið á Öxarfjarðarheiði (Reykjaheiði, sem sagan kallar) í 63. kap., tröllasöguna úr Bárðardalnum, niðrlagið á 67. kap., frá því er sagt er frá komu Grettis að Bjargi og það sem sagt er um viðreign Grettis og Þórodds Snorrasonar o. fl., söguna af Hegranesþingi í 72. kap. og fjóra staði þar sem getið er Sturlu Þórðarsonar eða Sturlunga, 49., 69.,

84. og 93. kap., og tilraunir þær er getr í 77 kap., um að fá Gretti úr sekt. Enn fremr Spesar-þáttr og ýmsar af vísunum. — Að líkindum hefir sagan verið fyllri í fyrstu enn nú er hún, og hefir hún síðar losnað meira í sundr, enn til þess að halda henni betr saman, hefir þá verið bætt inn í hana eftir sögusögnum síðari manna. Það er þannig mjög líklegt, að upphaflega hafi verið meira sagt frá útlegðar árum Grettis, og að Grettir hafi verið víðar um landið enn sagan segir frá, einkum norðr og austr um land, enn til þess að bæta úr því er bætt inn í sögninni um dvöl Grettis í Þórisdal. — Það má t. d. telja víst, að Grettir hafi um nokkurn tíma dvalið í Öxarfirði, og þar er enn til sýnis Grettisbæli (í Öxargnúpi), sem enginn getr efast um að sé mannaverk, og ekkert er á móti því, að það sé af Gretti gert, eins og munnmælin segja. Það hefir verið svo rammlega bygt, að nokkuð af þakinu stendr enn í dag. Eru lýsingar af því til eftir Björn Björnsson (í „Íslendingi“), Kaalund (í „Ísland“ II.) og séra Þorleif Jónsson (í „Fjallkonunni“). Frásögn sögunnar um viðreign Grettis og Þóris á Reykjaheiði er röng, að því er staðinn snertir; það hefir verið á Öxarfjarðarheiði, enda segir sagan að Grettir hafi um sömn mundir legið úti á Möðrudalsheiði. Á Reykjaheiði eru engar mýrar, enn þær eru á Öxarfjarðarheiði, og þaðan er líka skamt í skóg („til lundar“), eins og Grettir segir í vísunni. — Svo virðist sem höf. Grettis sögu hafi verið lítt kunnugr norðr þar og í hinum eystri héruðum, enda mun hann hafa átt heima nær höfuðstöðvum sögunnar. Vísurnar í 80. kap. hafa verið álitnar ungar, enn þær virðast þó býsna fornlegar, og að kveðandi til geta þær verið fornar, ef í stað „þarfur Vébrands arfi“ er sett „þarflegr Vébrands arfi“. Það getr naumast átt sér stað, að söguritarinn hafi búið til þessar vísur, sem hvergi eiga við söguna. Hitt er líklegra, að hann setti þær inn í hana, þótt hann gæti ekki sagt frá þeim atburðum, sem

þær eiga við. Það styrkir þá skoðun, að efnið í vísum þessum geti verið upphaflegt, þó vísurnar sjálfar sé ef til vill síðar ortar, að í Mýrdal hafa gengið munnmæli um Gretti eins og í Öxarfirði. Er því ekki ólíklegt, að vísan um viðreign þeirra Grettis og Torfa Vébrandssonar, sem hvergi er annarsstaðar getið, hafi við söguleg rök að styðjast. Sama er að segja um vísuna um Þorfinn Arnórsson; sú vísa er einnig í Ljósvetninga sögu, og segir þar, að Grettir hafi ort hana um Þorbjörn Arnórsson í Reykjahlíð. Grettis saga getr ekkert um það, og lætr vísuna vera orta um Þorbjörn öxnamegin, enn hvergi á hún þó við þar sem sagt er frá viðreign þeirra Þorbjarnar. Þessar þrjá vísur virðast alls ekki vera nýlegri enn ýmsar aðrar vísur í sögunni.

Margar munnmæla sagnir hafa eflaust gengið af Gretti, því að hann hefir jafnan verið eftirlæti þjóðarinnar, einkum af aflraunum hans og frækleik, svo sem örnefnin t. d. benda á um „Grettishöf“ eða „Grettistök“, þó að þau muni flest vera öðru vís til komin. Sumt af þessum munnmælum er í „Íslenzkum Þjóðsögum“. Ein munnmælasagan er um það, hve Grettir hafi tekið freklega til matar síns, og á þar við þessi vísa, sem móðir mín kendi mér og er allgömul:

„Grettir át í málið eitt
nautsmagál og kletti feitt,
flotfjórðung og fiska tólf,
fjóra limi og endikólf“.

Gæti þessi vísa, ef til vill, verið úr fornri rímu um Gretti.

Grettis saga hefir jafnan verið talin einhver hin ágætasta af sögum vorum. Guðbr. Vigfússon kemst svo að orði um hana (Safn I 468): „Grettla hefir í ýmsu yfirburði yfir allar vorar sögur ef til vill, og mun engin saga vera jafn-íslenzk í orði og anda sem hún, og er hún í öllu lifandi eftirmynd landsins, sem hún gerðist í

(mætti líka segja þjóðarinnar, sem hún gerðist hjá). Hún hefir verið einna vinsælust af öllum sögum. Í engri sögu eru jafnmörg spakmæli og orðskviðir sem henni. Orð Grettis eru allvíða nokkurs konar Hávamál í sundurlausri ræðu. — — Það er á öllu auðséð, að einhver ágætr sögumaðr hefir handleikið hana, svo að hvar sem hún kemr saman við aðrar sögur, þá skal það ekki skeika frá réttum sanni".

## TÍMATAL.







# Grettis saga.

Önundr hét maðr. Hann var Ófeigs son burlufótar, Ívarssonar beytils. Önundr var bróðir Guðbjargar, móður Guðbrands kúlu, föður Ástu, móður Óláfs konungs hins helga. Önundr var upplenzkr at móðurætt, enn föðurkyn hans var mest um Rogaland ok Hörðaland. Önundr var víkingr mikill, ok herjaði vestr um haf. Með honum var í hernaði Bálki Blæingsson af Sótanesi, ok Ormr hinn auðgi; Hallvarðr hét hinn þriði félagi þeira; þeir höfðu fim skip, ok öll vel skipuð. Þeir herjuðu um Suðreyjar; ok er þeir kvámu í Barreyjar, var þar fyrir konungr sá er Kjarvalr hét; hann hafði ok fim skip. Þeir lögðu til bardaga við hann, ok varð þar hörð hríð; váru Önundar menn hinir áköfustu. Fell margt af hvárumtveggja; enn svá lauk, at konungr flýði einskipa. Tóku menn Önundar þar bæði skip ok fé mikit, ok sátu þar um

vetrinn. Þrjú sumur herjuðu þeir um Írland ok Skotland; síðan fóru þeir til Noregs.

2. Þenna tíma var ófriðr mikill í Noregi; brauzt þar til ríkis Haraldr lúfa, son Hálfdanar svarta. Hann var áðr konungr á Upplöndum. Síðan fór hann norðr í land ok átti þar margar orrustur, ok hafði jafnan sigr. Herjaði hann svá suðr eftir landinu, ok lagði undir sik, hvar sem hann fór; enn er hann kom upp á Hörðaland, kom í móti honum múgr ok margmenni. Váru þar formenn Kjötvi hinn auðgi ok Þórir haklangr, ok þeir suðr-Rygirnir og Sulki konungr. Geirmundr heljarskinn var þá fyrir vestan haf, ok var hann eigi við þenna bardaga, ok þó átti hann ríki á Hörðalandi. Þetta haust kvámu þeir vestan um haf, Önundr ok hans félagar; enn er þeir fréttu þat, Þórir haklangr ok Kjötvi konungr, þá sendu þeir menn til móts við þá, ok báðu þá liðs ok hétu þeim sæmdum. Réðust þeir þá í lið með þeim Þóri, því at þeim var mikil forvitni á at reyna sik, ok sögðust þeir vildu þar vera, sem ströngust væri orrustan. Fundr þeira Haralds konungs varð á Rogalandi, í firði þeim er heitirí Hafrsfirði; höfðu þeir hvárirtveggja mikit lið. Þessi orrusta hefir einhver mest verit í Noregi; koma hér ok við flestar sögur, því at frá þeim er jafnan flest sagt, er sagan er helzt frá ger. Kom þar ok lið um alt land ok margt ór öðr-

um löndum ok fjöldi víkinga. Önundr lagði skip sitt á annat borð skipi Þóris haklangs; var þat mjök í miðjum hernum. Haraldr konungr lagði at skipi Þóris haklangs, því at Þórir var hinn mesti berserkr ok fullhugi. Var þar hin harðasta orrusta af hvárumtveggja. Þá hét konungur á berserki sína til framgöngu; þeir váru kallaðir Úlfheðnar; þá bitu engi járn; ok er þeir geystust fram, þá helzt ekki við. Þórir varðist alldjarflega, ok fell á skipi sínu með mikilli hreysti. Var þá hroðit með stöfnum skipit ok höggvit ór tengslum; seig þat þá aftr millum skipanna. Lögðu þá konungsmenn at skipi Önundar; hann var fram á skipinu ok barðist drengilega. Þá mæltu konungsmenn: „Sá gengr fast fram í söxin; látum hann hafa nökkurar minjar, at hann hafi komit í bardagann". Önundr stóð út á borðit öðrum fæti ok hjó til manns, ok í því var lagt til hans spjóti; ok er hann bar af sér lagit, kiknaði hann við. Þá hjó einn af stafnbúum konungs til Önundar, ok kom á fótinn fyrir neðan kné, ok tók af fótinn. Önundr varð þegar óvígr. Fell þá mestr hluti liðs á skipi hans. Önundi varð komit á skip til þess manns, er Þrándr hét; hann var Bjarnarson, bróðir Eyvindar austmanns. Hann var í móti Haraldi konungi, ok lá á annat borð skipi Önundar. Þessu næst brast meginflóttinn. Þeir Þrándr ok aðrir vík-

ingar höfðu sik í brott, hverr sem mátti, ok sigldu vestr um haf. Önundr fór með honum, ok Bálki ok Hallvarðr súgandi. Önundr varð græddr, ok gekk við tréfót síðan alla æfi; var hann af því kallaðr Önundr tréfótr meðan hann lifði.

3. Þá váru fyrir vestan haf margir ágætir menn, þeir er flýit höfðu óðul sín ór Noregi fyrir Haraldi konungi; því at hann gerði alla útlæga, þá er í móti honum höfðu barizt, ok tók undir sik eignir þeira. Þá er Önundr var gróinn sára sinna, fóru þeir Þrándr til móts við Geirmund heljarskinn, því at hann var þá frægastr af víkingum fyrir vestan haf, ok spurðu, hvárt hann vildi nökkut leita aftr til ríkis þess, er hann átti á Hörðalandi, ok buðu honum fylgd sína; þóttust þeir eiga þar eftir eignum sínum at sjá, því at Önundr var stórættaðr ok ríkr. Geirmundr kvað þá orðinn svá mikinn styrk Haralds konungs, at honum þótti þess lítil ván, at þeir fengi þar sæmdir með hernaði, er þá fengu menn ósigr, er at var dreginn nálega allr landslýðr; kveðst ok eigi nenna at gerast konungs þræll, ok biðja þess, er hann átti sjálfr; kveðst heldr mundu leita sér annarra forráða; var hann þá ok af æskuskeiði. Fóru þeir Önundr þá aftr til Suðreyja, ok hittu þar marga vini sína. Ófeigr hét maðr, ok var kallaðr grettir; hann var sonr Einars

Ölvissonar barnakarls. Hann var bróðir Óleifs breiðs, föður Þormóðar skafta. Steinólfr hét ok sonr Ölvis barnakarls, faðir Unu, er átti Þorbjörn laxakarl. Steinmóðr var enn sonr Ölvis barnakarls, faðir Konáls, föður Álfdísar hinnar barreysku. Son Konáls var Steinmóðr, faðir Halldóru, er átti Eilífr, son Ketils einhenda. Ófeigr grettir átti Ásnýju Vestarsdóttur, Hæingssonar. Ásmundr skegglauss ok Ásbjörn váru synir Ófeigs grettis; enn dætr hans váru þær Álfdís ok Ása ok Ásvör. Ófeigr hafði stokkit vestr um haf fyrir ófriði Haralds konungs, ok svá Þormóðr skafti frændi hans, ok höfðu með sér skuldalið sitt. Þeir herjuðu um Skotland, ok víða fyrir vestan haf. Þrándr ok Önundr tréfótr ætluðu vestr til Írlands á fund Eyvindar austmanns, bróður Þrándar. Hann hafði landvörn fyrir Írlandi. Móðir Eyvindar var Hlíf, dóttir Hrólfs Ingjaldssonar, Fróðasonar konungs; enn móðir Þrándar var Helga, dóttir Öndotts kráku. Björn hét faðir þeira Eyvindar ok Þrándar, son Hrólfs frá Ám. Hann stökk ór Gautlandi fyrir þat, er hann brendi inni Sigfast, mág Sölvers konungs. Síðan hafði hann farit til Noregs, ok var um vetrinn með Grími hersi, syni Kolbjarnar sneypis; hann vildi myrða Björn til fjár. Þaðan fór Björn til Öndotts kráku, er bjó í Hvinisfirði á Ögðum. Hann tók vel við Birni, ok var hann

með honum á vetrum, enn í hernaði á sumrum, þar til er Hlíf lézt, kona hans. Eftir þat gifti Öndottr Birni Helgu dóttur sína, og lét Björn þá af herferðum. Eyvindr hafði þá tekit við herskipum föður síns, ok var nú orðinn höfðingi mikill fyrir vestan haf. Hann átti Raförtu, dóttur Kjarvals Írakonungs. Þeira synir váru þeir Helgi hinn magri ok Snæbjörn. Enn er þeir Þrándr ok Önundr kvámu í Suðreyjar, fundu þeir þá Ófeig gretti og Þormóð skafta, ok gerðist með þeim vinátta mikil, því at hverr þóttist annan ór helju heimt hafa, þann er eftir hafði verit í Noregi, meðan ófriðr var sem mestr. Önundr var hljóðr mjök; ok er Þrándr fann þat, spurði hann eftir, hvat honum bjó í skapi. Önundr svarar ok kvað vísu:

(1) Glatt's-at mér, síz mættum
— margt hremmir til snemma;
oss stóð geigr af gýgi
galdrs — ellþrimu skjaldar.
Hykk at þegnum þykki
þat's mest koma flestum
oss til yndismissu
einhlítt til mín litit.

Þrándr kvað hann þar mundu þykkja röskvan mann, sem hann væri þá helzt — „er þér sá til, að staðfesta ráð þitt ok kvángast; skal ek þar til leggja orð mín og liðsinni, ef ek veit, hvar þú horfir á“. Önundr kvað honum drengilega fara; enn kvað þó horft hafa vænna um kván-

föngin, þau er slægr væri til. Þrándr svarar: „Ófeigr á dóttur, er Ása heitir; megu vit þar til víkja, ef þú vilt". Önundr lézt þat ok vilja. Síðan töluðu þeir þetta við Ófeig. Hann svarar vel, ok kveðst vita, at maðr var stórættaðr ok ríkr at lausafé — „enn jarðir hans legg ek ódýrt; þykki mêr hann ok eigi heill til ganga, enn dóttir mín er barn at aldri". Þrándr kvað Önund röskvara enn marga þá er heilfættir væri; ok með liðveizlu Þrándar var þessu keypt. Skyldi Ófeigr gefa dóttur sinni heiman lausafé; því at jarðir þær sem í Noregi váru vildu hvárigir fé kaupa. Litlu síðar fekk Þrándr dóttur Þormóðar skafta. Skyldu þær sitja í festum þrjá vetr. Síðan fóru þeir í hernað á sumrum, enn váru í Barreyjum á vetrum.

4. Vígbjóðr ok Vestmarr hétu víkingar tveir; þeir váru suðreyskir, ok lágu úti bæði vetr ok sumar. Þeir höfðu þrettán skip, ok herjuðu mest um Írland, ok gerðu mörg illvirki, þar til er Eyvindr austmaðr tók þar landvörn. Síðan stukku þeir í Suðreyjar ok herjuðu þar, ok alt inn í Skotlandsfjörðu. Þeir Þrándr ok Önundr fóru til móts við þá, ok spurðu, at þeir höfðu siglt inn til eyjar þeirar er Bótz hét. Nú koma þeir Önundr þar með fim skipum; ok er víkingar sjá skip þeira, ok vita, hversu mörg eru, þykkjast þeir hafa nógan liðsafla, ok taka til vápna sinna, ok leggja skip sín millum

hamra tveggja. Þar var mjótt sund ok djúpt; mátti þar einum megin at sækja, ok eigi fleirum skipum en fim senn. Önundr var manna vitrastr, ok lét hann leggja fim skip fram í sundit, svá at þeir máttu þegar láta síga á hömlu, er þeir vildu, því at rúmsævi var mikit at baki þeim. Var ok hólmr nökkurr á annat borð; lét hann þar liggja undir eitt skipit, ok færðu þeir grjót mikit fram á hamarinn, þar er eigi mátti sjá af skipunum. Víkingar lögðu at alldjarflega, ok þóttu hinum kvíddir. Vígbjóðr spurði, hverir þessir væri, er þar váru svá kvíaðir. Þrándr segir, at hann var bróðir Eyvindar austmanns — „ok síðan er hér félagi minn, Önundr tréfótr“. Þá hlógu víkingar, ok mæltu þetta:

(2) Tröll hafi Tréfót allan;
tröllin steypi þeim öllum —

„ok er oss þat fásét, at þeir menn fari til orrustu, er ekki mega sér“. Önundr kvað þat ekki vita mega, fyrr enn reynt væri. Eftir þat lögðu þeir saman skipin. Tókst þar mikill bardagi, ok gengu hvárirtveggja vel fram. Ok er festist bardaginn, lét Önundr sígast at hamrinum; ok þá er víkingar sá þat, hugðu þeir, at hann myndi flýja vilja, ok lögðu at skipi hans, ok undir hamarinn, sem þeir máttu við komast. Í því bili kvámu þeir fram á bjargit, er til þess váru settir; færðu þeir á víkingana

an tíma, sem guð vildi skipa, ok endu svá sína æfi. Hafa þat flestir menn sagt, at Þorsteinn drómundr ok hans kona Spes þykkja verit hafa hinir mestu gæfumenn, ór því sem ráða var; enn eigi hafa börn hans né afkvæmi til Íslands komit, svá at saga sé frá ger.

Hefir Sturla lögmaðr svá sagt, at engi sekr maðr þykkir honum jafnmikill fyrir sér hafa verit sem Grettir hinn sterki. Finnr hann til þess þrjár greinir: þá fyrst, at honum þykkir hann vitrastr verit hafa, því at hann hefir verit lengst í sekt einhverr manna, ok varð aldri unninn meðan hann var heill; þá aðra, at hann var sterkastr á landinu sinna jafnaldra, ok meir laginn til at koma af aftrgöngum ok reimleikum enn aðrir menn; sú hin þriðja, at hans var hefnt úti í Miklagarði, sem einskis annars íslenzks manns; ok þat með, hverr giftumaðr Þorsteinn drómundr varð á sínum efstum dögum, sá hinn sami er hans hefndi. Lýkr hér sögu Grettis Ásmundarsonar, várs samlanda. Hafi þeir þökk er hlýddu, enn sá litla, er krabbat hefir söguna. Er hér verksins endir, enn vér sém allir guði sendir. Amen.

## Vísnaskýringar.

**1 (Önundr tréfótr).** Mér es at glatt, síz mættum skjaldar ellþrimu[1]. Mart hremmir til snemma[2]. Oss stóð geigr af galdrs gýgi[3]. Hykk, at flestum þegnum þykki lítit til mín koma. Þat es oss mest einhlítt til yndismissu[4].

1. *skjaldar ellþrima* = skj. eldþruma, bardagi. — 2. margt dynr of snemma yfir oss. — 3. *galdrs gýgr*, bardaga tröllkona, öxi eða höggvopn.

Mér ekki glatt í geði, síðan (vér) áttum í bardaganum. Margt ber oss að höndum áðr oss varir. Oss stóð geigr af vopnunum. Eg held að flestum mönnum muni þykkja lítið koma til mín; það er oss til mestu leiðinda.

**2 (Víkingar).** Þessi vísuáttungr þarf engrar skýringar við.

**3 (Önundr tréfótr).** Séðu[1] sár þín blæða. Sáttu mik hrökkva nökkut? Einfættr auðslöngvir[2] fekk enga skeinu af þér. Meirr es mörgum Gjalpar snerru brjót[3] lagit málskalp[4] enn hyggjandi. Þegn er-at þrekvandr[5] í þrautir.

1. *séðu* (= sjáðu) tg f. *sjáðu hvárt.* — 2. *auðslöngvir,* maðr. — 3. *Gjalp* tröllkona; *snerru-Gjalp,* öxi; *snerru-Gjalpar brjótr,* axar brjótr, maðr. — 4. *málskalp,* orða-glamr. — 5. = hygni. — 6. *þrekvandr* (af *þrekr,* vaskleikr og *vandr,* vanr við) hraustr.

Sjáðu sár þín blæða. Sástu mik hopa nokkuð? Hinn einfætti maðr fékk enga skeinu af þér. Mörgum manni er meir lagið orðaglamr enn hygni. Þessi maðr er ekki hraustr þegar á reynir.

4 (Önundr tréfótr). Ek þótta ok Sígandi seggjum fyrr hæfir at Hrotta hreggvindi[1], þá er hvast geirhríðar grand[2] gnúði. Nú verðr at stíga út á skorðu skæ[3] með einum fæti á vit[4] Íslands. Þvísa[5] skaldi sígr[6].

1. *Hrotti,* sverð (Fáfnis); *Hrotta hreggvindr,* bardagi. — 2. *geirr,* spjót; *geirhríðar grand,* bardagi. — 3. *skærr* (eða *Skær),* hestr; *skorða,* spýta undir hlið á skipi; *skorðu skær,* skip. — 4. *á vit,* á vitjun, að vitja. — 5. *þvísa* = þessu. — 6. *sígr,* fer aftr.

Við Stígandi þóttum fyrr hæfir í orrustu. Nú verðr að stíga á skip einum fæti á vitjun til Íslands. Þessu skáldi fer aftr.

5 (Önundr tréfótr). Ævi gengr réttum[1] þessum fleinhvessanda[2] of fold ok ríki; — enn sæfarinn ranga fákr[3] rennr. Ek hefi flýit lönd ok fjölda frænda, enn hitt es nýjast: kaup eru kröpp, ef ek hreppi Kaldbak enn læt akra.

1. *réttr,* reki; að leggja skip í rétt er = að láta skip reka. — 2. *fleinhvessandi,* maðr. — 3. *röng,* bognir innviðir í skipi; *fákr* (Fákr) hestr; *ranga fákr,* skip.

Ævi mín, eða líf mitt, er á hrakningi um lönd og ríki; enn skipið rennr um sjóinn. Eg hefi flúið lönd og fjölda af frændum, enn hitt er nýjast: það eru ill kaup, ef eg hreppi Kaldbak, en missi akra minna.

6 (**Ókunnr höf.**). Frægir rausnarmenn lauguðu fyrr rítar fránhvítinga[1] í ræfrhvössu bensævar ranni[2]. Nú rauð vómr[3], sá er víða var frá tekinn sóma, af bleyði bæði hlýr[4] benja skóðs[5] í sýru.

1. *rít*, skjöldr; *fránhvítingr*, ormr; skjaldarormr, sverð. — 2. *bensær*, blóð; *rann*, hús; *ræfrhvast*, með hvössu ræfri, uppmjótt; *rann*, hús; *ræfrhvast bensævar rann*, sár veitt með hvössu vopni. — 3. *vómr* (eldra orð er vámr, og má sjá af því, að vísan er ekki mjög forn), vesalmenni. — 4. *hlýr*, hvk. hlið. — 5. *benjaskóð*, það sem er sárskætt, öxi.

Frægir hreystimenn ruðu fyrr sverð í sárum. Nú rauð vesalmennið, sem víða er ófrægr, báðar hliðar vopnsins (axarinnar) í sýru.

7 (**Ókunnr höf.**). Ek frá at hervápn yrði heldr hörð[1] at Rifskerjum, því at margir slyppir[2] menn lustu mest hvalklyppum[3]. Enn malm-Gautar[4] hafa mjök fast kastat móti þvestslyttum[5]. Þessi ímun[6] lízt oss óknyttin.

1. *hörð* er sagt í háði, á að vera = lin. — 2. *slyppr*, vopnlaus. — 3. *hvalkyppur*, hvalþjósir litlar. — 4. *malm-Gautr*, mannkenning. — 5. *þvestslytti* (slytti, hvk., til í málinu enn („linur eins og slytti“), hvalþjós. — 6. *ímun*, orrusta.

Mér er sagt að heldr hörð orrusta yrði að Rifskerjum,

því að margir vopnlausir menn köstuðu smáum hvalþjósum. Og á móti köstuðu aðrir þvestslyttum. Þessi bardagi þótti oss ósæmilegr.

8 (**Grettir Ásmundarson**). Þessi vísa þarf ekki skýringar við. *ving* = vind eg.

9 (**Grettir Ásmundarson**). Hodda-Grund[1], menja stökkvir[2] vill brenna mik á báðum höndum; ek kenni þess mjök; þat er höfugt ráð. Hörgerðr[3], ek læt verða tekit óskornum nöglum á hringa hreyti[4]; ek sé ger gögl[5] gildra sára.

1. *hodda Grund*, kona. — 2. *menjastökkvir*, maðr. — 3. *hör-Gerðr*, kona. — 4. *hringa hreytir*, maðr. — 5. *gögl* (et. *gagl)*, eins konar villigæsir; *sáragagl*, hræfugl.

Kona, hann vill brenna mig á báðum höndum; það er illt ráð. Eg lét tekið á honum með óskornum nöglum; eg sé hræfuglana búna til að drekka blóðið.

10 (**Ásmundr hærulangr**). Grettir hefir fast flegna traust í Keingálu; hann fær prettat mik; flest hin prúðu fljóð eru fámálug. Vitr drengr mun víst lengi venja flestar kvaðningar[1] mínar af sér; hin fríða hrings Hlín[2] nemi hróðr[3].

1. *kvaðning*, skipan. — 2. *hrings Hlín*, kona. — 3. *hróðr*, skáldskapr, vísa.

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við; *fámálug* er tekið eftir Hóla útg., og er líkl. að það sé fult svo rétt sem *fullmálug*; kvenfólkið hafi þagað yfir brekum Grettis.

11 (**Grettir Ásmundarson**). Hygg at hamartröll[1] hljóp

til Skeggja áðan fyr stundu með ramri för; blóðs gráðr[2] vas á gunnar Gríði[3]. Sú gein harðmynt um hans hánum, enn hon sparði lítt vígtenn ok klauf enni; ek var hjá viðreign þeira.

1. *hamartröll*, öxi. — 2. *gráðr*, græðgi. — 3. *gunnr*, orrusta; *Gríðr*, tröllkona; *gunnar Gríðr*, öxi.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

12 (**Grettir Ásmundarson**). Byrjar skikkju blakkþollr[1], ek hygg at heldr auðígir beiðendr Móins leiðar[2] bjoggu snauðan heiman. Enn ern auðnorn[3] réð sanna við mik fornan orðskvið fyr benskóðs[4] gjöf, at móðir er bezt barni.

1. *byrjar skikkja*, segl; *Blakkr*, hestheiti; segls hestr, skip; skip-*þollr*, maðr.— 2. *Móinn*, ormsheiti; *Móins leið*, gull. — 3. *auðnorn* = gulls norn, kona. — 4. *benskóð*, sverð.

Farmaðr, eg held að hinir efnuðu menn hafi búið mig fátæklega að heiman. En hin væna kona sannaði fornan orðskvið með gjöf sverðsins, at 'móðir er bezt barni'.

13 (**Grettir Ásmundarson**). Þessi vísufjórðungr þarf ekki skýringar við: *kropna*, krokna eða krókna, verða loppinn; *kyrpingr*, lítilmenni.

14 (**Grettir Ásmundarson**). Annat var þá es Hafliði át drafla[1] at inni[2] at Reyðarfelli; hann þóttisk þá heima. Ok[3] darra dómskreytandi[4] neytir tveggja nesja takreins[5] dagverðar tysvar einum degi.

1. *drafli*, ystingr. — 2. *at inni*, heima. — 3. *ok* er líkl. rangt; á líkl. að vera *nú*. — 4. *darr*, spjót; *darra dómr*, bardagi; bardaga *skreytandi*, maðr. — 5. *tveggja nesja takreinn* = reinn (hreinn) tveggja nesja taks; tveggja n. tak, það sem tvö nes taka, vík eða fjörðr; fjarðarhreinn, skip.

Öðruvís var, þegar Hafliði át drafla heima hjá sér að Reyðarfelli; hann þóttist þá vera á heimili sínu. Nú neytir þessi bardagamaðr skipsverðar tvisvar á dag. [Eða berst nú tvisvar (neytir darradagverðar) á skipinu].

**15 (Hafliði siglingamaðr).** Grettir stattu upp ór gróf[1]; knörr[2] grefr hola vörru[3]; minstu meginkátr á mál við hinn glaðláta svanna[4]. Hrund[5], hör-Nauma[6] hefr saumat þér fast at höndum; skorð[7] vill at þú verðir vel við meðan lönd eru niðri.

1. *gróf*, (hér) bæli. — 2. *knörr*, skip. — 3. *vörr*, (hér) kjalfar. — 4. *svanni*, kvenmaðr. — 5. *hrund*, ókent konuheiti. — 6. *Nauma*, (hér) Ásynja; *hör-Nauma*, kona. — 7. *skorð*, er hálfkenning f. skorð gulls, eða e-ð því um líkt.

Stattu upp úr bæli þínu, Grettir, skipið ristir mjög. Talaðu við hinn glaðláta svanna. Konan hefir saumað fast að höndum þér. Hún vill, að þú dugir vel meðan skipið er í hafi.

**16 (Grettir Ásmundarson).** Stöndum upp, þót alltíðum ríði undir skip; ek veit at víf mun láta verr, ef ek ligg á knerri. Aldygg hvít kona mun hyggja[1] því öllungis illa, ef ek skal hér láta vinna fyr mik hvert sinn.

1. *hyggja*, una.

Þessi vísa þarf ekki frekari skýringar við.

**17 (Grettir Ásmundarson).** Báru blikrýrandi[1], mér hefr-a[2] brugðizt bauga ván í haugi; bragnar[3] spyri þetta brátt at skýru[4]. Þó sé ek hitt, at fár Hrotta hríð-Ullr[5] muni leita þinig[6] full-teitr[7] at Fáfnis mýri[8].

1. *bárublik*, gull, gulls *rýrandi* maðr. — 2. *hefr-a* = hefir eigi. — 3. *bragnar*, menn. — 4. *at skýru* = ljóslega. — 5. *Hrotti*, sverð; *Hrotta-hríð*, bardagi; bardaga *Ullr*

(Áss), maðr. — 6. *þinig*, hingað. — 7. = fullglaðr. — 8. *Fáfnis mýrr*, gull.

Maðr, mér hefir ekki brugðist gullsvonin í hauginum; menn frétti þetta brátt greinilega, þó sé eg hitt, að fáir menn muni leita með mikilli gleði eftir gullinu hér.

18 (Grettir Ásmundarson). Báru hyrlestir[1], ek fekk tekit sax, þat er vexir[2] sár seggja, í firna dökkum haugi. Draugr fell. Ok dýrr hjalma logi,[3] hættr alms angrs ýtum[4], skyldi aldri ganga mér firr[5] hendi, ef ek ætta.

1. *báru hyrr*, gull; gulls *lestir*, maðr. — 2. *vexa*, láta vaxa. — 3. *hjalma logi*, sverð. — 4. *almr*, bogi; *alms angr*, sverð; sverða *ýtar*, menn. — 5. firr = fjarri.

Að öðru leyti þarf ekki að skýra vísuna.

19 (Grettir Ásmundarson). (Vér) höfum búit tólf gunnelds runnum[1] gröf hjá gjalfri[2]. Ek nam einn ótrauðr vinna öllum bráðan dauða. Velborin, ítr gulls selja, hver verk, þau es einn tær orkat, munu of görvask gild, ef slík eru lítil?

1. *gunneldr* sverð; sverð*runnur*, maðr, — 2. *gjalfr*, (hér) sjór.

Að öðru leyti þarf ekki að skýra vísuna.

20 (Grettir Ásmundarson). Sá víg-Njörðr[1] es görði vitja vetrliða[2] í haust, kvam oft heim í húmi, enn blæddi engu.[3] Otrs akra Ullar sáu-t mik sitja sið fyr bjarnar híði. Þó kvam ek út ór hellisskúta.

1. *víg-Njörðr*, maðr. — 2. *vetrliði*, björn. — 3. *enn engu blæddi* er tg. Boers f. *þá engum blæddi*.

Síðari hlut vísunnar hefir Boer þannig:

Sáut — otrs — mik sitja
sið fyr bjarnar híði

þó kvamk — Ullar akra —
út ór hellisskúta.

Hann hefir því breytt 5. og 7. vísuorði:

Sá engi mik sitja
og
þó kom ek ullar otra,

enn þessi tilg. er fremr ósennileg. Með því móti má þó fá vit í vísuna. Boer skýrir 5. og 7. vo. þannig: *otrs akr* = ormaból, gull; gulls *Ullar (Ullr*, Áss), menn.

Sá er gerði vitja vetrliða í haust, kom oft hræddr heim í húmi, enn blæddi engu. Menn sáu mig ekki sitja síð dags við bjarnarhíðið; þó kom ek út úr hellisskútanum.

21 (Grettir Ásmundarson). Ek gat forðum unnit iugtanna;[1] orð lék á því. Hugstríðr reif hart meginsíðan feld af höldi.[2] Bellinn[3] baugs-Baldr[4] olli því, enn nú skal gjalda; ek þykkjum ekki oft allhælinn[5] í kappmælum.

1. *iugtanni*, *íugtanni*, *jugtanni* stendr í hdr., og úr því hefir verið búið til ígultanni, sem bæði er algengt í íslenzkum kveðskap og þýðir þá björn, bjarndýr, enn finst líka í sænsku alþýðumáli sem lýsingarorð *igeltänd* um þann sem er skögultentr. Enn Boer getr til, og er það ekki ólíklegt, að orðið sé upphaflega íhöggtanni (sbr. höggormr). — 2. *höldr*, maðr. — 3. *bellinn*, hvepsinn. — 4. *baug-Baldr*, maðr. — 5. *all-hælinn*, mjög hælinn, raupsamr.

Eg gat forðum unnið björn; það varð orðfleygt. Hinn grimmi björn reif hinn síða feld af mér. Hinn hvepsni maðr olli því, enn nú skal hann gjalda þess. Eg þykist ekki vera sjálfhælinn venjulega, þegar eg tala um hreystiverk.

22 (**Grettir Ásmundarson**). Þorfinnr, Þundar aldar sessi,[1] vas alinn[2] til hjalpar oss, þá es víf, lukt og læst í valskorum,[3] of kvaddi mik lífs.[4]

1. *Þundr*, Óðinn; *öld*, menn; menn Óðins, Einherjar, kappar; *sessi*, sessunautr; Þundar aldar sessi, sessunautr eða jafningi kappa. — 2. *alinn*, skapaðr, ætlaðr. — 3. *víf lukt ok læst í valskorum*, Hel. — 4. (*um* eða) *of kvaddi mik lífs* = heimtaði lifið af mér.

Þorfinnr, jafningi beztu kappa, var ætlaðr til að hjálpa oss, þegar Hel, sem býr í bústað dauðra manna, kvaddi mig lífsins.

23 (**Grettir Ásmundarson**). Ok stálgoðsbana Regins skáli Rauðahafs stórskip[1] vas, es manna mest varnaði mér Býlests bróðurdóttur.[2]

1. *stálgoð*, Hrungnir; *Hrungnis bani*, Þórr; *Reginn*, dvergsheiti; *Regins skáli*, steinn; *Rauðahafs stórskip*, drómundr, forn skip í Miðjarðarhafi. Þetta alt merkir því: Þorsteinn drómundr. — 2. *Býlestr*, bróðir Loka; bróðurdóttir Býlests er því Hel.

Þat var Þorsteinn drómundr, er manna mest bjargaði mér úr lífshættu.

24 (**Grettir Ásmundarson**). Þengils[1] mönnum þótti þá eigi dælt at sækja oss, es hlébarðr[2] vildi brenna bragða borg[3] hlífar eldi.[4]

1. *þengill*, konungr. — 2. *hlébarðr* (= leopard), (hér) björn. — 3. *bragða borg*, höfuð. — 4. *hlífar eldr*, sverð; *brenna bragða borg hlífar eldi*, höggva höfuð manns með sverði.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

25 (**Grettir Ásmundarson**). **Höldr[1] lét Máks syni[2] goldit kapp; sverða hríð gerðisk þá með hepni; hrafn gat at slíta hrát hold. Vágs viggríðandi[3] vas enn síðan at vígi Skúfs ok Bjarna; hann bar gjarna greipr at gunni.[4]**

1. *höldr* = Þorgeirr Hávarsson. — 2. *Máks sonr*, Þorgils Máksson. — 3. *vigg*, hvk., hestr; *vágs* hestr, skip; skip*ríðandi*, farmaðr. — 4. *gunnr*, orrusta.

Sá lét Þorgils Mákssyni goldit kapp; bardaginn gekk heppilega; hrafnar átu hræin. En síðan var farmaðrinn að vígi Skúfs og Bjarna. Hann var fús til að berjast.

26 (**Grettir Ásmundarson**). Ek veit eigi, nema Jalfaðr[1] svelli kverk[2] utan at þér sjalfum fyr kapp ok orku; þat er kvelling.[3] Svá bannaði seim-Gauts sinni ungum þinul fjalla[4] ákall[5] endr fyr löngu, es ek vas heima.

1. *Jalfaðr*, Óðinn, en annað Óðins heiti er Auðun. — 2. *svella*, láta bólgna. — 3. *kvelling*, hörmung. — 4. *seim-Gautr*, maðr (Barði); *sinni seim-Gauts*, fylgjari hans; *þinull fjalla*, ormr, enn Grettir er líka orms heiti. — 5. *banna ákall*, taka fyrir kverkar.

Eigi má vita, nema Auðun taki kverka taki á þér fyrir kapp þitt og orku; það er hörmung. Svá bannaði félagi mannsins (Barða) (Auðun) ungum Gretti að kalla (tók fyrir kverkar honum).

Boer tekr síðara helming vísunnar öðruvís: Seimsinnir,[1] svá bannaði Gautr[2] endr fyrir löngu ákall ungum fjalla þinul, þá es ek vas heima.

1. *seimr*, auðr; *seimsinnir*, maðr. — 2. *Gautr*, Óðinn = Auðun.

Svo tók Auðun fyrir kverkar mér fyrir löngu, þegar ég var heima.

**27 (Grettir Ásmundarson). Mistar mótkennandi,[1] ek treysti mér við þrenna í Hildar veðri,[2] hvat heiftminnigt[3] es skal vinna. Ek vil-at mæta fleiri farsætendum[4] enn fjórum í gnýfengnum[5] Gungnis gráð[6], ef ek skal ráða.**

1. *Mist*, valkyrja; *Mistar mót*, bardagi; *Mistar mótkennandi*, sá er kann að berjast. — 2. *Hildar veðr*, bardagi. — 3. *heiftminnigt*, fjandsamlegt. — 4. *farsætandi*, sá sem sætir skipum, sitr fyrir skipum, víkingr. — 5. *gnýfenginn*, gnýmikill. — 6. *Gungnir*, geir Óðins; geirs *gráðr*, geirs græðgi, bardagi. Dr. Jón Þorkelsson getr til, að gráðr geti líka verið sama sem gola, lítill vindr. Sú merking er enn til í orðinu: lítið gráð, en gráðr = græðgi hefir og verið haft fram á miðja 17. öld, því það kemr fyrir í sálmum Hallgríms Pèturssonar: „Júdas í girndar gráði".

3. vo. er annaðhvort ekki rétt eða hún sýnir, að vísan er ekki mjög forn: aðalhendingar *hvað- veð-*. Við þessu gerir Boer með því að setja:

hvats í Hildar móti.

Bardagamaðr, eg treysti mér við þrjá menn í orrustu, hvað fjandsamlegt sem vinna skal. (Enn) eg vil eigi mæta fleirum hermönnum enn fjórum í bardaga, ef eg á að ráða.

28. (Grettir Ásmundarson). Tunga verðr boga slöngvi[1] jafnan of-löng til orða. Því kemr þar fyrir þung hefnd til sumra. Margr beiðir benlinns borgar[2] hefr görvar minni sakir enn þú, Ferðalangr, þót fengir fjörtjón.

1. *boga-slöngvir*, maðr. — 2. *beinlinnr*, sárormr, spjót eða sverð; sverð-*beiðir*, maðr.

Að öðru leyti er vísan auðskilin.

**29 (Grettir Ásmundarson).** Þrimu rækir[1] snart ímunbukl[2], þat es fekk áspyrnu ökla þyrnis[3], at snæðings porti[4]. Snækolls. Kjálkar rifnuðu á bringu; svá tvískifti enn járnvarði brodda gangs bálkr[5] tanngarðs toftum[6].

1. *þrima*, bardagi; *þrimusækir*, bardagamaðr. — 2. *ímun*, bardagi; *ímunbukl*, skjöldr. — 3. *öklaþyrnir*, fótr. — 4. *snæðingsport*, munnr. — 5. *broddagangr*, örvadrif. — 6. *tanngarðstóftir*, munnr.

Bardagamaðrinn snart skjöldinn, sem slegizt hafði með fæti hans að munni Snækolls. Kjálkar rifnuðu á bringu; svo tvískifti skjöldrinn tanngarðshvolfinu.

Boer tekr fyrri helming vísunnar öðru vís: Ímunbukl þrimu rækis, þat es fekk áspyrnu öklaþyrnis, snart snæðings port Snækolls.

Skjöldr bardagamannsins, sem fótrinn rakst á, kom við munn Snækolls.

**30 (Grettir Ásmundarson).** Alt kom senn at svinnum bragar tíni[1], sekt mín, drengr skal drjúghljóðr[2] af dauða föður ok svá bróður. Heðins snótar mótrunnr[3], margr sverða brjótr[4] skal þó í morgin[5] verða daprari um slíkar sútir.

1. *bragar tínir*, skáld. — 2. *drjúghljóðr*, mjög angrvær. — 3. *Heðins snót*, Hildr, hildar *mót*, orrusta. — 4. *sverða brjótr*, maðr. — 5. í morgin (d. imorgen) á morgun, þegar frá líðr.

Að öðru leyti er vísan auðskilin.

**31 (Sveinn at Bakka).** Barðelds beiðir[1] reið heðan á braut. Hjalmþollr[2] lét þjófs[3] hönd hrífa um Söðulkollu næri garði. Sá Þundar skýss Freyr[4] mun fullsterkr at fleirum svaðilverkum enn þessu. Þats heldr, hann mun bellinn.

1. *barð*, skjöldr, skjaldar *eldr*, sverð; sverð*beiðir*, maðr.

— 2. *hjalmþollr* (hjálmviðr). maðr. — 3. *þjófs* tg. f. þjófr. — 4. *Þundr*, Óðinn; Óðins *ský*, skjöldr; skjaldar *Freyr*, maðr.

Bardagamaðrinn reið á burt heðan. Hann tók Söðulkollu þjófs hendi nærri garði. Sá maðr mun fær til að gera meiri svaðilverk enn þetta. Það er helzt, að hann mun vera glettinn.

32 (**Grettir Ásmundarson**). Bráðlyndr almþollr[1], segðu í breiðar bygðir, at þú fyndir Söðulkollu alt upp hjá Kroppi. Þar vas staddr á steddu[2] í svörtum kufli drengr sá es drýgir löngum dufl[3]; strjúk allmikinn[4], Halli.

1. *almr*, bogi, *almþollr*, bogaviðr, maðr. — 2. *stedda*, meri. — 3. *tafl* um peninga. — 4. *strjúk allmikinn*, flýttu þér.

Að öðru leyti er vísan auðskilin.

33 (**Sveinn at Bakka**). Sáttu[1] hinn reitni[2] slægr slyttimakr[3] reið hrossi frá næstum bæjum? Oss er mikil raun at slíku. Heraðsmenn skulu nefna hvinni[4] hefning fyr þat. At hváru[5] skal (hann) bera blán búk, ef ek nái hánum.

1. *sáttu* = sástu. — 2. *reitinn*, ódæll. — 3. *slyttinn* latr; *makr* (lýs. orð, hér n.), sá sem hver maðr getr við ráðið, sbr. m a k r á ð r, m a k i n d i; *slyttimakr* er því ómenni. — 4. *hvinn*, smáþjófr. — 5. *at hváru*, að minsta kosti.

Fyrir hefning — nefna hefir Boer hegning — egna.

Sástu hvar hinn ódæli ónytjungr reið hrossi frá næstu bæjum. Oss er mikil raun að slíku. Heraðsmenn skulu hegna honum fyrir það. Að minsta kosti skal hann bera bláan búk ef eg næ honum.

34 (**Grettir Ásmundarson**). Allvelborin vella vígdís[1],

færðu hafloga[2] hirði gamanvísu. Hér ferr lautar gripr[3] braut. Ek, orðrakkr Yggs liðgjafi[4], vilda ríða jöldu[5], svá sést, at ek man gista at Gilsbakka.

1. *vell* gull; *vella vígdís;* gulls valkyrja, kona. — 2. *haflogahirðir*, gullshirðir, maðr (Sveinn). — 3. *gripr lautar*, ormr = grettir = Grettir. — 4. *Yggs lið*, Óðins drykkr, skáldskapr; *Yggs liðgjafi*, skáld. — 5. *jalda*, meri.

Velborna kona, færðu manninum gamanvísu. Grettir fér hér á braut. Eg, orðhvata skáldið, mun ríða merinni svo hart, að eg mun gista að Gilsbakka.

35 (**Sveinn at Bakka**). Hverr kjörgráðsboði[1] reið hóti fyrri áðan hart heðan í róstuveðri á svörtu hrossi? Sá hundeygr drengr[2], djarfr ok dáðum horfinn, hann mun í dag at söunu heldr lengi rekast undan.

1. *hjörr*, sverð; *hjörgráðr*, bardagi; *hjörgráðs boði*, sá er býðr bardaga. — 2. *hundeygr*, með hundsaugu, ósvífinn.

Að öðru leyti er vísan auðskilin.

36 (**Sveinn at Bakka**). Þessi vísuhelmingr er auðskilinn.

37 (**Grettir Ásmundarson**). Þessi vísuhelmingr er líka auðskilin.

39 (**Grettir Ásmundarson**). 3. og 4. vo. hefir Boer:

ysjungr Arfs ok Gneista
afl fangvinar Hafla.

Ysjungr Hafla fangvinar Arfs ok Gneista afl[1] varð vápnsóttr í þróttar byr[2] í Veðrafirði[3]. Nú es Atla maklega goldit andrán, þats honum vas ósjötlat[4] fyrr. Hann hné dauðr á fríðri fold.

1. *ysjungr*, björn; *Hafliði*, jötunn; *fangvinr*, sá er glímir við e-n; *Hafla fangvinr*, Þórr; *Hafla fangvinar ysjungr* = Þorbjörn; *Arfr* og *Gneisti* eru öxnaheiti, afl Arfs ok Gneista = öxna megin. — 2. *Þróttr*, Óðinn; Óðins *byrr*, bardagi. — 3. *veðurr*, hrútr; *Veðrafjörðr*, Hrútafjörðr. — 4. *ósjöslat*, óbætt.

Þorbjörn öxnamegin varð 'vápnsóttr' í bardaga í Hrútafirði. Nú er Atla maklega goldið 'andrán' (maklega hefnt) enn það var honum ekki bætt fyrr. 'Hann hné dauðr á fríðri fold'.

40 (**Grettir Ásmundarson**). Þessi vísa er auðskilin. *marþak*, ís; *marþaks fjörðr*, Ísafjörðr.

41 (**Grettir Ásmundarson**). Margir sögðu mér hæfa þau mægðalaun, es Sigarr[1] veitti, unz rekkar fundu reynirunn[2], lofgróinn laufi sæmdar.

1. *Sigarr*, fornkonungr lét hengja Hagbarð fyrir það, að hann nam á burt Signýju dóttur hans; *mægðalaun Sigars* eru því henging. — 2. *reynirunnr* er sama sem björg Þórs = Þorbjörg. Sbr. söguna um Þór, er hann óð yfir ána Vímur, enn hún braut uppi á öxl honum; náði hann í reynirunn við bakkann og steig svo úr ánni; því er þat orðtak haft, at „reynir er björg Þórs“, segir í Sn. Eddu.

Margir sögðu, að hæfilegt væri að eg væri hengdr, þar til er menn fundu hina lofskreyttu (ágætu) konu Þorbjörgu.

42 (**Grettir Ásmundarson**). Þessi vísa þarf engrar skýringar við.

43 (**Grettir Ásmundarson**). Hjálp tveggja handa Sifjar-vers[1], bað mik fara með sér; sú gaf Dundar beðju

þveng[2] góðan hest, es gæddi mik friði. (Boer : ok gæddi friði).

1. *Sif*, kona Þórs; *Sifjar verr*, Þórr; *hjálp Sifjar vers*, hjörg Þórs = Þorbjörg. — 2. *Þundr*, Óðinn; *beðja*, kona; kona Óðins Jörð; jarðar *þvengr*, ormr = Grettir.

Þorbjörg bað mig fara með sér: sú gaf Gretti góðan hest og 'gæddi friði'.

44 (**Loftr = Hallmundr**). Ek ætla í hreggs hrunketil[1] niðr frá stórsteypi frerum[2]. Þar má grundarhængr[3] hitta lítinn stein ok hnefa land.

1. *hregg*, stormr; *hrun*, hávaði; *hreggshrunketill* á að vera hellir Hallmundar, sem stormrinn bylr á. — 2. *frer* hvk., hjarn, frosinn snjór; *stór steypifrer*, jökull, Balljökull. — 3. *grundar hængr*, ormr = Grettir. — 4. *lítill steinn*, hallr; *hnefa land*, hönd = mund; *lítill steinn* og *hnefa land* = hallr og mund = Hallmundr.

45 (**Loftr = Hallmundr**). Þessi vísa þarf ekki skýringar.

46 (**Grettir Ásmundarson**). Snarr Illugi ok malma skúrar mundangshvatr[1] Atli stóð mér fjarri þá es enn armi Loftr ófælinn dró mér endr álar[2] ór hendi. Ek vilda sjaldan vesa staddr svá. Horsk brúðr stýkr hvarma ef hræðumk.

1. *mundang*, meðalhóf; *malma skúr*, bardagi; *mundangs hvatr malma skúrar*, nokkurn veginn röskr í bardaga.— 2. *álar*, ólar, (hér) beizlistaumar.

Hinn 'snari' Illugi og Atli, sem líka er nokkurn veginn röskr í bardaga, stóðu mér fjarri, þegar hinn armi Loftr dró óhræddr ólar úr hendi mér. Hin vitra kona angrast af hugleysi minu.

47 (Grettir Ásmundarson). Þarf engrar skýringar við.

48 (Grettir Ásmundarson). Vígfúss vápnhríðar naðr[1] varð fram stíga á benstíga[2] í Virfils veðri[3] í viðrisfirði.[4] Kostr mun traustum köppum at erfa[5] Keldhverfinga. Komumk undan. Hvatr Hallmundr ór helli olli því.

1. *vígfúss vápnhríðar naðr*, drápgjarnt sverð. — 2. *benstígar*, blóðugir vegir, (ef til vill) bardagavöllr. — 3. *Virfill*, víkingsheiti; *Virfils veðr*, bardagi. — 4. *viðrir*, Örn; *viðrisfjörðr*, Arnarvatn. — 5. *erfa*, gera erfi eftir. 6. *komumk*, tg. f. er komst.

Hið drápgjarna sverð varð að koma fram á bardagavöllinn við Arnarvatn. Hinir hraustu kappar áttu þar kost á að gera erfi eftir Keldhverfinga. Hinn hrausti Hallmundr úr helli olli því að eg komst undan.

49 (Grettir Ásmundarson). Marr[1], sá es rispar tönnum raunlítt,[2] rennr mest fyr öðrum hesti, es bítask skal né mæðisk fyrri[3]. Enn margnenninn[4] Gísli rann þenna dag físandi fyr mér of Mýrar. (Hann) es firðr fremd ok sæmdum.

1. *marr*, hestr. — 2. sá er bízt mjög illa. — 3. mæðist eigi, heldr leggr á flótta. — 4. *margnenninn*, margskiftinn, marglátr.

Svo sem sá hestr, sem bízt mjög illa, rennr þegar undan öðrum hesti, er bítast skal og mæðist eigi fyrri (heldr leitar undan), svo rann hinn margláti Gísli þenna dag físandi undan mér yfir Mýrar. Hann skortir bæði álit og heiðr.

50 (Grettir Ásmundarson). Hornflæðar hirði-Sága[1]

stór Steinólfs höfuðskeina mun nú eigi hæg at græða; þó steyptusk fleiri.[2] Þung ván es um ævi Þorgils, því at bein sprungu. Lýðr segir þar átta aðra auðbrjóta[3] dauða.

1. *hornflæðr*, vín; *Sága*, gyðja, Ásynja; víns hirði-gyðja, kona. — 2. fleiri féllu. — 3. *auðbrjótr*, mann-kenning.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

51—57 (Hallmundr). Þessar vísur þurfa lítilla skýringa við.

52. v. *sýna stund*, góða stund.

54. v. *skýlihögg*, skáhögg.

56. v. *blendingar*, hálftröll.

57. v. *alfa kind*, afkvæmi álfa.

58 (Grettir Ásmundarson). Ek ríð eigi hóts[1] á móti randar rækimeiðum.[2] Þraut es sköpuð þessum þegni. Ek fer einn á brautu. Ek vil eigi finna snara Viðris balka vinnendr.[3] Ek leita mér færa. Ek man eigi þykkja þér ærr.[4]

1. *hóts* (ef. af hót) = hót (í nútíðarmáli). — 2. *rönd*, skjöldr; *randar-rækimeiðr*, maðr. — 3. *Viðrir*, Óðinn; *balkr*, stormr; Óðins stormr, bardagi, bardaga *vinnendr*, menn. — 4. *ærr*, vitlaus.

Eg ríð ekki hót á móti þeim. Þessi maðr mun rata í vandræði. Eg fer einn á burt. Eg vil ekki finna þessa menn. Eg leita mér færis. Þér mun ekki þykja eg vera vitlaus.

59 (Grettir Ásmundarson). Ek hnekki frá[1] þars mjök stórir flokkar Þóris fara; mér er a þerfilegt[2] at hverfa í þeira þys. Forðumk[3] frægra virða fund; ek á

veg til lundar[4] — ek verð at hirða Heimdalls hjör — björgum svá fjörvi.

1. *ek hnekki frá*, eg fer undan. — 2. *þerfilegt* = þarflegt. — 3. *forðumk*, eg forðast. — 4. *lundr*, skógr. Í nánd við söguataðinn hefir verið, og er enn, hið skógivaxnasta hérað á landinu, Axarfjörðr. — 5. *Heimdalls hjör*, höfuð, sem Heimdallr var lostinn með.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

**60 (Grettir Ásmundarson).** Svinn gullbúa stóla Sól,[1] þú munt kunna segja feður þínum, þót orð mín skifti oft engu,[2] hvar ek rík um breiðan bæ barðjóðs[3] ok nær garði með hinn þriðja dreng; lið láðskreytis[4] es lítit.

1. *gullbúi*, ormr; *gullbúa stóll*, ormsból, gull; gulls *Sól*, kona. — 2. *engu*, tg. f. eigi. — 3. *barð*, skegg; *barðjóð*, barn skeggs = Skeggjason. — 4. *láðskreytir*, maðr.

Hin hygna kona, þú munt segja föður þínum, þótt engu varði um orð mín, að eg hafi farið fram hjá hinum stóra bæ (Þóris) Skeggjasonar nærri garði með hinn þriðja mann. Eg hefi lítið lið.

**61 (Grettir Ásmuudarson).** (Ek) gekk í hið dökkva gljúfr; veltiflug steina gein úrsvölum munni við hjörhríðar hlunns gæði.[1] Flugstraumr lá fast framan at brjósti í Naumu[2] sal, heldr hörð fján Braga kvánar[3] kom á herðar skaldi.

1. *hjörhríð*, bardagi; *hlunnr*, (hér) sverð(?); *hjörhríðar hlunns gæðir*, maðr. — 2. *Nauma*, tröllkona. — 3. *fján* = *fjón*, hatr; *Braga kván*, Iðunn; *hörð fján Braga kvánar* = ilska Iðunnar = iðunnar; hin hatrsfulla iða kom á herðar mér.

Eg gekk í hið dökkva gljúfr; hengiflug gein við mér

með köldum munni. Straumrinn af berginu skall á brjóstinu á mér og á herðar mér kom hin hatrsfulla iða.

62 (Grettir Ásmundarson). Ljótr mellu vinr kvam í móti mér ór helli. Hann fekst heldr lengi við mik, at sönnu harðfengr. Ek lét harðeggjat heftisax[1] höggvit af skefti; bjartr gunnlogi[2] klauf svarta bringu Gangs.[3]

1. *heftisax*, eins konar vopn, fleinn með skafti. — 2. *gunnlogi*, sverð. — 3. *Gangr*, jötunsheiti.

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

63 (Grettir Ásmundarson). Margr menjarunnr[1] hefr í morgin dulizt við kunnan. Tvær grímur renna víst á rannsíma runna.[2] Leikborði[3] es heldr skotit fyr hvass-orða hölda. Öld bilar at halda orð. Alt slafr[4] dró af Hafri.

1. *menjarunnr*, maðr. — 2. *rannsíma* = randsíma, skjaldarfetill; skjaldarfetils *runnr*, maðr. — 3. *leikborði skotit fyrir*, þeim er sýndr leikr á borði. — 4. *slafr*, slaðr.

Margir ókunnir menn hafa ekki þekt (hér) í morgun mann sem þeir annars þekkja; renna víst tvær grímur á þá. Þessum hvassorðu mönnum er sýndr leikr á borði. Menn hætta að halda orð. Það hefir dregið af mælgi Hafrs.

64 (Grettir Ásmundarson). Hefjendr Hlakkar tjalda[1] heldu saman nefjum og Hildar veggs hregg-Nirðir[2] hjoggust skeggjum til, ok geðstrangir Svafnis[3] látrs sviftendr gengu í sveitir er þeir þektu mik; (þeir) tóku at iðrast griða.

1. *Hlakkar tjöld*, skildir, *hefjendr* skjalda, menn. —

2. *Hildr*, valkyrja; valkyrju *veggr*, skjöldr; *Njörðr*, Áss; skjaldar Æsir, menn. — 3. *Svafnir*, ormsheiti; *Svafnis látr*, ormsból, gull; gulls *sviftendr*, menn.

Menn stungu saman nefjum og hjuggust með skeggjum og gengu í hörðu skapi í sveitir, er þeir kendust við mig; þeir tóku að iðrast griðanna.

65 (**Grettir Ásmundarson**). Flæsu[1] far es váskeytt.[2] Fár örveðrs æskiruðr[3] kann görva[4] sea sverð í hári[5] fyr öðrum. Ek veðja hins, þót atgeira éldraugar[6] eigi meiri sin, at þeir hafi-t meiri hreðjar[7] enn vér.

1. *flása*, tg. Boers f. *flaska*, lauslát stúlka, eftir skýringu Boers, og mun þá vera sama orð og flæsa, sem haft er um upprof í illviðri jafnt og glenna, enn glenna er líka haft um léttúðuga stúlku. — 2. *váskeytt*, illa skeytt. Hugsunin ætti þá að vera: hegðun hinnar léttúðugu stúlku er skeytingarlítil, enn þessi skýring er þó ekki fullvís. — 3. *örveðr*, bardagi; *æskiruðr (= runnr)* bardaga, maðr. — 4. *görva* = gerla. — 5. *sverð í hári*, 'penis'. — 6. *atgeira él*, bardagi; *draugar* (viðir) bardaga, menn. — 7. *hreðjar*, eistu.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

66 (**Grettir Ásmundarson**). Sæta saumskorða[1] kvað mik orðinn sverðlítinn.[2] Hælin hreðja kvista Hrist[3] hefir satt at mæla. Lágr Faxi[4] í læra skógar lautu[5] má allengi vaxa mér ungum. Bið, eyleygjar[6] Freyja.

1. *sæta saumskorða* er tvöföld kenning og merkir hvortveggja konu. — 2. *sverð*, sbr. næstu vísu á undan. — 3. *hreðja kvistr*, 'penis'; *hreðja kvista Hrist*, kona. — 4. *Faxi*, 'penis'. — 5. *læra skógar laut*, nárar. — 6. *eyleygr* tg. Boers *eyleygjar*, steinn; steina *Freyja*, kona.

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

67 (**Grettir Ásmundarson**). Skjóma egg[1] nam ei skifta sköpum í rómu,[2] þá es ek varða böðharðum[3] berserkjum birkisjöt.[4] Hristarnaðrinn gall es Hjarrandi misti handa; báðir Björn ok Gunnarr létu brátt líf ok náðir.

1. *skjómi*, sverð. — 2. *róma*, bardagi. — 3. *böðharðr*, harðr í orrustu. — 4. *sjöt*, sæti; *birkisjöt*, hús. — 5. *Hristarnaðr*, (óvanaleg) sverðskenning?

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

68 (**Grettir Ásmundarson**). Ek kom enn einu sinni út á breiðri skútu í Dyrrhólmum; drengr skáði[1] lengi darra él.[2] Torfi, þarfr Vébrands arfi, bauð þá þýðum þegni þungra spjóta þrautir með stóru megni.

1. *ská*, auka, *skáði* = jók. — 2. *darr*, spjót; *darra él*, bardagi.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

69 (**Grettir Ásmundarson**). Þót margir menn stæði at vápna sennu varð meiðir skeljeggs minnis veggja[1] svá skildr frá skaldi, at ára hlynr[2] varð endr[3] ófærr at hendi Grettis í benja hríðum[4]; hann gaf mér hest at lesti[5].

1. *skeljeggr*, með hvassa egg, hvass; getr verið að hér eigi að lesa *skeljeggr minnis veggja* meiðir. — 2. *ára hlynr*, maðr (Torfi, — 3. *endr*, forðum. — 4. *benja hríðir*, bardagi, — 5. *at lesti*, að síðustu (á ensku: at least). Vera má að *hann* í 8. vo. eigi að falla burt.

Þó þar væri við marga að berjast, skildum við Torfi svo, að hann varð ófær af vopnum mínum. Að síðustu gaf hann mér hest.

70 (**Grettir Ásmundarson**). Vítt frá ek at Þorfinnr Arnórsson þætti sterkr svaðils[1] verka þegn; oddbörr[2]

**kvaðst skyldu varna mér aldrs. Einlyndum eyði orma setra[3] bráðt áræði; ek var eigi at beinni, þót hann fyndi mik einn úti.**

**1. *svaðilsverk*, hryðjuverk. — 2. *börr*, viðr; *oddbörr*, maðr. — 3. *ormasetr*, gull, eyðir gulls, maðr.**

**Það orð fór víða af Þorfinni Arnórssyni, að hann væri kappi mikill. Hann kvaðst skyldu vega mig. Hinn einlynda mann brast áræði; eg var ekki auðsóttari þótt hann fyndi mik einn úti.**

71 (**Grettir Ásmundarson**). Ek gat gætt aldrs fyr geira njótum[1], því at ek treysta mætti viðr umsátum ýta[2], þat vas-a sjaldan. Nú hefr gild, afgömul steina rein[3] unnit gunnelda bör[4] með göldrum; ráðin grimm eru römm.

1. *geira njótr*, maðr. — 2. *ýtar*, menn. — 3. *rein*, jarðarspilda; *steinn*, tala eða glertala (sbr. steinsörvi); *steina rein*, kona. — 4. *gunnelda börr*, maðr (Grettir).

Eg gat gætt þess að lífi mínu væri engin hætta búin af mönnum, því að eg treysti afli mínu, þó setið væri um mig. Það var eigi sjaldan. Nú hefir digr, afgömul kerling unnið mig með göldrum; römm eru heiftarráðin.

72 (**Þorbjörn öngull**). Ek flutta ómett[1] höfuð Grettis ór eyju; nauðuleg nála Nanna[2] grætr þann hárrauðan. Gjálfrs fagrlogs Fríði[3], hér máttu líta griðbíts[4] höfuð á gólfi; þat mun alt fúna noma saltit.

1. *ómett*, gráðugt; getr verið að eigi að lesa *ólétt*. — 2. *nála Nanna*, kona; í hdr. stendr *nála Nauma;* hér mætti ef til vill líka lesa *Nunna* og verða þá skothendingar í vísuorðinu eins og vera á (sbr. saumanunna). — 3. *Fríði* er ef til vill ekki rétt, enn gæti verið nf. et. fyrir *Fríðr*, eins og heiði fyrir heiðr.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

73 (Ásdís at Bjargi). Sýrgarpar[1] mundu-t[2] síð hlaupa á sjó enn sauðir fyrir dýri[3], — nýtt skaup[4] es komit at njörðum[5] norðr — ef (þeir) stæði Gretti ósjúkan stála Frey[6] í eyju; ek hefi kveðit[7] létt lof[8] um lýði.

1. *sýrgarpar* t. d. f. *sýrgarpr* (af s ý r, gylta og g a r p r), gyltukappar, óvirðingarorð. — 2. *mundu-t* = mundu eigi. — 3. *dýr*, refr, tófa. — 4. *skaup*, skop, skömm. — 5. *nirðir*, menn, hálfkenning. — 6. *stála Freyr*, maðr, Grettir. — 7. tg. f. *verit*. — 8. *lofs* tg. fyrir *lof*, lítið lof.

Svínahirðarnir mundu ekki síðr hlaupa á sjó enn sauðir undan tófu — ný svívirðing hefir hent menn fyrir norðan — ef þeir hefðu hitt Gretti ósjúkan í eynni; ek hefi kveðið lítið lof um þessa menn.

74 (Þorsteinn drómundr). Hringa Grund[1] átta eggþings boðar[2] máttu eigi koma saxi ór hendi geðrakks[3] Grettis áðr hvardyggvir[4] herðendr fetilsgerðar[5] hjoggu axlarfót[6] af hugrakkum unnblakkeýti[7].

1. *hringa Grund*, kona. — 2. *eggþingsboðar*, menn. — 3. *geðrakkr*, hugrakkr. — 4. *hvardyggr*, hvarvetna duglegr. — 5. *fetill*, sverðfetill eða *skjaldarfetill*, *fetilgerð* hið sama; *herðendr fetilsgerðar*, menn. — 6. *axlarfótr*, hönd. — 7. *unnblakkr*, skip; *unn-blakks ýtir*, maðr.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

# Nöfn.

Talan merkir kapitula.

## Misprentanir og leiðrèttingar.

*Bls.* $37^{25}$: lögsögn *á að vera* lögskilum. — *Bls.* $41^{5}$: Reyðarfell *á ef til vill að vera* Reiðarfell, *sbr. líka bls. 44, vísuna.* — *Bls.* $70^{8}$: Gaulkum *á að vera* Görtum. — *Bls.* $83^{17}$: freistað *á að vera* freistat. — *Bls.* $83^{27}$: Þorgils *á að vera* Þorgeirr. — *Bls.* $90^{6}$: móalóttan *á að vera* móálóttan. — *Bls. 89 er vísutalið* rangt, *á að vera* 36. — *Bls.* $100^{7}$: bláeygr *á að vera* gráeygr. — *Bls.* $118^{1}$: hefir *á að vera* hefr. — *Bls.* $141^{11}$: næstu *á að vera* næstum. — *Bls. 174 í 48. vísu* vigfús *á að vera* vigfúss. — *Bls.* $184^{16}$: Þorgrímr ok *falli burt.* — *Bls.* $185^{7}$: Þórhallssonar *á að vera* Þórhaddssonar. — *Bls. 186 í 50 vísu:* Hægt *á að vera* hæg. — *Bls.* $214^{19-20}$: Þórðarson *á að vera* Þorgeirsson.

*Á eftir vísutalinu 37 hefir það ruglazt svo, að það er einu hærra enn vera á.*

*Á aðrar leiðréttingar má benda í vísnaskýringunum.*

# Íslendinga sögur

þessar eru komnar út
og fást hjá öllum bóksölum:

| | | |
|---|---|---|
| 1.—2. | Íslendingabók og Landnáma | 85 aur. |
| 3. | Harðar saga ok Hólmverja | 40 — |
| 4. | Egils saga Skallagrímssonar | 125 — |
| 5. | Hænsa-Þóris saga . . . . | 25 — |
| 6. | Kormáks saga . . . . . | 50 — |
| 7. | Vatnsdæla . . . . . . . | 50 — |
| 8. | Hrafnkels saga freysgoða . . | 25 — |
| 9. | Gunnlaugs saga ormstungu . | 25 — |
| 10. | Njáls saga . . . . . . . | 175 — |
| 11. | Laxdæla saga . . . . . . | 100 — |
| 12. | Eyrbyggja saga . . . . . . | 75 — |
| 13. | Fljótsdæla saga . . . . . . | 60 — |
| 14. | Ljósvetninga saga . . . . . | 60 — |
| 15. | Hávarðar saga Ísfirðings . . | 35 — |
| 16. | Reykdæla saga . . . . . | 45 — |
| 17. | Þorskfirðinga saga . . . . | 30 — |
| 18. | Finnboga saga . . . . . . | 45 — |
| 19. | Víga-Glúms saga . . . . . | 45 — |
| 20. | Svarfdæla saga . . . . . | 50 — |
| 21. | Valla-Ljóts saga . . . . . | 25 — |
| 22. | Vápnfirðinga saga . . . . | 25 — |
| 23. | Flóamanna saga . . . . . | 35 — |
| 24. | Bjarnar saga Hítdælakappa . | 50 — |
| 25. | Gísla saga Súrssonar . . . | 80 — |
| 26. | Fóstbræðra saga . . . . . | 60 — |
| 27. | Víga-styrs saga ok Heiðarvíga | 50 — |